# VÁPNFIRÐINGA SAGA,

## ÞÁTTR AF ÞORSTEINI HVÍTA,
## ÞÁTTR AF ÞORSTEINI STANGARHÖGG,
## BRANDKROSSA ÞÁTTR,

besörget og oversat af G. THORDARSON,

udgivet

af

**det nordiske Literatur-Samfund.**

*Nordiske oldskrifter... V*



KJØBENHAVN.

TRYKT I BRØDRENE BERLINGS BOGTRYKKERI.

1848.

# Forord.

Den nu för förste Gang udgivne Vápnfirðinga saga, af Nogle kaldet Sagan af Broddhelga, slutter sig til Droplaugarsona saga, da Hovedmændene i dem begge deels ere beslægtede. deels besvogrede med hverandre; desuden foregaae Begivenhederne i de samme Egne af Island. De Haandskrifter, man har benyttet ved Bearbeidelsen af Texten, ere fölgende: 1) et Papirshaandskrift i AM. Nr. 513, 4.; 2) et Papirshaandskrift i AM. Nr. 563 b, 4.; 3) to Papirshaandskrifter i Rask's Samling paa Universitetsbibliotheket Nr. 28 og 36, 4.; 4) et Membranblad (i AM. Nr. 162 B Fol.). Dette Membranblad hænger sammen med det i Fortalen til Droplaugarsona saga omtalte Membranblad. Den forreste Side af samme, som indeholder vistnok det meste af det, som mangler i nærværende Saga, Pag. 21, om Broddhelges Drab, er desværre for det meste ulæselig; hvorimod den bageste Side, med Undtagelse af enkelte Ord, er heelt igjennem læselig. Denne begynder överst oppe med Ordene: at þèr man í skap hafa runnit, og ender med Ordene: eígi allfá, en ...

Ved at undersöge disse Haandskrifter noget nöiere, kom jeg snart til Kundskab om, at det under Nr. 1 anförte Papirshaandskrift var at foretrække for de andre, baade hvad Sproget og hele Fortællingsmaaden angik. og heri bestyrkedes jeg end mere ved at sammenholde det med det under Nr. 4 anförte Membranblad, da den Side af samme, der heelt igjennem er læselig, paa faa Undtagelser nær kan siges at stemme ganske overeens med dette Haandskrift. Jeg tog altsaa ikke i Betænkning at lægge det til Grund for Udgaven, og kun tage Hensyn til de övrige Haandskrifter, hvor det forekom nödvendigt at foretage en Rettelse, hvilket, for saavidt det ansaaes for vigtigt, findes anfört i Noterne under Texten.

De ligeledes for förste Gang udgivne Þáttr af Þor-

steini hvíta og Þáttr af Þorsteini stangarhögg slutte sig begge til Vápnfirðinga saga, da den förste er en Fortælling om Broddhelges Bedstefader, og i den sidste er Broddhelges Sön, Bjarne, den ene af Hovedmændene; desuden er Begivenhedernes Skueplads den samme. De Haandskrifter, jeg har benyttet, ere fölgende: a) tre Papirshaandskrifter i AM. Nr. 144, 156 (skreven af *Jón Erlindsson*), 158, Fol.; b) to Papirshaandskrifter i AM. Nr. 496, 562 a (hvori to Haandskrifter af Þáttr af Þorsteini stangarhögg, det ene dog ikke fuldstændigt), 4.; c) et Papirshaandskrift Nr. 27 i Additamenterne, Fol.; d) Nr. 1243, Fol. i Suhms Saml. paa det kongelige Bibliothek. Desuden forefindes Þáttr af Þorsteini stangarhögg a) i AM. Nr. 552 e, 4.; b) i Nr. 27 og 36 i Rask's Samling paa Universitetsbibliotheket; c) et Membranblad (i AM. Nr. 162 A Fol.), som ikke er blevet benyttet, da det er temmelig afvigende fra alle de anförte Haandskrifter, der i Hovedsagen stemme overeens med hverandre, og kunne vistnok alle ansees for at nedstamme fra een og samme Membran. Imidlertid har jeg lagt AM. Nr. 144 Fol. til Grund.

Brandkrossa þáttr er udgiven efter et Papirshaandskrift, AM. Nr. 164 k Fol., sammenholdt med Nr. 27 i Additamenterne. Dette Sagn slutter sig ikke til Vápnfirðinga saga, uden for saavidt Stedet angaaer, men hörer snarere deels til Sagan af Hrafnkeli freysgoða, deels til Droplaugarsona saga. Iövrigt er det uden synderlig historisk Værd. Denne þáttr er udgiven för af Prof. Thorlacius i Universitetets Indbydelsesskrift for Aaret 1816.

Rètskrivningen er overeensstemmende med dén, som findes anvendt i Sagan af Hrafnkeli freysgoða.

Oversættelsen er beregnet paa at lette Forstaaelsen af Texten. Brandkrossa þáttr er oversat af Copist i Cancelliet S. P. Chr. Th. Thorlacius.

I Sagaens Text har jeg bemærket fölgende Trykfeil: Pag. 25[31] og f. ok; 28[1] Ærinn f. Œrinn; 37[22] nökkr f. nökkur, [32] Heðinn f. Hèðinn; 39[12] eið f. reið; 43[27] og f. ok; 44[14] vínu f. sínu; 46[17] ógrligr f. ógurligr.

Sá maðr bjó at Hofi í Vápnafirði, er Helgi hèt; hann var sonr Þorgils Þorsteinssonar, Ölvissonar, Ásvaldssonar, Öxna-þórissonar. Ölvir var lendr maðr í Noregi um daga Hákonar jarls Grjótgarðssonar. Þorsteinn hvíti kom fyrst út til Íslands þeirra langfeðga ok bjó at Tóptavelli fyrir utan Eireksstaði[1]; en Steinbjörn bjó at Hofi, sonr Refs hins rauða. Ok er hánum eyddist fè fyrir þegnskapar sakir, þá keypti Þorsteinn Hofsland, ok bjó þar sextigi vetra. Hann átti Ingibjörgu Hroðgeirsdóttur hins hvíta. Þorgils, sonr Þorsteins, var faðir Broddhelga; hann tók við búi Þorsteins. Þorkell ok Hèðinn vágu Þorgils, föður Broddhelga, en Þorsteinn hvíti tók þá enn við búi, ok fæddi upp Broddhelga sonarson sinn. Helgi var mikill maðr ok sterkr ok harðgörr, vænn ok stórmannligr. Eigi var hann máligr í barnœsku, en údœll ok úvæginn þegar á unga aldri; hann var hugkvæmr ok margbreytinn. Frá því er sagt einhvern dag at Hofi, er naut váru á stöðli, at graðungr var á stöðlinum, er þeir frændr áttu, en annarr graðungr kom at, ok stönguðust graðungarnir. En sveinninn Helgi var úti, ok sèr, at þeirra graðungr dugir verr ok ferr frá. Hann tekr mannbrodd einn ok bindr í enni graðunginum, ok gengr þaðan frá þeirra graðungi betr. Af þessum atburði var hann kallaðr Broddhelgi, ok var hann afbragð allra þeirra manna at atgörfi, er þar fæddust upp í hèraðinu.

---

[1]) *saaledes de tre Haandskrifter;* Sirreksstaði, *36, hvilket stemmer overeens med* Landnámabók.

Maðr hèt Svartr, er kom út hingat, ok görði bú í Vápnafirði. Hit næsta hánum bjó sá maðr, er Skíði hèt; hann var fèlítill. Svartr var mikill maðr ok rammr at afli, vel vígr ok úeirðarmaðr hinn mesti. Þá Svart ok Skíða skildi á um beitingar, ok lauk því svá, at Svartr vá Skíða; en Broddhelgi mælti eptir vígit, ok görði hann sekan um; þá var Broddhelgi tólf vetra gamall. Eptir þat lagðist Svartr út á heiði, þá er vèr köllum Smjörvatnsheiði, skammt frá Sunnudal, ok leggst á fè Hofsverja, ok görði miklu meira at, enn hánum var nauðsyn til. Sauðamaðr at Hofi kom heim einn aptan, ok gekk inn í lokrekkjugólf Þorsteins karls, þar sem hann lá sjónlauss. Þorsteinn mælti: „Hversu hefir at farit í dag, fèlagi," segir hann. „Sem verst," segir hinn; „horfinn er geldingr þinn hinn bèzti, ok þrír aðrir," segir sauðamaðr. „Komnir munu til sauða annarra manna," segir Þorsteinn, „ok munu aptr koma." „Nei, nei," segir sauðamaðr; „þeir munu aldri aptr koma." „Mæl við mik slíkt er þèr líkar," segir Þorsteinn; „en tala eigi slíkt fyrir Broddhelga." Broddhelgi spurði sauðamann, hversu flakkat hefði um daginn; en hann hafði öll hin sömu svör við hann, sem við Þorstein. Broddhelgi lèt sem hann heyrði eigi, ok fór í rekkju um kveldit. Ok er aðrir menn váru sofnaðir, reis hann upp, tók skjöld sinn, ok gekk út. Þess er getið, at hann tók upp einn hellustein, mikinn ok þunnan, ok lèt annan enda í brœkr sínar, en annan fyrir brjóst. Hann hafði í hendi bolöxi mikla, á háfu skapti. Hann ferr unz hann kemr í sauðahús; hann rekr þaðan spor, því at snjár var á jörðu. Hann kemr á Smjörvatnsheiði upp frá Sunnudal. Svartr gekk út ok sá mann knáligan kominn at sèr, ok spurði, hverr þar væri. Broddhelgi segir til sín. „Þú mant ætla at fara á fund minn, ok eigi erendislaust," segir Svartr; hljóp at hánum, ok leggr til hans með högg-

spjóti miklu, en Bróddhelgi brá við skildinum, ok kom á utanverðan skjöldinn ok í helluna, ok sneiddi af henni svá hart, at hann fèll eptir laginu; en Broddhelgi höggr á fótinn, svá at af tók. Þá mælti Svartr: „Nú görði gæfumun okkarn," segir hann, „ok mantu verða banamaðr minn; en sá ættgeigr man verða í kyni yðru hèðan af, at alla æfi man uppi vera, meðan landit er byggt." Eptir þetta hjó Helgi hann banahögg. Nú vaknar Þorsteinn karl heima at Hofi, og gengr af rekkju sinni, ok tekr í rúm Broddhelga, ok var þat kalt orðit. Hann vekr upp húskarla sína ok biðr þá leita Broddhelga. Ok, er þeir komu út, röktu þeir spor hans alla leið, ok fundu hann, þar sem Svartr lá dauðr. Síðan huldu þeir hræ Svarts, ok höfðu með sèr allt, þat er fèmætt var. Var Broddhelgi víðfrægr ok lofaðr mjök af alþýðu fyrir þetta verk, er hann hafði unnit, jafnungr sem hann var enn at aldri.

Í þann tíma, er Þorsteinn bjó at Hofi, ok Broddhelgi óx upp með hánum, þá bjó sá maðr í Krossavík hinni ytri, er Lýtingr hèt, ok var Ásbjarnarson, Ólafssonar langháls[1]. Hann var vitr maðr ok vel auðigr at fè; hann átti konu þá, er Þórdís hèt, dóttur Herlubjarna[2] Arnfinnssonar. Þau áttu tvá sonu, þá er við þessa sögu koma; hèt annarr Geitir, en annarr Blængr. Halla hèt dóttir Lýtings, en önnur Rannveig, ok var hón gipt í Klifshaga í Öxarfjörð, þeim manni, er Ólafr hèt. Þeir váru mjök jafngamlir brœðr ok Broddhelgi, ok var með þeim vinfengi mikit. Broddhelgi fèkk Höllu Lýtingsdóttur, systur þeirra brœðra. Þeirra dóttir var Þórdís todda, er átti Helgi Ásbjarnarson. Bjarni hèt sonr þeirra hinn yngri, en Lýtingr hinn ellri. Bjarni var at fóstri í Krossavík með Geiti. Blængr var rammr at

[1]) Laugahallssonar, *513, 28 og 563.*
[2]) Hellobjarna *28*, Hallbjarnar *36*, Hechlubjarnar *563*.

afli, ok hallr nökkut í göngu. Geitir átti Hallkötlu Þiðrandadóttur, fændkonu þeirra Droplaugarsona. Svá var vingott með þeim Broddhelga ok Geiti, at þeir áttu hvern leik saman ok öll ráð, ok hittust mjök hvern dag, ok fannst mönnum orð um, hversu mikil vinátta með þeim var. Í þann tíma bjó sá maðr í Sunnudal, er Þormóðr hèt, ok var kallaðr stikublígr[1]. Hann var sonr Steinbjarnar kartar, ok bróðir Refs af Refsstöðum ok Egils á Egilsstöðum[2]. Börn Egils váru: Þórarinn, Hallbjörn, Þröstr ok Hallfríðr, er átti Þorkell Geitisson. Synir Þormóðar váru þeir Þorsteinn ok Eyvindr; en synir Refs, Steinn ok Hreiðarr. Allir váru þeir þingmenn Geitis; hann var spekingr mikill. Samfarir þeirra Höllu ok Broddhelga váru góðar. Lýtingr var á fóstri í Öxarfirði með Þorgilsi skinna. Broddhelgi var vel auðigr at fè.

Eitthvert sumar er frá því sagt, at skip kom út í Vápnafirði. Því skipi stýrði sá maðr, er Þorleifr hèt, ok var kallaðr hinn kristni. Hann átti bú í Reyðarfirði í Krossavík[3], ok var stjúpson Ásbjarnar loðinhöfða. Annarr stýrimaðr er nefndr Hrafn, norrœnn at kyni, auðigr ok fjölskrúðigr[4] at gersimum, sínkr maðr, fálátr ok vel stilltr. Þess er getið, at hann átti einn gullhring, þann er hann hafði ávallt á hendi sèr, ok einn kistil, er hann hafði opt

1) stikublindr *513. 28 og 563.*

2) *alle Haandskrifterne ere her betydelig afvigende fra hverandre, nemlig i Stedet for Ordene:* Hann var sonr Steinbjarnar kartar, ok bróðir Refs af Refstöðum ok Egils á Egilsstöðum *har 563:* Hann var sonr Steinbjarnar kors ok bróðir Refs hins rauða á Refstöðum ok Egils á Egilsstöðum; *36:* Hann var bróðir Refs á Refstöðum ok Egils á Egilsstöðum; *28:* Hann var sonr Steinbjarnar karls sonar Refs hins rauða á Refstöðum. Maðr hèt Egill; hann hafði bú á Egilsstöðum; *513:* Hann var sonr Steinbjarnar Karlssonar Refs hins rauða á Refstöðum. Maðr hèt Egill; hann bjó á Egilsstöðum. *Man har saaledes fulgt 563 og 36, der, sammenholdte, stemme overeens med* Landnámabók, *paa det nær, at 563 har* kors, *hvilket er rettet til* kartar, *som er den oprindelige Eieform af* körtr.

3) Krossanesi *563;* Cruxavík *28.*

4) *Gisning for* fjölkunnigr.

undir sèr í rúmi, ok hugðu menn hann fullan af gulli ok silfri. Þorleifr fór heim til bús síns í Krossavík[1], en austmenn vistuðust. Broddhelgi reið til skips, ok býðr stýrimanni til vistar með sèr. Austmaðr kvazt eigi þangat mundu til vistar fara; „því mèr ertu sagðr stórlátr ok fègjarn," segir hann, „en ek em smálátr ok lítilhœfr, ok er þat úsamfœrt." Broddhelgi falaði af hánum góða gripi, því at hann var skrautmenni mikit, en Hrafn kvazt engan grip vilja á frest selja. Broddhelgi svarar: „Sœmiliga hefir þú gört ferð mína, neitað vistinni, en synjat kaupsins." Geitir kom ok til skips, ok fann stýrimann, ok kvað hánum úvitrliga hafa til tekizt — ginntan at sèr hinn göfgasta mann í því hèraði. Austmaðrinn svarar: „Þat hefða ek ætlat, at vistast hjá einhverjum bónda, eða viltu nú taka við mèr?" segir hann. Geitir lèt eigi skjótt við því, en þó kom þar, at hann tók við stýrimanni. Vistuðust hásetar annarsstaðar, ok var skipi til hlunns ráðit. Görfibúr var austmanni fengit at geyma í varning sinn, ok seldi hann smátt varninginn. En er komit var at vetrnáttum, höfðu þeir Egilssynir haustboð, ok váru þeir Broddhelgi ok Geitir þar báðir. Gekk Helgi fyrir, ok sat innar, því at hann var skrautmenni mikit. Orð var á því gört eigi alllítið, at þeim Helga ok Geiti þótti svá tíðrœtt vera saman at því boði, at menn fengu hvárki af þeim tal nè gaman. Var nú slitið boðinu, ok fór hverr til síns heimilis. Um vetrinn var leikr fjölmennr at bœ þeim, er at Haga heitir, skammt frá Hofi; Broddhelgi var þar. Geitir fýsti austmanninn mjök til þessa fundar, ok kvað hann þar hitta mundu marga sína skuldunauta, ok fóru þeir síðan þangat, ok varð hánum hjaldrjúgt um skuldir sínar. Ok er leiknum var lokit, ok menn váru í brautbúningi, sat Helgi í stofu ok talaði við þingmenn sína. Maðr kom í stofu ok

[1]) *udeladet i 36 og 563; 28 har* Krossavík.

sagði þeim, at Hrafn austmaðr væri veginn ok yrði menn eigi varir við vegandann. Helgi gekk út, ok lèt illa yfir því verki, er þar var unnit. Útför Hrafns var gör sœmilig at þeirri siðvenju, sem þá var títt. Maðr hèt Torfi, ok bjó á Guðmundarstöðum; hann var mikill maðr, ok rammr at afli. Torfi var vinr þeirra Broddhelga ok Geitis. Hann var horfinn þann dag allan, er austmaðrinn var veginn. Þat var sumra manna frásögn um líflát Hrafns, at hánum hefði vísat verit á forað, ok týnzt þar. Þau orð fóru á milli Broddhelga ok Geitis, at hálft fè Hrafns myndi hvárr þeirra hafa, ok skipta eigi fyrr enn eptir várþing, ok tók Geitir við vörunni um várit, ok læsti í útibúri sínu. Þorleifr hinn kristni bjó skip sitt um várit til utanferðar, ok varð albúinn at várþingi. En er svá var komit, þá fóru menn til várþings í Sunnudal, bæði Broddhelgi ok Geitir, ok var þá í mörgum stöðum fátt manna heima. Ok er á leið þingit, var þat einn morgin snimma, at Þorleifr vekr upp skipverja sína. Stigu þeir á bátinn, ok rèru síðan í Krossavík; gengu þar upp, ok til útibúrs Geitis, luku því upp ok báru á braut allan fjárhlut, þann er Hrafn hafði átt, ok fluttu til skips síns. Halla var þar Lýtingsdóttir, ok skipti sèr engu af. Nú fór Broddhelgi heim af þinginu með Geiti, en áðr þeir komu heim, var þeim sagt, at Þorleifr hefði allan fjárhlut Hrafns upp tekit, ok ætlaði í braut at flytja hèðan af landi. Helgi tók svá upp, at Þorleifr myndi lögvillr orðinn um þetta mál, ok þegar myndi hann laust láta, ef vitjat væri. Fara þeir nú síðan út til kaupskipsins, ok höfðu mörg skip ok smá; ok er þeir kvöddust, mælti Broddhelgi, at Þorleifr skyldi laust láta fèit. Þorleifr kvazt lítið vita til laga, en kvazt ætla, at fèlagi myndi eiga at fœra fè erfingjum. Broddhelgi svarar: „Eigi ætlum vèr erendislaust at fara." Þorleifr svarar: „Fyrr skulu vèr berjast allir, enn þèr

fáit nökkurn penning." „Heyrit," kvað Helgi, „hvat sá maðr mælir, er engis góðs er verðr; skulu vèr at vísu göra þá hríð, at nökkurum svíði." Þá tók Geitir til orða, ok mælti: „Ekki at ráði þykkir mèr þetta, at veita þeim atsókn á smáskipum, en vèr vitum eigi, nema komi á andviðri, ok reki þá upp síðar; má þá enn þat af göra sem sýnist." Þetta var vel rœmt af öllum, ok var þetta ráð tekit; lètu þeir þá at landi, ok fór Broddhelgi heim með Geiti, ok var þar nökkurar nœtr. Þorleifi gaf þegar byri, ok varð hann vel reiðfara, ok fœrði erfingjum fè þat, er Hrafn hafði átt, en þeir kunnu hánum þökk fyrir, ok gáfu Þorleifi sinn hlut skips. Skildu þeir síðan góðir vinir.

Broddhelgi var heldr úkátr um sumarit, ok langaði mjök til komu Þorleifs. Á hverjum mannfundi hittust þeir Broddhelgi ok Geitir, ok rœddu um fjárlát sitt. Broddhelgi spurði Geiti at, hvat af kistli þeim væri orðit, er Hrafn hafði átt. En Geitir kvazt eigi vita, hvárt Þorleifr myndi hann utan haft hafa með öðru fè, eða man austmaðrinn haft hafa með sèr. „Ek ætla annat heldr," kvað Helgi, „at þú munir hafa hann í vitum þínum." Geitir mælti: „Hvar er hringr sá, er hann hafði á hendi, þá er hann var veginn?" „Eigi veit ek þat," segir Helgi, „en þat veit ek, at eigi hafði hann hann í gröf með sèr." Ok á hverjum mannfundi, er þeir hittust, spurði Helgi at kistlinum, en Geitir í mót at hringnum, ok greindi þá sýnt um. Verðr nú svá, at hvárr þeirra þóttist eiga nakkvat í annars garð, ok tók heldr at fækkast með þeim. Um sumarit eptir kom skip út í Reyðarfirði, er átti Þorleifr hinn kristni, ok váru þar á tveir sendimenn[1] með hánum. Þorleifr seldi sinn hlut skips, ok ferr síðan til bús síns eptir þat. Broddhelgi varð feginn þessum tíðendum. En er hann spurði, at Þorleifr hafði allt fè af

1) suðreyskir menn 38.

höndum greitt erfingjum Hrafns, þá þótti hánum úgreiðlig sú sök, at hón yrði gefin Þorleifi, ok ætlaði at fá á hánum annan fangstað. Kona hèt Steinvör; hón var hofgyðja ok varðveitti höfuðhofit. Skyldu þangat allir bœndr hoftoll gjalda. Steinvör ferr á fund Broddhelga, því at hón var hánum skyld, ok segir hánum til sinna vandræða, at Þorleifr hinn kristni gyldi eigi hoftoll sem aðrir menn. En Broddhelgi kvazt taka mundu þetta mál af henni á hendr Þorleifi hinum kristna. Maðr hèt Ketill, er bjó í Fljótsdal, ok var kallaðr hinn[1] digri Ketill, góðr drengr ok garpr mikill. Þat er at segja um för Helga, at hann kom at gisting til Ketils, ok tók hann vel við hánum. Þeir binda vel vinfengi sitt. Helgi mælti: „Einn er sá hlutr, Ketill, er ek vil biðja þik, at þú görir fyrir mik, at sœkja Þorleif hinn kristna um hoftoll, ok stefnir hánum fyrst, en ek vil koma til þings, ok sèm vit þá báðir saman." Ketill segir: „Eigi munda ek bundit hafa vinfengi við þik, ef ek hefða vitað þetta undir búa; því at Þorleifr er maðr vinsæll, en eigi man ek neita þèr í fyrsta sinni." Skildust þeir síðan, ok ferr Helgi leiðar sinnar. Ketill bjóst heiman, þá er hánum þótti tími til, ok fara saman tíu karlar. Koma þeir í Krossavík[2] snimma dags. Þorleifr stóð úti ok kvaddi þá Ketil, ok bauð þeim öllum gisting, en Ketill kvað snimmt at taka gisting, svá gott veðr sem væri. Ketill spyrr, hvárt Þorleifr hefði goldit hoftoll, en hann kvazt ætla at goldinn myndi. „Þat er mitt erendi hingat, at heimta hoftollinn," segir Ketill, „ok er þèr eigi ráð at halda, því er engan mun ferr í." Þorleifr svarar: „Meir gengr mèr þat til, enn smálæti, at mèr þykkir þat allt illa komit, er þar leggst til." Ketill svarar: „Þat er mikil dul, at þú þykkist betr kunna, enn aðrir menn allir, er þú vilt eigi gjalda slíkar lögskyldir." Þorleifr svarar: „Eigi hirði ek,

1) *tilfötet.* — 2) *saaledes alle Haandskrifterne.*

hvat þú segir um þetta mál." Síðan nefndi Ketill sèr vátta, ok stefndi Þorleifi hinum kristna, ok er lokit var stefnunni, þá bauð Þorleifr þeim þar at vera, ok taldi veðrit útrúligt görast. Ketill kvazt fara mundu. Þorleifr bað þá aptr hverfa, ef veðrit tœki at harðna. Fara þeir nú á braut. ok var skammt at bíða illviðris, ok urðu þeir aptr at hverfa. Komu þeir allsíð til Þorleifs, ok váru mjök dasaðir. Þorleifr tók vel við þeim, ok sátu þeir þar tvær nœtr veðrfastir, ok var því betri beini, sem þeir sátu lengr. En er þeir Ketill váru braut búnir, þá mælti hann: „Vèr höfum haft hèr góðan beina, ok hefir þú, Þorleifr, reynzt hinn bezti drengr, ok man ek því launa þèr, at niðr skal falla sök þín, ok vera vinr þinn hèðan frá." Þorleifr svarar: „Mikils þykkir mèr vert vinfengi þitt, en ekki þykkir mèr undir, hvárt sökin fellr eða eigi; heit ek á þann fèlaga, er mik lætr eigi slíkt verða." Skilja þeir síðan við svá búit, ok líðr nú svá fram til þingsins. Þat er sagt, at Broddhelgi fjölmennir mjök til þingsins, og hyggr sèr til hreifings. Ok er á leið þingit, spurði Broddhelgi Ketil, hvar komit var um mál Þorleifs hins kristna; en hann sagði hánum hit sanna. Helgi segir: „Mjök hefir þú, Ketill, brugðizt mèr um þetta mál, enda man ok lokit vinfengi okkru." Ok fæst nú ekki fang á Þorleifi; ok er hann ór þessarri sögu. Þeir Broddhelgi ok Geitir hittust nú skjótt eptir þingit, ok taldi Helgi mjök á hendr Geiti; kvezt af hánum þessa svívirðing hlotið hafa, nær sem hann gæti leiðrètt, ok tók þeirra vinfengi heldr at minnkast.

Þat er sagt, at Halla Lýtingsdóttir tók eitt sinn til orða við Broddhelga, ok mælti: „Samfarir okkrar hafa lengi góðar verit, en ek kenni mjök vanheilsu, ok man þèr verða skömm forvista at mèr fyrir búi þínu." Helgi svarar: „Ek þykkjumst vel kvángaðr vera, ok ætla ek at una þessu meðan okkat

líf vinnst." En þat var þá siðvenja í þær mundir at beiðast ór búi. Kona hèt Þorgerðr, ok var kölluð silfra; hón var dóttir Þorvalds hins háfa, ung at aldri, ok var hón þó ekkja, ok bjó í Fljótsdal, þar sem nú heitir at Þorgerðarstöðum, ok var at umsýslu með henni bróðir hennar, er Kolfinnr hèt. Þorgerðr bauð Broddhelga til sín við þriðja mann, ok fór hann þangat. Tók hón við hánum ágæta vel: setti hann í öndvegi, ok sat hjá hánum sjálf. Varð þeim allhjaldrjúgt, ok áðr Helgi fór heim, er þat skjótast af at segja, at hann fastnaði sèr Þorgerði silfru. Er þá eigi frá Helga sagt, fyrr enn hann kom heim til Hofs. Var hann þá spurðr at tíðendum. Hann segir, at kona sè föstnuð manni. Halla spurði: „Er þat Þorgerðr silfra?" „Já," segir hann. „Hverjum er hón föstnuð?" segir hón. „Mèr," kvað hann. „Þat þykkir þèr eigi of brátt?" segir hón. Litlu síðar kvezt Helgi mundu fara eptir Þorgerði, ok bað hón skyldi þar vera á meðan, ok þat lèt hón leiðast, at hón fór eigi fyrr, enn Þorgerðr kom. Spurðust nú þegar þessi tíðendi um hèraðit, ok lagðist illr rómr á; því at Halla var vinsæl af öllum mönnum. Þeir brœðr sendu menn eptir Höllu, ok fór hón með þeim, er Helgi var heim kominn, ok hafði með sèr gripi sína. Helgi stóð úti í durum, ok lèt sem hann vissi eigi, at Halla fór í braut. Halla var varla á bak komin, áðr Geitir, bróðir hennar, kom þangat ríðandi. Þá mælti sendimaðr, at þau skyldu ríða fyrr, enn Geitir sneri til málaleitanar við Helga; ok svá görðu þau. Þá mælti Geitir við Helga, er þeir hittust, ok spurði, hvenær hann vildi greiða af höndum fè þat, er Halla ætti í hans garð. Helgi svarar: „Gott þykkir mèr, ef Halla únir eigi í Krossavík, þá er hón er heim komin; man hón enn hverfa heim aptr hingat til Hofs." Geitir reið nú heim við svá búit, ok þótti hvárumtveggja eigi betr enn áðr. En er

Geitir kom eptir, spurði Halla, hvat þeir Helgi hefði við talazt, en hann sagði slíkt, sem til bar. Hón segir: „Þú hefir verit hölzti bráðr í þessu máli, ok má vera, at Helga þykki sviptir í, ef þú firrir hann öllu saman, ok er fjárstaðr greiðr at Helga; man eigi mitt fè þverra í hans garði, ef þat stendr með leigum." „Sè ek," kvað Geitir, „hversu þetta mál horfir; þykkir mèr svá fremst allrar svívirðingar í leitað, ef þú ríðr fèlaus ór hans garði." Nú leið af vetrinn, ok fór Geitir um várit til Hofs at heimta út penninga Höllu í annat sinn, en Broddhelgi vildi eigi út gjalda. Þá stefndi Geitir Broddhelga um fè Höllu til Sunnudalsþings, ok fjölmenntu hvárirtveggja mjök til þingsins. Varð Helgi fjölmennari, en Geitir hafði mannval betra. En er at dómi skyldi ganga, þá varð Geitir ofrliði borinn, ok kom Broddhelgi málinu fram. Bauð Geitir málinu til alþingis, ok eyddi Broddhelgi þá enn málit ok mest af liðveizlu Guðmundar hins ríka, ok görðist nú hinn mesti úþokki með þeim Broddhelga ok Geiti.

Maðr hèt Þórðr, er bjó í Sunnudal, á bœ þeim, er í Tungu heitir, þeim megin ár, er Hofsbœr stendr; hann var þingmaðr Helga. Þeir Þormóðr áttu skóg saman, ok skildi þá á um skógarhöggit ok svá þeitingar, ok þóttist Þórðr mjök vanhaldinn fyrir Þormóði. Fór hann á fund Broddhelga, ok sagði hánum ágang Þormóðar. Broddhelgi kvazt eigi nenna at deila um fè hans, ok engan hlut mundu í eiga, nema hann handsalaði hánum fèit allt ok fœri til Hofs með allt sitt; en hann kaus þetta, ok seldist Broddhelga arfsali. Einhvern dag kvaddi Broddhelgi Þórð at ríða á afrètt, ok sjá geldfè sitt, þat er þar var. Fóru þeir síðan ok komu í afrèttinn. Þá mælti Broddhelgi: „Nú höfum vit sèt yfir fènað þann, er þit Þormóðr hafit áttan." Síðan ferr Broddhelgi til ok safnar saman uxum þeim, er Þormóðr

átti; höggr af þeim höfuðin, og lætr þar liggja; ferr heim síðan, sendir mann Þormóði, ok biðr hann at láta forvitnast um yxn sín, ok svá var gört. Var slátrit heim fœrt. Eptir þat ríðr Þormóðr í Króssavík, ok segir Geiti til; bað at hann rètti hluta sinn, en Geitir kvazt eigi nenna at deila við Broddhelga. Þormóðr segir: „Illa er þèr varit, er þú vilt eigi stoða mál vár.” „Eigi stoða ek mál þín,” segir Geitir, „en fœr hingat uxaslátrit, ok man ek kaupa svá, at þèr sè skaðlaust.” Þormóðr ferr heim þvílíkr, er hann kom þar, ok var nú Broddhelga sagt, at hann myndi hafa farit að segja Geiti til vandræða sinna. „Þat vilda ek gjarna,” segir Broddhelgi, „at hann þyrfti eigi optar slíkra erenda at fara.” Ok litlu síðar stefnir Broddhelgi til sín landsetum sínum, ok kveðr þá til ferðar með sèr, þar með húskarla ok gesti, ok fóru þeir í skóg þann, er þeir Þormóðr áttu báðir saman; hjuggu upp allan skóginn, ok drógu hvert trè heim til Hofs. Ok er Þormóðr frètti þetta, hverr skaði hánum var görr, þá ferr hann í annat sinn á fund Geitis, ok sagði hánum, hverr újafnaðr hánum væri görr. Þá svarar Geitir: „Miklu þykkir mèr meiri várkunn á, at þèr þykki sá skaðinn illr, heldr enn hinn, er fyrr var görr, því sá þótti mèr lítils verðr; vil ek eigi veita þèr móti Helga til þessarra mála, en þó man ek leggja ráð til með þèr: Finn þá frændr þína, sonu Refs hins rauða, Stein ok Hreiðar, ok bið þá fara með þèr stefnuför til Hofs; kom þú ok á Guðmundarstaði, ok bið Torfa[1] at fara með þèr, ok verit eigi fleiri saman, enn átta. Þú skalt[2] stefna Þórði um skógarhögg, ok stilltu svá til, at Broddhelgi sè eigi heima; eigi man yðr ella duga.” Þormóðr ferr við svá búit, ok hittir þá menn, er Geitir hefir til nefnda, ok hètu þeir allir förinni, ok ákveða hvenær fara skyldu. Ríðr Þormóðr nú heim, ok segir Geiti, hvar komit

[1]) Tjörfa *28, 563.* — [2]) *Gisning.*

var. En svá er satt sem mælt er, at ‚ferr orð, ef um munn líðr', og kemr þetta til eyrna Broddhelga, ok ferr hann eigi, sem ætlat var. Þann morgin, er þeirra var ván, mælti Broddhelgi við húskarla sína, at þeir skyldi hvergi fara frá húsum um daginn; „skulu þèr," sagði hann, „höggva yðr sviga stóra ór viði, ok stafi marga; er manna hingat ván í dag, ok skulu þèr þá neita stafanna, ok keyra hrossin undir þeim, ok reka svá ór túni allt saman." Nú fara þeir Þormóðr heiman, sem ætlat var, ok koma til Hofs; sjá þeir ekki manna úti, ok ríða þegar á hlaðit, ok nefnir Þormóðr sèr vátta, ok stefnir Þórði um skógarhögg. Helgi var inni ok heyrir stefnuna; hleypr út síðan, ok leggr í gegnum Þormóð með spjóti, ok mælti: „Rekum í braut þessi vanmenni, ok látum þá hafa hingat erendi átt til Hofs í dag." Nú hlaupa út húskarlarnir, ok berja hrossin undir þeim, ok hörfar nú allt saman ofan fyrir hlaðit, ok urðu þau málalok, en eigi betri, at menn Geitis komust undan með illum leik, bæði sárir ok barðir, en sumir fèllu þar dauðir. Þat höfðu menn fyrir satt, at Broddhelgi myndi orðit hafa banamaðr þeirra, er dauðir váru; lèt hann bera líkin í tópt eina, ok bera ofan á hrís. Menn Geitis undu stórilla sínum hlut, ok ekki þó öðru verr, enn því, at þeir náðu eigi at jarða frændr sína ok ástmenn. Komu þeir opt á tal um þetta mál við Geiti, en hann bað þá bíða um stund, ok sagði: „Þat er mælt, at síðar verðr sá at leita, er lítið sax hefir, ok man oss svá fara við Broddhelga."

En er á leið, sendir Geitir orð þingmönnum sínum. Fara þeir síðan ór Krossavík, ok stefndu leið til Hofs. Geitir mælti: „Vèr höfum eigi lið þetta svá leyniliga saman dregit, at eigi muni Broddhelgi spurt hafa, ok get ek, at þar muni fjölmennt fyrir vera. Vèr skulum ríða í tún, ok stíga af baki, en binda hesta vára, ok leggja af oss skikkjur

ok ganga síðan heim snúðigt; en ek get, at þá komi þeir Broddhelgi í móti oss, en eigi munu þeir bera vápn á menn vára. Skulum vèr þat mest varast, at sæta áverkum við engan mann fyrri, ok þœfast svá við. Nú skulu þeir fara af liði váru Egilssynir ok Narfi hinn mikli með þeim upp þessum megin um Guðmundarstaði, ok svá í skógana gegnt Hofi, ok skulu þeir hafa kollaupa stóra ok tóma á hestunum, ok farit," segir hann, „þegar þèr komit at túngarðinum, heim til húsa leyniliga, takit líkamana ok látið í laupana, ok farit svá aptr sömu leið til móts við mik." Nú skilja þeir, ok fara hvárirtveggja eptir fyrirsögn Geitis; ok er þeir Geitir komu mjök at bœnum, stíga þeir af baki, ok fara at öllu tómliga. Helgi var mjök fjölmennr fyrir, ok rèzt þegar á móti þeim Geiti. Verða þar kvaðningar með engri blíðu. Spurði Broddhelgi, hvert þeir Geitir ætluðu at fara; en hann kvazt litlu mundu nú við auka, ok lèzt þat ætla, at öllum myndi þykkja auðsýnt erendit. „Munum vèr ok eigi úfrið bjóða at sinni," kvað hann, „þó at til þess sè ærin sök, ok viljum vèr enn framar leita hins sama, sem fyrr, áðr enn vèr ráðum frá með öllu." Þeir þœfast nú þannig við um daginn, ok reiðir þröngina ýmsa vega eptir vellinum. Þá tekr einn maðr til orða ór flokki Helga: „Menn fara þarna, eigi allfáir, með klyfjahross." Annarr svarar: „Eigi eru þat síðr kolamenn, ok fara ór skógi, ok eru laupar á hrossunum; sá ek þá í dag, er þeir fóru í skóginn." Nú fellr svá niðr þeirra hjal. Þá mælti Geitir: „Nú man enn fara sem optar, at vèr munum ór bera hinn lægra hlut; því at vèr nám eigi at flytja í braut lík frænda várra. „Því lætr þú þannig," segir Broddhelgi, „þat er enn líkligra, at hinn lægri verði at lúta; þó er þat vænst til, at hvárigir taka nú úvirðing af öðrum á þessum fundi, ok viljum vèr nú slíta þessarri þœfð um sinn, ef yðr sýnist, en eigi viljum

vèr komu yðra nær húsi, enn nú eru þèr komnir." Eptir þetta slitu þeir þröngdinni, ok fóru þeir Geitir til hesta sinna, en þeir Broddhelgi váru eptir á vellinum. Þeir Geitir komu til móts við þá Egilssonu, stigu þegar af baki, ok stallra við, en þeir Broddhelgi stóðu uppi á hlaðinu at Hofi, ok sá at þeir Geitir dvöldust. Þá tók Broddhelgi til orða: „Eptir koma úsvinnum manni ráð í hug. Vèr höfum verit í allan dag í þröngd þessarri, ok sè ek nú eptir, at kappar Geitis váru hèr engir, ok munu þeir hafa borit braut líkin í kollaupunum, ok er þat ávallt, at Geitir er vár vitrastr, þótt hann verði jafnan ofríki borinn." Ekki varð eptirmál um víg Þormóðar, ok í engu máli fèkk Geitir jöfnuð af Helga. Þorkell fór utan, sonr Geitis, ok var jafnan landa í millum, þegar hann hafði aldr til þess, ok varð hann lítt við riðinn um mál þeirra Broddhelga ok Geitis föður síns. Vanmáttr Höllu Lýtingsdóttur görðist mikill ok hættuligr.

Þat er sagt, at Geitir fór heiman í Fljótsdalshèrað til Eyvindarár á kynnisleið, ok var í braut meir enn viku. Ok er hann var heiman farinn, sendi Halla mann eptir Broddhelga, ok bað, at hann skyldi hitta hana. Hann fór þegar í Krossavík. Halla kvaddi hann, en hann tók vel kveðju hennar. Hón bað, at hann skyldi sjá meinit, er hón hafði; en hann görði svá, ok kvazt hánum þungt hugr um segja. Hann hleypir út vatni miklu ór sullinum, ok varð hón mjök máttlítil eptir þetta. Hón bað hann þar vera um náttina, en hann vildi þat eigi; var hón angrsöm, ok mælti við hann: „Eigi þarf nú at biðja þik lengr hèrvistar; þú mant nú lauss þykkjast, ok lokit hafa verkum, en þess get ek, at fæstir muni leika svá við konur sínar, sem þú nú við mik." Broddhelgi fór heim aptr til Hofs, ok undi illa við sinn hlut. Lifði Halla litla stund síðan, ok var

hón önduð, er Geitir kom heim. Var hánum sagt allt svá sem farit hafði, ok er nú kyrrt um hríð.

Eptir þetta óx mikil úþykkja með þeim Broddhelga ok Geiti. Eitthvert sumar var þat, at Broddhelga varð aflafátt á alþingi, ok bað hann Guðmund ríka liðs; en hann kvazt eigi nenna at veita hánum lið á hverjum fundi, ok úvinsæla sik svá við aðra höfðingja, en taka af hánum engi gœði í mót. Skildu þeir svá fyrir um þetta mál, at Guðmundr hèt hánum liði, en Helgi skyldi gefa Guðmundi hálft hundrað silfrs. Ok er dómum var lokit, höfðu Broddhelga málin vel gengit; þá mœttust þeir Guðmundr við búðir, ok heimti Guðmundr fèit at Helga; en Broddhelgi kvazt ekki eiga at gjalda hánum, ok kvazt eigi sjá, at hann þyrfti fè at gefa í milli vinfengis þeirra. Guðmundr segir: „Illa er þèr farit," segir hann, „þarft annarra ávallt, en geldr eigi þat, er þú ert heitbundinn, en vinfengi þitt þykki mèr lítils vert; man ek eigi optar heimta þetta fè, enda vera þèr aldri at liði síðan." Skildu þeir við svá búit, ok er nú lokit vinfengi þeirra. Geitir spyrr þetta, ferr til fundar við Guðmund ríka, ok býðr hánum at taka fè til vinfengis. Guðmundr lætzt eigi vilja fè hans, ok kvað sèr lítið um vera, at veita þeim mönnum lið, er ávallt vildu hinn lægra hlut ór hverju máli bera. Fara menn nú heim af þinginu, ok er allt kyrrt um hríð.

Þat er sagt, at skip kom út í Vápnafirði, ok var á því skipi Þórarinn Egilsson, er þá var kallaðr vænstr maðr í förum ok görfiligstr. Broddhelgi reið til skips, ok bauð þeim Þórarni til vistar með sèr, ok þeim mönnum með hánum, sem hann vildi; en hann kvazt þat þiggja mundu. Fór Broddhelgi heim, ok sagði þangat ván Þórarins stýrimanns til vistar. Geitir reið ok til skips, hitti Þórarinn ok spyrr, ef hann ætlar til Hofs. Hann kvað þat rœtt,

en ráðit eigi. Geitir kvað hánum heldr ráðligra at fara í Krossavík; „því at fám ætla ek mínum mönnum vel gefast at þiggja vist hjá Helga." Þat rèzt ór, at Þórarinn fór í Krossavík. Broddhelgi spyrr þetta, ok ríðr þegar til skips með söðlaða hesta, ok ætlar at hafa Þórarin heim með sèr. Þórarinn segir, at þá var annat ráðit. „Þat vil ek sýna," segir Broddhelgi, „at ek hefi þèr eigi með flærð heim boðit; því at ek vil vera vandalauss af, þótt þú farir heim þangat." Annan dag eptir reið Broddhelgi til skips, ok gaf Þórarni stóðhross, fimm saman, til vinfengis, ok váru þau öll fífilbleik. Geitir ferr nú eptir Þórarni, ok spyrr, hvárt hann hafi þegit stóðhrossin at Brodhelga. En hann kvað þat satt vera. „Þat ræð ek þèr," segir Geitir, „at þú skilir aptr stóðhrossunum." Hann görði svá, ok tók Broddhelgi við þeim aptr. Þórarinn var með Geiti um vetrinn, ok fór utan um sumarit eptir, ok er hann kom út, hafði Geitir flutt bústað sinn, ok bjó þar èr heitir í Fagradal. Þórarinn fór á Egilsstaði til vistar. Þeir bera ráð saman þingmenn Geitis, ok þóttust eigi lengr þola mega újafnað Broddhelga. Fara nú til fundar við Geiti, ok er Þórarinn fyrir þingmönnum. Hann mælti þá: „Hversu lengi skal svá mega fram fara," segir hann, „til þess er yfir lýkr með öllu um ágang Broddhelga. Nú gengr margt manna undan þèr, ok laðast allir til Broddhelga, ok virðum vèr þèr þrekleysi eitt til ganga, er þú hlífist við Broddhelga. Þú ert ykkar eigi úsnarari, ok eigi hefir þú með þèr minni garpa, enn hann hefir með sèr. Eru nú tveir kostir til af várri hendi — at þú farir heim í Krossavík með bú þitt, ok flý þaðan aldri síðan, en gör í mót Broddhelga, ef hann görir þèr nökkurn úsóma hèðan í frá; ella munu vèr selja bústaði vára, ok ráðast í braut, sumir af landi, en sumir ór hèraði."

Geitir görir nú heiman ferð sína norðr í Ljósavatnsskarð

til Úfeigs Járngerðarsonar. Guðmundr hinn ríki hitti Geiti, ok sátu þeir á tali allan dag. Skilja þeir Geitir síðan, ok gistir hann at Mývatni, at Ölvis hins spaka. Spurði hann at Broddhelga vandliga, en Geitir lèt vel yfir hánum, ok kvað hann vera stórmenni mikit, úvæginn ok údœlan, ok þó góðan dreng at mörgu lagi. „Er hann eigi újafnaðarmaðr mikill?" segir Ölvir. Geitir svarar: „Þat er helzt á mèr orðit um újafnað Helga, at hann ann mèr eigi at hafa himininn jafnan yfir höfði mèr, sem hann hefir sjálfr." Ölvir svaraði: „Skal hánum þá allt þola?" sagði hann. „Svá hefir enn verit hèr til," segir Geitir. Nú hættu þeir þessu tali, ok ferr Geitir heim, ok er allt kyrrt um vetrinn.

Um várit eptir fœrir Geitir bústað sinn í Krossavík, ok hafði mjök mannmargt. Halleri var mikit. En er dró at þingi, hittust þeir Broddhelgi ok Geitir, ok spurði Helgi, hversu fjölmennr hann myndi ríða til þings. „Hví skal nú fjölmenna?" segir hann, „þar á ek ekki um at vera; ek man ríða til öndverðs þings, ok ríða við fá menn." „Við munum hittast, þá er ek ferr," kvað Helgi, „ok ríða báðir saman, ok man ek við fá menn ríða." „Vel man þat vera mega," segir Geitir. Bjarni, sonr Broddhelga, ríðr heiman á öndvert þing með þingmönnum þeirra Helga, en Lýtingr beið föður síns, því at hann unni hánum miklu meira. Geitir hefir nú njósn af för Broddhelga. Broddhelgi ríðr heiman, er hann var búinn, ok með hánum Lýtingr, sonr hans, ok Þorgils skinni, fóstri Lýtings, Eyjólfr feiti, Kollr austmaðr, Þorgerðr silfra, ok dóttir þeirra Broddhelga, er Hallbera hèt. Geitir ríðr ok heiman, ok með hánum Egilssynir, Þórarinn, Hallbjörn ok Þröstr, Tjörfi hinn mikli ok sjau menn aðrir. Þat segja sumir menn, at Broddhelgi ætti fóstru framvísa; var hann vanr at finna hana jafnan, áðr hann fór heiman, ok svá görði hann enn. Ok er hann kom til hennar, sat

hón ok sá í gaupnir sèr ok grèt. Helgi spyrr, hví hón grèt, eða hví henni væri svá skapþungt. Hón kvazt gráta drauma sína. „Þat dreymdi mik," segir hón, „at mèr þótti hèr upp rísa at Hofi uxi einn, bleikr at lit, mikill ok skrautligr, ok bar hann hátt hornin, ok gekk á sandinn fram hjá Sunnudalsmynni. Enn sá ek fara naut utar éptir hèraðinu, stór ok eigi allfá," segir hón, „ok þar fyrir uxi rauðflekkóttr, eigi mikill nè fagr, en allsterkligr var hann; nautin stönguðu uxann til bana, hinn mikla. Þá reis hèr upp at Hofi rauðr uxi, ok var beinalitr á hornum; hann var allra nauta skrautligastr, sá stangaði rauðflekkótta uxann til bana. Þá reis upp í Krossavík þjórr nökkurr, ok var sænautalitr á hánum. Hann fór beljandi um allt hèraðit ok heiðarnar, ok leitaði ávallt hins rauða uxans, enda vaknaða ek þá," segir hón. „Þat mantu ætla," segir Brodd-helgi, „at ek muna eiga hinn bleika uxann, en Geitir hinn rauðflekkótta, ok muni hann verða mèr at bana. „Þat ætla ek víst," segir hón. „Þat mantu ætla," segir hann, „at Lýtingr muni sá rauði uxinn ok muni hefna mín." „Nei," segir hón, „Bjarni man hefna þín." „Þá veiztu ekki til," segir hann, ok hljóp þá út reiðr . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .[1] at þèr[illegible]gni í skap hafa runnit við oss, ok vildum vèr þat þó eigi. Bjarni var fámáligr mjök. Kolfinnr fór heiman með Bjarna. Hann tók til orða illu heilli, ok mælti, ok sá í himininn upp: „Nú er margháttað um veðráttu; þótti mèr nökkut èlligt vera ok allkalt, en nú þykkir mèr því líkt göra, sem þegja muni. Bjarni svarar: „Þá man ávallt þegja, ef þetta verðr at því." Bjarni stóð þá upp ok mælti: „Dofinn er mèr fótr minn." „Ligg þú þá kyrr," segir Geitir. Bjarni hjó þá í höfuð Geiti, ok fekk hann þegar bana; ok jafnskjótt sem hann hafði höggvit Geiti, iðraðist hann, ok settist undir

[1]) *her er en Lacun i alle Haandskrifterne; see Fortalen.*

höfuð Geiti, ok andaðist hann í knjám hánum. Geitir var jarðaðr síðan, ok fara menn braut [ok var þar ekki mælt til líka][1]. Þetta verk mæltist illa fyrir, ok þótti úmannligt orðit. Bjarni fór heim til Hofs, ok er hann kom heim, rak hann á braut Þorgerði silfru, ok mælti, at hón skyldi aldri koma í augsýn hánum. Þorkell, sonr Geitis, var eigi á Íslandi, er faðir hans var veginn, en Blængr varðveitti bú í Krossavík með umsjá Egilssona, er þá váru mágar Þorkels Geitissonar. Um várit tóku bœndr af þingit, ok vildu eigi hafa, ok þótti úvænt[2] í millum at ganga þeirra manna, er í slíkum stórmálum áttu hlut. Þat er sagt, at Bjarni setti til mann þann, er Birningr hèt, at hafa njósn af, ef nökkurs ófriðar væri ván, at göra Bjarna varan við, svá ekki mátti hánum á úvart koma. Þorvarðr hèt maðr; hann var vinsæll, ok var kallat, at hann væri þá beztr læknir þar í hèraðinu; hann bjó á Eireksstöðum[3]. Nú kemr Þorkell Geitisson út, ok ferr hann þegar til bús síns í Krossavík, ok lætr sem hann eigi ekki um at vera. Þá sendir Bjarni menn á fund Þorkels, þá er beggja þeirra vinir váru, at bjóða hánum sætt ok sjálfdœmi. En er þeir báru erendi sín upp fyrir Þorkeli, lèt hann sem hann heyrði ekki, ok eigi brá hann tali sínu, því er hann hafði áðr. Nú fara sendimenn aptr, ok segja Bjarna svá búit. Svá virðu menn, at Þorkell myndi eigi til hefnda hyggja. Bjarni var vanr at fara á fjall hvert haust, sem faðir hans hafði gört, ok treystist þá engi öðrum rangt at göra. Þorvarðr læknir varð þess varr, at Þorkell bjóst til fjallgöngu, ok valdi hann menn með sèr til brautargengis. Þorvarðr görði Bjarna varan við. Settist Bjarni þá aptr, ok fær aðra menn í sinn stað. Nú gengu

1) *dette Sted er forvandsket i Haandskrifterne. 513 og 28 har:* ok var ekki mælt eptir slíku at sinni; *men udelades ganske i 563.*

2) *Gisning for* úeint.

3) Sirtekkstöðum *36, 563.*

menn á fjallit, ok varð eigi fundr þeirra, sem Þorkell hafði ætlat, ok sátu þeir um kyrrt.

Þat er nú þessú næst frá at segja, at Þorkell Geitisson sendir mann heiman einn dag ór Krossavík, ok til Egilsstaða at hitta Þórarin. Sá maðr hèt Kollr, er sendr var. Þat var erendi Kolls at vita, hversu fjölmennt væri at Hofi. Ok er hann kom á Egilsstaði, hitti hann Þórarin úti, ok segir hánum sitt erendi. Þórarinn mælti: „Eigi man þèr gestbeinliga þykkja boðit; far þú heim aptr sem tíðast, ok lát eigi verða við vart, en ek man varr verða, þess er Þorkel forvitnar, ok man ek segja hánum þat." Nú snýr Kollr heim á leið, ok varð hánum síð farit; en á þessum sama tíma varð sá atburðr, at maðr braut fót sinn á næsta bœ Eirekstöðum[1], ok var farit eptir Þorvarði lækni, ok kom hann at binda fótinn. Hánum var boðit at vera, en hann vildi heim ríða um náttina, ok hitti Koll á leið. Kvöddust þeir ok spurðust tíðenda. Þorvarðr spyrr, hvaðan Kollr væri at kominn; en Kollr spyrr í móti, hví hann fari um nœtr. Þorvarðr kvað þat engu sæta, en „seg mèr nú þitt erendi," segir hann. „Ek fór upp í hèrað," segir Kollr, „at leita sauða ok fann ek eigi." Skiljast þeir nú, ok fór Kollr heim um náttina. En um morgininn eptir tók Þorvarðr hest sinn, ok reið upp til Hofs; var hánum þar vel tekit, ok var spurðr at tíðendum, en hann segir, at maðr braut fót sinn. Heimtir hann nú Bjarna á tal, ok segir hánum, at hann hitti Koll, ok þótti sem hann myndi kominn frá Egilsstöðum, ok sagðist víst vita, at hann segði hánum ekki orð satt um sína ferð. „Sè ek nú," kvað Bjarni, „at þú vilt, at ekki görist þat nú í hèraðinu, at ek vita eigi, ok haf mikla þökk fyrir. Nú far þú heim ok kom þú á bœ þann, er heitir at Fáskrúðsbakka í miðju hèraðinu; þar

[1]) Sirrekssföðum 36, 563.

eru Þorkels menn fyrir; ok ef at verðr spurt, hversu fjölmennt hèr er, þá seg þú, at hèr komu í morgin nökkurir várir menn, ok váru hross heim rekin, eigi allfá, en eigi vissir þú, hvat þau skyldi.” Þorvarðr ferr nú, ok kemr á Bakka[1], ok var hann spurðr, hversu fjölmennt væri at Hofi, en hann segir slíkt sem hánum var sagt, ok ferr hann heim síðan. En þegar er hann var í braut, sendu þeir menn til Egilsstaða, at seta mikil væri at Hofi. Síðan sendi Þórarinn Þorkeli Geitissyni orð, at eigi myndi at svá búnu auðsótt til Hofs, ok líðr nú vetrinn.

Um várit eptir átti Bjarni ferð út á strönd, ok varð hann at fara hit efra um heiðina, því at vatngangr var um víkrnar. Sel váru á heiðinni, ok ríðr Bjarni hjá selinu við þriðja mann, ok finnr eigi fyrr, enn þar er Þorkell Geitisson fyrir hánum við níunda mann, ok hafði hann haft njósnir af um ferðir Bjarna. Fyrir selinu stóð fjalhögg mikit ok þrífœtt. „Nú skulu vèr taka fjalhöggit,” kvað Bjarni, „ok fœra þat í kápu mína, ok setja þat í söðul minn, ok ríða á tvær hendr ok styðja þat á baki, ok ríða á þat leyti, er næst er selinu, en ek man ganga inn í selit. En ef þeir ríða eptir yðr ok um fram selit, þá man ek ganga í skóginn ok forða mèr. En ef þeir víkja hingat at selinu, þá man ek verjast eptir því, sem minn er drengskapr til.” Nú göra þeir þetta eptir því sem hann hafði fyrir sagt. Þorkell var maðr eigi skyggn, en þó var hann vitr ok glöggþekkinn, ok er saman dró með þeim, þá spurði Þorkell, ef þeir sæi víst, at þrír væri mennirnir fram frá selinu, „því at ráð er þat,” segir hann, „at ganga inn í selit, ok þá í skóginn, ef oss berr um fram.” En þeir kváðust víst sjá, at þrír fóru mennirnir fram. „Sá ek,” kvað Þorkell, „at þrír váru hestarnir, en grunr var mèr á,

[1]) Fáskrúðsbakka 36.

hvárt menn væri á baki öllum.” „At heldr váru menn á baki þeim öllum,” kváðu þeir,” at sá var maðrinn mestr á baki, er í miðit reið.” „Þessu munu vèr hlíta,” segir Þorkell, „sem yðr hefir sýnzt, en þat hygg ek, at þessu muni misráðit, er eigi er kannat selit.” Ríða þeir Þorkell þú eptir þeim, ok er þeir eru mjök eptir komnir, þá láta þeir förunautar Bjarna falla ofan fjalhöggit, ok ríða undan síðan. En Bjarni hefir sik í skóginn, ok er nú hólpinn fyrir Þorkeli. Þorkell hverfr nú aptr, ok kemst heim; unir hann illa við sinn hlut. Förunautar Bjarna vitja hans, þegar þeim þykkir hánum úhætt vera; fara svá leiðar sinnar, ok berr nú enn í sundr með þeim Bjarna ok Þorkeli at sinni.

Litlu síðar sendir Þorkell Geitisson menn í Fljótsdalshèrað eptir frændum sínum, Helga ok Grími Droplaugarsonum, at þeir skyldi koma í Krossavík. Þeir fara þegar með sendimönnum Þorkels, ok er þeir koma í Krossavík, var við þeim tekit vel, ok spurði Helgi, hvat at skyldi hafast, er hann hefði þeim orð sent. „Fyrir skömmu fór ek þá för,” segir Þorkell, „er ek uni illa við svá búit. Görða ek mik beran í því, at ek vilda Bjarna feigan, ok kom ek engu fram. Nú vilda ek fara til Hofs,” segir Þorkell, „ok veita Bjarna heimsókn, ok sœkja hann með eldi, ef vèr getum eigi með vápnum.” Helgi lèt vel yfir þessarri fyrirætlan, ok sofa þeir nú af um náttina fyrst. Þorkell var lítt heill jafnan, ok tók opt bráðasótt. Helgi vaknar þegar í elding ok klæðist; gengr síðan til lokrekkju Þorkels, ok mælti: „Mál er upp at standa, ef nú er slíkt í hug, sem í gær, því ‚sjaldàn vegr sofandi maðr sigr’.” Þorkell svarar: „Litla athöfn man ek drýgja daglangt fyrir sakir vanheilsu minnar.” Helgi bauzt til ferðar þessarrar, og göra at slíkt, sem áðr var ætlat. Þorkell svarar: „Eigi þykkir mèr þat annarra manna, enn mín, at vera foringi

þessarrar ferðar." Þá tók Helgi at styttast, ok mælti: „Eigi þarftu mèr optar orð at senda, er þú skræfist nú, er ek em hèr kominn til liðs við þik, enda viltu eigi heldr, at aðrir fari." Skiljast þeir nú síðan með styttingi. Fara þeir brœðr heim, ok er nú kyrrt um hríð. Fundust þeir Þorkell ok Bjarni eigi í þessu sinni.

Um várit eptir fara þeir höfðingjarnir til várþings í Fljótsdalshèrað, Bjarni Broddhelgason ok Þorkell Geitisson. Með Þorkeli var Blængr ok þeir Egilssynir, Þórarinn, Hallbjörn ok Þröstr, ok Eyjólfr, er bjó á Víðivöllum. Váru þeir Þorkell fimmtán saman. Fóru þeir til Eyvindarár til Gró, ok annaðist hón þat, er þeir þurftu. Með Bjarna váru í för Þorvarðr læknir af Eireksstöðum[1], Brúni af Þorbrandsstöðum, Eilífr Tjörfason[2] af Torfastöðum, brœðr tveir af Búastöðum[3], Bergr ok Brandr, synir Glittuhalla[4], Skíði fóstri Bjarna ok Haukr Loptsson, ok váru þeir átján saman. Þau Helgi Ásbjarnarson ok Þórdís Broddhelgadóttir tóku vel við þeim, er þeir komu til Mjófaness. Ok er þinginu var lokit, varð Þorkell fyrr á braut búinn, ok þótti Bjarna þat vel. En er hann var búinn til brautferðar, þá gaf Þórdís todda, systir hans, hánum men gott, ok kvazt eigi laun vilja fyrir hafa; bjó hón svá um, at þat var fest um háls hánum rammliga. Þorkell ferr nú með sínu föruneyti um heiðina; komu þeir síð ofan í Böðvarsdal. Tóku þeir þar gisting hjá bónda þeim, er Kári hèt; hann var þingmaðr Þorkels. En er þeir gengu at sofa, þá bauð Þorkell Kára um, at hann skyldi vörð halda, ef menn nökkurir kæmi af heiðinni, ok göra hann þegar varan við. Bjarni fór tómliga um heiðina, ok þótti vel, at Þorkell görði feril um heiðina, fyrir

1) Sirreksstöðum *563*, *36*.
2) Torfason *563*, Þorbrandsson *36*.
3) Bústöðum *563*, Blástöðum *36*.
4) Glitruhalla *36*.

því at færð var ill. Hann kom til konu þeirrar um náttina, er Freygerðr hèt. Fóru þeir síðan um heiðina, ok komu snimma morgins ofan í Böðvarsdal, hjá bœ Kára. Ok er spor þeirra Þorkels lágu til bœjar, þá mælti Bjarni, at þrír skyldi ganga jafnframt, ok þar eptir aðrir þrír, ok síðan þriðju þrír, ok svá hverr at öðrum, „ok man þá sýnast þriggja manna spor," segir hann; ok svá görðu þeir. Kári var úti, er þeir gengu hjá garði, ok görði eigi vart við; þótti hánum mikill vandi með þeim frændum, ok vildi hann þat eigi til sín taka láta. Þorkell vaknaði í sæng sinni, ok vakti upp förunauta sína; kvað fullsofit. Nú vápnast þeir, ok ganga síðan út. Þorkell bað þá ganga aptr á ferilinn, ok sjá, ef nökkur spor lægi af ferlinum, er þeir höfðu gört, ok sjá þeir nú liggja þriggja manna spor af í braut. Hann ferr sjálfr til ferilsins, ok mælti: „Þungir hafa þessir menn verit," segir Þorkell, „ok ætla ek, at þeir Bjarni muni hèr farit hafa; höldum nú eptir þeim hart." Ok er þeir komu nökkut svá í braut frá bœnum, sjá þeir at sporin dreifðust; fara þeir nú sem mest megu þeir, unz þeir koma mjök svá í öndverðan dalinn. Bœr stendr þar lítill, er heitir á Eyvindarstöðum; þar bjó sá maðr, er Eyvindr hèt. En er þeir Bjarni áttu mjök skammt til túngarðsins, tóku þeir hvíld. Þá mælti Bjarni: „Eigi man ek renna lengra fyrir Þorkeli, ok skulum vèr hèr þess bíða, er at höndum kemr," ok í þessu sjá þeir för þeirra Þorkels. En er þeir nálgast, mælti Þorkell til manna sinna: „Göngum nú at þeim alldrengiliga," segir hann, „vit Bjarni frændrnir munum á sjást, en Blængr ok Birningr, Þorvarðr ok Þröstr, ok svá hverir sem megu af hinum." Nú tókst bardagi, ok vörðust þeir Bjarni hit drengiligsta, en hinir sóttu at í ákafa. Gekk svá um stund, at menn urðu eigi sárir. Þá mælti Þorkell: „Klœkiliga sœkjum vèr nú at, er ekki verðr söguligt." Bjarni mælti:

„Ærinn hefir þú hug," segir hann. Kona ein gekk út á Eyvindarstöðum, ok sèr á sameign manna. Hverfr hón inn aptr skyndiliga, og mælti: „Eyvindr," segir hón, „þat hygg ek, at þeir frændr muni berjast hèr skammt frá garði, Þorkell ok Bjarni, ok sá ek einn mann liggja undir garðinum; sýndist mèr sá allhræddr." Eyvindr segir: „Förum vèr sem skjótast, ok höfum klæði með oss ok köstum á vápnin." Eyvindr tók sèr setstokk einn í hönd, reiðir hann um öxl sèr; hljóp hann þar til, er hann kom at garðinum, þar sem maðrinn var undir, ok var þetta Þorvarðr. Hann spratt upp ok varð felmsfullr; en þegar hann kom til, tókst mannfallit í bardaganum; hafði hann kastat sèr niðr af mœði undir garðinn. Fèll þar fyrstr Birningr fyrir Blængi; þá hjó Þorkell til Bjarna, ok kom á hálsinn, ok brast við hátt, Bjarni skeindist, en menit fèll niðr í snæinn; seildist þá Bjarni eptir meninu, ok lèt þat koma í serk sinn. Þorkell mælti: „Fègjarn ertu enn, frændi." Bjarni mælti: „Svá mantu um búa í dag, at þurfa man fjárins." Þorkell settist þá niðr af mœði, en Blængr sótti at Bjarna allfast í ákafa, ok lýkr svá þeirra atgangi, at Blængr fellr. Þá stóð Þorkell upp, ok sœkir snarpliga ok fèkk sár á höndina, ok varð úvígr. Synir Glittuhalla[1] fèllu þar báðir; Eilífr fèll ok fyrir Hallbirni, ok lifði hann þó at kalla. Þá kom at Eyvindr, ok gekk svá hart fram með setstokkinn millum manna, at þeir hrukku fyrir. Konur váru þar ok með hánum, ok köstuðu klæðum á vápnin; stöðvast nú bardaginn. Þá váru fallnir ór liði Bjarna fjórir menn, en þeir margir sárir, er eptir lifðu. Fjórir menn fèllu ok af Þorkeli. Eyvindr spurði, ef Þorkell lofaði at fœra Bjarna til húsa ok hans menn, en kvazt sjá, at Þorkell myndi vilja bjargast sjálfr á sínar hendr ok hans menn. Þorkell bannaði þat eigi. Síðan

[1]) Glitruhalla 36.

var búit um lík þeirra manna, er þar fèllu, ok eptir þat sneru á braut hvárirtveggja; fóru þeir Þorkell heim til Krossavíkr, en Eyvindr flutti þá Bjarna inn eptir Vápnafirði, ok komu þeir heim til Hofs. Þorvarðr læknir kom til Hofs, ok batt sár manna. Eilífr Tjörfason lá í sárum lengi, ok varð þó grœddr. Bjarni fór þegar á fund Glittuhalla[1] ok segir hánum fall sona sinna; bauð hánum heim til sín, ok kvazt skyldu vera hánum í sona stað. Halli svarar: „Mikill skaði þykkir mèr at sonum mínum, en þó þykkir mèr betra at missa þeirra, enn þat þeir bæri bleyðiorð, sem sumir förunautar þínir. En ek man enn hlíta búum mínum, ok fara eigi til Hofs; en haf þú mikla þökk fyrir heimboðit," segir hann.

Þat var einn dag, at Bjarni mælti við Þorvarð lækni: „Nú er svá komit sárum várum hèr at Hofi, at vèr munum vera sjálfbjarga með umsjá þinni, en ek veit, at Þorkell Geitisson hefir sár, ok grœðir hann engi, ok görist hann máttlítill. Nú vil ek," segir Bjarni, „at þú farir at lækna hann." Þorvarðr kvazt svá göra mundu, sem hann vildi. Ferr hann nú ok kemr í Krossavík nær miðjum degi; var þar tafl uppi haft. Sat Þorkell upp við öxl, ok horfði á taflit; var hann mjök fölleitr. Engi maðr heilsaði á Þorvarð; hann gekk at Þorkeli, ok mælti: „Sjá vil ek sár þitt; er mèr úrífliga af því sagt;" en Þorkell bað hann göra sem hann vildi. Var hann þar sjau nœtr, ok batnaði bónda dag frá degi. Nú ferr Þorvarðr braut ór Krossavík, ok launaði Þorkell hánum vel lækning sína: gaf hánum hest ok silfrhring, ok mælti síðan við hann vingjarnligum orðum. Ferr Þorvarðr síðan til Hofs, ok segir Bjarna til svá búins. Þótti hánum vel hafa ór ráðizt, er Þorkell varð heill.

Sumar þetta varð lítið forverk í Krossavík, því at

[1] Glitruhalla 36.

Þorkell var lítt fœrr til umsýslu með Jórunni húsfreyju sinni, ok horfðist mjök úvænliga til, at skera myndi verða niðr kvikfè. Húskarl Þorkels átti för eptir hèraði, ok tók nú gisting at Hofi; var þar vel við hánum tekit. Bjarni spurði hann um heilsu manna ok búfjárhagi. Húskarlinn kvað vel þoka áleiðis um heilsu manna; en um búfjárhagi kallaði hann görast hit úvænligsta. Ok um morgininn, er húskarlinn fór í braut, leiddi Bjarni hann ór garði, ok mælti: „Bið þú Þorkel göra annathvárt, flytja hingat hjú sín ok fènað, ella man ek þangat flytja slátr ok fjárfœði, svá at eigi þurfi um at huga fèlát, ok ver nú drengr góðr." Húskarlinn fór nú, ok kemr svá heim, at menn váru undir borð komnir, ok bar Jórunn mat fram. Hann gekk fyrir Þorkel, kvaddi hann ok segir hánum öll orð Bjarna. Jórunn nam staðar á gólfinu, ok hlýddi á, hvat hann mælti; en Þorkell svarar engu. Þá mælti Jórunn: „Hví mantu þegja við því, er svá er drengiliga boðit?" Þorkell svarar: „Eigi man ek bráð svör veita þessu máli; því at kostaboð þessi munu flestum mönnum á úvart koma." Jórunn mælti: „Þat vilda ek, at vit fœrim til Hofs á morgin ok hittim Bjarna, ok þykkja mèr þvílík boð allsœmilig af þvílíkum manni, sem hann er." „Þú skalt þessu ráða," segir Þorkell, „því at ek hefi opt reynt þat, at þú ert bæði vitr ok góðgjörn." Um morgininn eptir fara þau Þorkell heiman tólf saman, ok er för þeirra var sèn frá Hofi, þá var þetta sagt Bjarna. Hann varð feginn ok gekk á móti þeim ok fagnaði þeim Þorkeli vel ok bauð þeim þar at vera. Ok er þeir áttu tal með sèr frændr, þá rippuðu þeir upp öll málaferli þeirra vel ok einarðliga. Síðan bauð Bjarni Broddhelgason Þorkeli Geitissyni sætt ok sjálfdœmi, ok kvazt hans vilja gjarna göra mundu um alla hluti þaðan í frá meðan þeir lifði báðir. Þorkell þekktist þessi boð vel, ok sættust þeir nú

heilum sáttum. Görði Þorkell hundrað silfrs fyrir víg Geitis; seldi svá hvárr þeirra öðrum grið, ok hèldu vel síðan. Bjarni var röskr maðr. Eigi hafa Hofsverjar verit spekingar miklir, en þó hefir þeim flest vel tekizt. Þorkell var höfðingi mikill, ok hinn mesti hreystimaðr, ok málafylgismaðr mikill. Fè gekk af böndum hánum í elli hans, ok er hann brá búi sínu, bauð Bjarni hánum heim til Hofs, ok eldist hann þar til lykta. Þorkell varð kynsæll maðr: Ragnheiði dóttur hans átti Loptr Þórarinsson, ok áttu þau níu börn; Halla var dóttir þeirra; hana átti Steini, faðir Höllu, móður Þorláks byskups hins helga. Ragnheiðr var systir Þorláks byskups, móðir Páls byskups ok Orms Jónssonar ok Jóns prests Arnþórssonar. Ok lúkum vèr svá Vápnfirðinga sögu.

---

# Tillæg.

Landnámabók, Pag. 238—241.

---

Eyvindr vápni ok Refr hinn rauði, synir Þorsteins þjokkubeins, bjuggust til Íslands af Strind ór Þrándheimi, því at þeir urðu missáttir við Harald konung, ok hafði sitt skip hvárr þeirra. Refr varðr aptrreka, ok lèt konungr drepa hann, en Eyvindr kom í Vápnafjörð ok nam fjörðinn allan frá Vestradalsá, ok bjó í Krossavík hinni innri; hans sonr var Þorbjörn.

Steinbjörn körtr hèt sonr Refs hins rauða; hann fór til Íslands og kom í Vápnafjörð. Eyvindr föðurbróðir hans gaf hánum land allt milli Vápnafjarðarár ok Vestradalsár; hann bjó at Hofi. Hans synir váru þeir Þormóðr stikublígr, er

bjó í Sunnudal, annarr Refr á Refstöðum, þriði Egill á Egilsstöðum, faðir Þórarins ok Þrastar ok Hallbjarnar ok Hallfríðar, er átti Þorkell Geitisson.

Ölvir hinn hvíti hèt maðr, sonr Ásvalds Öxnaþórissonar; hann var lendr maðr ok bjó í Álmdölum; hann varð úsáttr við Hákon jarl Grjótgarðsson, ok fór á Yrjar ok dó þar; en Þorsteinn hinn hvíti, sonr hans, fór til Íslands, ok kom skipi sínu í Vápnafjörð eptir landnám; hann keypti land at Eyvindi vápna, ok bjó á Tóptavelli fyrir utan Síreksstaði nökkura vetr, áðr hann komst at Hofslöndum, með því móti, at hann heimti leigufè sitt at Steinbirni kört, en hann hafði ekki til at gjalda, nema landit. Þar bjó Þorsteinn sextigi vetra síðan, ok var vitr maðr ok góðr. Hann átti Ingibjörgu dóttur Hroðgeirs hins hvíta; þeirra börn váru þau Þorgils ok Þórðr, Önundr, Þorbjörg ok Þóra. Þorgils átti Ásvöru dóttur Þóris Grautatlasonar; þeirra sonr var Broddhelgi. Hann átti fyrr Höllu Lýtingsdóttur, Arnbjarnarsonar. Þeirra sonr var Vígabjarni. Hann átti Rannveigu dóttur Eireks ór Goðdölum.

# Þáttr af Þorsteini hvíta.

Maðr hèt Ölvir hinn hvíti, hann var Ásvaldsson[1], Öxnaþórissonar. Hann var lendr maðr í Noregi ok bjó í Naumudal; hann stökk fyrir ófriði Hákonar jarls á Yrjar ok dó þar. Hann átti einn son barna, er Þorsteinn hèt, ok var kallaðr Þorsteinn hvíti. Hann fór þegar eptir andlát föður síns út til Íslands með alla fjárhluti sína, ok kom skipi sínu í Vápnafjörð; en þá var lokit landnámum á öllu Íslandi. Sá maðr bjó þá at Hofi í Vápnafirði, er Steinbjörn hèt, ok var kallaðr körtr, ok hafði hánum þar land gefit Eyvindr föðurbróðir hans, allt á milli Vápnafjarðarár ok Vestrdalsár. Steinbjörn var eyzlumaðr mikill í búinu. En er Þorsteinn vissi, at lönd váru öll numin áðr, fór hann á fund Steinbjarnar, ok kaupir hann at hánum land ok reisir bœ at Tóptavelli ok bjó þar nökkura vetr, ok varð hánum gott til fjár ok metnaðar. Hann hafði skamma stund í búi verit, áðr hann fór ok leitaði sèr ráðs, ok bað konu þeirrar, er Ingibjörg hèt, ok var hón dóttir Hroðgeirs hins hvíta Hrafnssonar; hennar fèkk hann. Við þessarri konu átti hann fimm börn: sonr hans hèt Önundr, annarr Þórðr, þriði Þorgils; dœtr þeirra hètu Þorbjörg ok Þóra. Þorgils var hinn mannvænligsti maðr. Þorsteinn grœddi fè í ákafa. Steinbirni kört varð fèfátt ok fór á fund Þorsteins ok beiddist

[1]) Göngubrólfssonar *tilföie alle Haandskrifterne.*

fjárláns af hánum. Þorsteinn er ok góðr af fjárláninu, ok þangat til tekr hann lán af Þorsteini, at harðla mjök eyðist fè Steinbjarnar, ok þykkir Þorsteini vesna skuldunautrinn, ok þykkir úvíss skuldastaðrinn at Steinbirni; ok nú heimtir hann fèit, ok lýkst með því þeirra fjárreiðr[1], at Steinbjörn geldr Þorsteini Hofsland, ok fór Þorsteinn byggðum til Hofs ok kaupir sèr goðorð, ok görðist hinn mesti sveitarhöfðingi. Hann var allra manna vinsælastr. Ok er Þorsteinn hafði búit marga vetr á Hofi, þá görðust þau tíðendi at herbergjum hans, at Ingibjörg tók sótt ok andaðist. Þorsteini þótti þetta skaði mikill, en hèlt þó búi sínu sem áðr.

Maðr hèt Þórir[2], hann var sonr Atla, sem bjó í Atlavík fyrir vestan vatn; þar eru nú sauðhús. Atli var kvángaðr; kona hans hèt Áslaug[3], ok var dóttir Brynjólfs hins gamla. Þau Þórir áttu tvau börn; hèt sonr þeirra Einarr, en Ólöf[4] dóttir. Einarr var vaskligr, en eigi stórr maðr, hávaðamaðr mikill, ok í meðal lagi vinsæll. Ólöf[4] var kvenna vænst ok vinsælust. Þat görðist til tíðenda á hag Þorsteins hvíta, at hann tók augnaverk svá mikinn, at þar fyrir missti hann sjónina, ok þykkist vanfœrr til umsýslu; rœðir nú um við Þorgils, ok biðr hann at taka við liðinu. Þorgils sagði þat skylt, at hann veitti slíkt fulltingi, er hann má. Faðir hans rœðir við hánn, at hann fái sèr kvánfang ok biði Ólafar[5] Þórisdóttur, ok þat varð, ok fór hón með hánum til búsins, ok tókust með þeim ástir góðar, ok áttu tvau börn; sonr þeirra hèt Helgi, en dóttir Guðrún. Þorgils var þá vel tuttugu vetra.

---

1) *saaledes alle Haandskrifterne (for det sædvanlige* lúkast .... fjárreiður).
2) *saaledes alle Haandskrifterne.*
3) *saaledes alle Haandskrifterne.*
4) *saaledes alle Haandskrifterne.* Landnámabók *har* Ásvör.
5) Áslaugar *144, 156, 158, 496, 562.*

Hrani[1] hèt maðr ok var kallaðr gullhöttr; hann var fóstri Þorgils, en frændi Ólafar[2]. Hann var háva ðamaðr mikill[3] ok var heimamaðr at Hofi, ok var kallaðr grályndr. Þorkell hèt maðr ok var kallaðr fleytir[4]; hann var heimamaðr at Hofi og frændi þeirra Hofsverja, mikill ok sterkr. Þorbjörn hèt maðr, hann bjó í Sveinungsvík; þat er á milli Melrakkaslèttu ok Þistilsfjarðar. Þorbjörn var drengr góðr ok rammr at afli, vinr Þorsteins hvíta. Maðr er nefndr Þorfinnr, hann bjó á Skeggjastöðum í Knefilsdal[5]; hann átti ok enn annat bú. Þorgerðr hèt kona hans; þau áttu þrjá sonu, hèt einn þeirra Þorsteinn ok var kallaðr hinn[6] fagri, annarr Einarr[7], þriði Þorkell; allir váru þeir mannvænligir. Þorsteinn var fyrir þeim brœðrum; hann var fullkominn at aldri, er hèr er komit sögunni. Kraki[8] hèt maðr, er bjó á bœ þeim, er heitir á Krakalœk. Kraki var vel auðigr maðr ok kvángaðr, ok hèt kona hans Guðrún; þau áttu dóttur eina barna, er Helga hèt, ok var allra kvenna fríðust, ok þótti sá kostr beztr í öllu Fljótsdalshèraði. Þess er getið, at Þorsteinn fagri beiddist fjárlánstillaga af föður sínum, ok kvazt vilja af landi braut. Þorfinnr kvað svá vera skyldu; leggr hann til slíkt sem hann beiddist. Hefir hann verit í förum nökkr sumur, verðr hánum gott til fjár ok metnaðar, ok hvert sinn, er hann var utan, lagði hann eptir nökkut af fjárhlut þeim, er hann þóttist þurfa ok faðir hans[9]. Ok eitt vár, er Þorsteinn var út hèr um

---

1) Grani *496, 562.*

2) Áslaugar *144, 156, 158, 496, 562.*

3) hofmenni mikit *158, 496.*

4) flettir *158, 496.*

5) Snefilsdal *562.*

6) *tilföiet.*

7) *saaledes alle Haandskrifterne; men i* Landnámabók *og* Vápnfirðinga saga *kaldes han* Héðinn,

8) *saaledes alle Haandskrifterne.*

9) *kun 27 har:* er faðir hans þóttist þurfa.

vetrinn, kemr Einarr Þórisson at máli við föður sinn, ok beiðist af hánum tillags, ok segist vilja fara til fèlags við Þorstein. Þorsteinn kvazt eigi mundu synja Einari fèlags, ok gefr hánum skip hálft, telr þó, at hánum segi meðal lagi hugr um fèlag þeirra, fyrir sakir úvinveits skaplyndis Einars. Þeir fóru utan, ok lögðu fèlag saman. Þorsteinn heldr öllu til virðingar Einari, ok virti hann í öllu mest, ok þó lagðist svá á, at Þorsteinn var meira virðr enn Einarr af öðrum mönnum, fyrir þess sakir, at hann reyndist góðr drengr ok vinveittr í skaplyndi. Fór vel um stund fèlag þeirra.

Þat er sagt einn vetr, er þeir váru út hèr fóstbrœðr, at Þorfinnr kemr at máli við Þorstein, ok spyrr, hvern hann ætlaði sinn ráðahag at sumri. Þorsteinn kvazt utan ætla. Þorfinnr kvazt heldr vilja, at hann tœki við búi með hánum. Þorsteinn sagðist engan hug hafa á því, en kvað hann slíkt hafa skyldu af sínu gózi, er hann vildi; Þorsteinn hafði mikit fè í förum. Þorfinnr lèzt hugsat hafa ráð fyrir hánum, ok lèzt vilja biðja hánum til handa Helgu Krakadóttur. Þorsteinn kvað sèr þat ófráð, er hón stóð ein til alls arfs eptir Kraka. Þorfinnr kvað hann vera jafnræði, bæði fyrir ættar sakir ok mannanar. Fara þeir nú ok vekja þetta mál við Kraka. Hann kvað sèr þetta vel at skapi; var þetta mál upp borit fyrir Helgu, ok fundust eigi afsvör í hennar máli; váru þar vottar at heitorði Þorsteins. Þorsteinn vildi fara utan fyrst, en ráð skyldu takast, þegar hann kæmi aptr. Fóru þeir Þorsteinn ok Einarr utan, ok tekr Þorsteinn skyrbjúg í hafi, er þeir svá kalla, ok varð hann eigi liðfœrr. Menn hlógu at hánum, ok var Einarr upphafsmaðr at því; ok er þeir komu til Noregs, leigðu þeir þar skemmu eina, en gáfu engan gaum at Þorsteini. Hann lá þar allan vetrinn. Einarr spottar hann mjök, ok lèt kveða um hann. Eitt sinn um várit hittir Einarr Þorstein ok biðr

hann fjárskiptis; lèzt vilja hafa einn skipit, ok kvað sèr þykkja Þorsteinn úlíkligr til utanferðar. Þorsteinn kvað eigi fjærri því farit hafa, sem hann gat um skaplyndi Einars. Þeir skipta um várit fjárhlut svá at Einarr kaus, en Þorsteinn skipti ór rúmi sínu. Einarr hlaut skipit, ok hèlt til Íslands um sumarit; ok er hann kom út, var hann spurðr tíðenda. Hann kvazt engi tíðendi kunna at segja greiniliga; kvað Þorstein eigi dauðan hafa verit sèrliga, en þó hefði hann eigi úlíkligr verit, at hann myndi eigi aptr koma. Einarr reið til föður síns, ok svívirðir mjök Þorstein í allri frásögn. Um haustit kom skip af hafi í Reyðarfjörð. Einarr eið til skips, ok keypti at austmanni, at hann segði andlát Þorsteins, ok svá görði hann ok allir skipmenn. Einarr kom heim og sagði andlát Þorsteins, ok kvað hann hefði fengit herfiligan dauða.

Þann vetr bað Einarr föður sinn, at hann skyldi biðja Helgu Krakadóttur; Þórir kvað svá vera skyldu. Nú fara þeir heiman ok koma til Kraka, ok vekja bónorð við hann fyrir hönd Einars. Kraki kvazt áðr vilja vita til víss andlát Þorsteins, en lèzt þá mundu gefa Einari konuna, ef þat væri áðr til víss vitað. Þórir kvað þat eigi sannligt, at Einarr væri vánbiðill konu þeirrar, er skjótt var heitin Þorsteini. Eigi lèt Kraki gangast svör þessa máls. Fara þeir feðgar heim við svá búit, ok litlu síðar ríðr Einarr norðr til Hofs, ok segir Þorgilsi bónorðit, ok kveðr sèr hafi verit neitað. Hrani[1] var hjá, ok svaraði svá: „Illa koma þèr, Einarr, í hald góðir frændr, ef þú skalt eigi fá konu þessa; kvað hánum ok lítið stoða at vera í vináttu við Þorgils, ef hann skyldi einskis meta þessa sneypu, er Einari var gör.” Þorgils svarar: „Mèr virðist Kraki vitrliga með fara, ok munda ek svá gört hafa, ef ek ætta hans hlut.” Satt eitt sagði

1) Grani *158*, *496*.

Einarr frá orðum Kraka, en þó eggjaði Hrani[1] Þorgils at fara með hánum. Þorgils kvað sèr eigi lètt hug um segja, þó at þessu ráði yrði komit í hendr hánum. Síðan fóru þeir ok hittu Kraka, ok hafði hann hin sömu svör fyrir sèr, sem fyrr. Þorgils mælti þá: „Vera má, at þú ráðir dóttur þinni, en eigi mantu svá undan setja, at þú fáir eigi sakargiptir um annat." Kraki mælti: „Eigi man ek til þess hætta;" hann fastnaði þá dóttur sína Einari, ok hafði sjálfr brúðkaup inni. Kraki skyldi vera ór öllum vanda um kaupbrigði við Þorstein.

Þat er nú frá Þorsteini at segja, at hánum batnaði, ok bjó hann skip sitt til Íslands, ok kom út næsta sumar eptir brúðkaupit í Reyðarfjörð, ok hafði selt austmönnum skipit, ok ætlaði til ráðahagsins við Helgu ok láta af förum. Ok er hann kom til Íslands, frètti hann alla þessa ráðabreytni; fór hann þá til fundar við föður sinn, ok lèt þó haldast skipsöluna eigi at síðr. Þorsteinn lèt lítt á sèr finna um þetta mál, en keypti sèr skip um vetrinn, er uppi stóð í Bolungarhöfn[2], ok bjó þat at öllu. Brœðr hans ætluðu með hánum utan, ok urðu eigi búnir svá skjótt, sem hann, því at þeir fóru at fjárheimtingum sínum um hèraðit. Austmenn vesuðust illa, er þeirra þyrfti at bíða, brœðra Þorsteins, ef byrr kæmi á. Þorsteinn mælti þá: „Ek man ríða frá skipi váru, ok hitta þá ok biðja þá, at þeir flýti sèr, en þèr skulut bíða mín hit skemmsta sjau nœtr." Þorsteinn reið utan eptir Öxarfirði ok í Bolungarhöfn[3], ok upp á Möðrudalsheiði ok ofan til Vápnafjarðar, ok svá austr yfir Smjörvatnsheiði[4] ok svá yfir Jökulsá at brú ok svá yfir Fljótsdalsheiði ok austr yfir Lagarfljót ok upp með fljótinu,

1) Grani *158, 496.*
2) *saaledes alle Haandskrifterne.*
3) Buðlúngahöfn *27, 562.*
4) Smjördalsheiði *158, 496, 562.*

unz hann kom í Atlavík snimma morgins. Þórir[1] var farinn í skóg ok húskarlar hans með hánum, ofan á Buðlungavöllu[2]. Einarr var heima ok eigi upp risinn, er Þorsteinn kom at durum. Kona var úti, er Ósk hèt; hón spurði, hverr hinn komni maðr væri. Þorsteinn segir: „Sigurðr heiti ek, ok á ek at gjalda Einari skuld, ok vil ek nú afhenda hánum; gakk þú inn ok vek Einar, ok bið hann út ganga." Þorsteinn hafði spjót í hendi ok ullhött á höfði. Konan vakti Einar; hann spurði, hverr kominn væri. Hón sagði hann nefndist Sigurðr. Einarr stóð þá upp ok kippti skóm á fœtr sèr ok tók skikkju yfir sik, ok gekk út síðan. Ok er hann kom út, kenndi Einarr, at þar var kominn Þorsteinn, ok varð Einarr nökkut fár við. Þorsteinn mælti: „Því em ek hèr kominn, at ek vil vita, hverju þú vilt bœta mèr, er þú gabbaðir skyrbjúg minn í haga, ok hlótt at mèr með hásetum þínum, ok man ek vera alllítilþægr at." Einarr mælti: „Heimtu fyrst at öllum, er hlógu at þèr, ok man ek bœta þèr, ef allir bœta aðrir." Þorsteinn segir: „Ek em eigi svá fèþurfi, at ek nenna alla at hitta, en ek vil, at þú bœtir fyrir þik." Einarr kvazt eigi bœta mundu, ok sneri hann undan til svefnskemmunnar. Þorsteinn bað hann bíða, ok hrapa eigi svá skjótt til rekkjunnar Helgu. Einarr gaf engan gaum at því, sem hann mælti. Síðan lagði Þorsteinn á Einar með spjótinu ok í gegnum hann; Einarr fèll dauðr inn í skemmuna. Þorsteinn bað griðkonuna at greiða ferð Einars. Þorsteinn ríðr þá hina sömu leið aptr, er hann reið fram; hann reið vestr yfir háls til sels Þorbjarnar, er stóð á milli Melrakkaslèttu ok Ormsár. Hann spurði Þorbjörn, ef brœðr hans hefði þar komit; en Þorbjörn kvað þat eigi vera. Þorsteinn segir hánum tíðendin,

1) Þorfinnr *27, 144, 156, 158, 496.*
2) Bulungarvöll *27*; Bulungarvöllu *156, 158, 496.*

ok bað hann segja brœðrum sínum, at þeir flýtti sèr til skips. Reið Þorsteinn þá til skips. — Griðkonan görði Þóri[1] orð, ok lèt segja hánum víg Einars sonar síns, ok brá Þórir[1] skjótt við, ok fór norðr til Vápnafjarðar með tvá húskarla sína, ok fór á skipi yfir fljót ok til Hofs. Segir hann þeim Hofsmönnum víg Einars. Þorgils kvað sèr eigi vel hafa hug um sagt, þegar er Einarr fèkk Helgu. Þeir báðu hann eptir ríða; hann lèt taka hesta sína. Hrani[2] frýði hánum áðr hugar, ef hann seinkaði ferðinni. Þórir[1] hvarf aptr, ok görði þat at ráði Þorgils, en húskarlar hans fóru með Þorgilsi ok váru þeir sjau saman, ok fóru síðan leið sína.

Brœðr Þorsteins riðu til sels Þorbjarnar annan morgin eptir, er Þorsteinn hafði þar riðit; þeir höfðu þar dagverð, en lögðust síðan niðr til svefns. Þorbjörn latti þá þessa mjök, því at hann sagði þeim víg Einars, ok orðsending Þorsteins; en Þorbjörn var vinr hvárratveggja. Litlu síðar kom Þorgils ok þeir sjau saman. Þorbjörn sagði þeim brœðrum, at þeir Þorgils váru þar komnir, ok vakti þá; hvergi máttu þeir undan komast. Þorbjörn rèð þeim, at þeir grœfi þar djúpa gröf í selinu fyrir durunum, en ek man standa í durunum, ok svá görðu þeir. Þeir Þorgils koma þá at selinu; þóttust þeir vita, at þeir brœðr myndi þar inni, er hrossin váru þar mœdd ok nýkomin undan klyfjum. „Veit ek," segir Þorgils, „at þeir eru hèr." Þorbjörn svarar: „Þú ert manna glöggvastr, en þó eru þeir brœðr eigi hèr, sem þú segir, en ek lèt fara eptir viðum hross mín, ok höfum nýtekit af þeim klyfjarnar; eru þau nýkomin frá vetrhúsum, en áðr gengu þau af rekaströndum til skálagerðar

1) *saaledes alle Haandskrifterne.*
2) Grani *158, 496.*

í Sveinungsvík, ok á ek hrossin." Þorgils kvazt eigi þessu trúa mundu, „ok far þú ór durunum, ok viljum vèr rannsaka selit." Þorbjörn kvazt þat eigi göra mundu, „síðan þèr trúit eigi minni tilsögn." Hrani[1] mælti: „Drepum hann þá, ef hann vill eigi fara ór durunum." Þorgils svarar: „Þá þykkir föður mínum illa." Þá bauð Þorkell fleytir[2] at fara á bak húsunum ok hlaupa af veggnum ofan milli Þorbjarnar ok duranna, ok bera hann svá frá durunum ofan fyrir brekkuna. Þorgils bað hann svá göra. Síðan breytti Þorkell svá; Þorbjörn barst með þessarri atferð frá selsdurunum; síðan bundu þeir hann. Eptir þat gengu þeir at durunum, ok möttust þeir um, hverr þeirra skyldi fyrstr inn ganga. En er Þorgils fann þetta, mælti hann: „Eigi verðr oss nú hugmannliga, er vèr þorum eigi inn at ganga." Þorgils hleypr þá inn. Þorbjörn aptraði hánum, ok sagðist letja hann inn at ganga; en hann gaf engan gaum at orðum hans. Hann hafði skjöldinn yfir höfði sèr, ok snarar þá inn, ok hljóp í gröfina, ok drápu þeir bræðr hann þar í gröfinni. Síðan rufu förunautar Þorgils selit, ok sóttu þá bræðr um stundar sakir. Hrani[1] gullhöttr lá þá á selsveggnum ok högglaði þann veg inn. Þá var hann lagðr spjóti í höndina. Þeir bræðr vörðust bæði vel ok drengiliga, en fèllu báðir þar at síðustu með góðan orðstír. Þar fèllu ok báðir húskarlar Þóris[3] ok hinn þriði maðr, Þorgils Þorsteinsson, er þá var þrítigr at aldri. Þorbjörn var leystr síðan eptir fundinn; hann færði alla vöru þeirra bræðra í Bolungarhöfn[4] til skips, og sagði þar Þorsteini tíðendin. Þorsteinn kvað Þorbjörn þetta vel gört hafa, ok skildu með mikilli vináttu.

[1]) Grani *158, 496*.
[2]) flettir *158, 496*.
[3]) *saaledes alle Haandskrifterne*.
[4]) Buðlungarhöfn *144, 27*; Buðlungarvík *156*.

Þorsteinn fór utan um sumarit, ok var á braut fimm vetr; kom hann sèr vel við höfðingja, ok þótti hinn röskvasti maðr. Hrani[1] gullhöttr kom heim til Hofs, ok sagði Þorsteini hvíta, at synir Þorfinns tveir væri fallnir ok húskarlar Þóris[2] tveir. Þorsteinn spurði hann: „En hvar er Þorgils sonr minn?" Hrani[1] svarar: „Hann er ok fallinn." Þorsteinn mælti: „Fjándliga[3] segir þú frá tíðendum; illt hefir jafnan af þèr hlotizt ok þínum ráðum." Þetta þóttu mönnum mikil tíðendi, þá er spurðust. Um sumarit eptir váru mál til búin á hendr Þorsteini Þorfinnssyni, ok varð hann sekr um víg Einars. Broddhelgi var þá þrèvetr, er faðir hans var drepinn, ok var þá þegar efniligr maðr at jöfnum aldri. Þorsteinn Þorfinnsson fór til Íslands at fimm vetrum liðnum, ok kom skipi vínu í Miðfjörð; hann reið þegar norðr til Hofs við annan[4] mann. Broddhelgi var þá átta vetra gamall, ok lèk sèr á hlaði úti, ok bauð þeim þar at vera. Þorsteinn spurði, hví hann laðaði gesti. Hann kvazt þar allt eiga með afa sínum. Þeir Þorsteinn Þorfinnsson gengu inn eptir þat. Þorsteinn hvíti kenndi farmannadaun, ok spurði, hverir komnir væri. Þorsteinn Þorfinnsson segir hit sanna. Þorsteinn hvíti mælti: „Hvárt þótti þèr of lítil mín skapraun, ef þú sóttir mik eigi heim blindan karl ok gamlan." Þorsteinn Þorfinnsson svarar: „Eigi gekk mèr þat til, heldr hitt, at ek vil bjóða þèr sjálfdœmi fyrir Þorgils son þinn, ok hefi ek ærit góz at bœta hann, svá at eigi hafi annarr maðr dýrri verit." Þorsteinn hvíti kvazt eigi vilja bera Þorgils son sinn í sjóði. Þorsteinn Þorfinnsson, er kallaðr var hinn fagri, sprettr upp, ok leggr höfuð sitt í

1) Gani 158, 496.
2) *saaledes alle Haandskrifterne.*
3) herfiliga *562, 158, 496.*
4) fimmta *562, 158.*

knè Þorsteini hvíta, nafna sínum. Þorsteinn hvíti svarar þá: „Eigi vil ek láta höfuð þitt af hálsi slá; munu þar eyru sœmst, er uxu, en þá göri ek sætt okkar á millum, at þú skalt fara hingat til Hofs til umsýslu, með allt þitt, ok ver hèr meðan ek vil; en þú sel skip þitt.” Þessarri sætt játar Þorsteinn fagri, ok er þeir kumpánar komu út, lèk sveinninn Helgi Þorgilsson sèr at gullreknu spjóti, er Þorsteinn fagri hafði sett hjá durunum, þá er hann gekk inn. Þorsteinn fagri mælti við Helga: „Viltu þiggja af mèr spjótið?” Helgi rèzt þá um við Þorstein hvíta, fóstra sinn, hvárt hann skyldi þiggja spjótið at Þorsteini fagra. Þorsteinn hvíti bað hann þiggja víst, ok launa sem bezt. Þorsteinn fagri var eina nátt á Hofi í þat sinn. Þorsteinn fagri fór þá til skips síns, ok seldi þat; síðan fœrði hann sik til Hofs í Vápnafjörð ok allt sitt. Hann fœrði mjök fram kvikfè Þorsteins hvíta, nafna síns. En er hann hafði þar verit nökkura stund, þá vildi Þorsteinn hvíti, at Þorsteinn fagri bæði Helgu Krakadóttur, ok svá görði hann. Þorsteinn hvíti var með hánum í ferð, ok gengu þau mál vel fram, ok þótti Kraka þetta gört eptir sínu skaplyndi. Fór Helga þá til Hofs með Þorsteini fagra, því at Þorsteinn hvíti vildi brúðkaupit inni hafa, því hann þóttist hrumr til at sœkja brúðkaupit annars staðar; ok af því var svá gört. Boðit fór vel fram; váru samferðir þeirra góðar. Átta vetr var Þorsteinn fagri á Hofi með nafna sínum, ok var hánum í sonar stað í allri umsýslu; ok þá svá var komit tímum, mælti Þorsteinn hvíti til nafna síns: „Vel hefir þú gefizt mèr, ok ertu röskr maðr ok drengr góðr um alla hluti ok vel at þèr búinn. Nú vil ek, at þú bregðir þessu ráði, ok svá föður þíns ok Kraka mágs þíns, ok ráðist allir til utanferðar með allt þat, er þèr eigit, því at ek ætla Helga frænda mínum görast mjök þungt til þín,

en hann er nú átján vetra gamall, en þat er líkast, at ek verða maðr eigi langlífr hèðan af, en ek vilda, at vit skildimst vel, en Helgi frændi minn mun verða ofsamaðr mikill, ok engi jafnaðarmaðr. Nú haf þú ráð mitt um þetta, ok ver eigi lengr hèr, enn ek legg til." Þorsteinn fagri kvað svá vera skyldu, ok keypti tvau skip ok fór utan með þau, ok allt sitt skuldalið. Þorfinnr faðir hans fór ok utan ok Kraki mágr hans. Þeir komu norðarlega við Noreg, ok fóru um sumarit eptir norðr á Hálogaland, ok ílendust þar með öllu liði sínu. Bjó Þorsteinn fagri þar, meðan hann lifði, ok þótti hinn vaskasti maðr.

Helgi óx upp með Þorsteini hvíta, fóstra sínum; hann görðist mikill maðr ok sterkr, bráðgörr, vænn ok stórmannligr, ok eigi máligr í barnœsku, údœll ok úvæginn þegar á unga aldri; hann var hugkvæmr ok margbreytinn. Þat var einn dag at Hofi, er naut váru á stöðli, at þar var griðungr einn með nautunum, mikill ok ógrligr. Annarr griðungr var heima fyrir, mikill ok stórr, er þeir frændr áttu. Helgi var úti staddr, ok sá at griðungarnir gengust at ok stönguðust, ok varð heima-griðungrinn vanhluta fyrir búigriðunginum[1]. En er Helgi sá þat, gengr hann inn ok sœkir mannbrodda stóra, ok bindr þá framan í enni á heima-griðunginum. Síðan taka þeir til at stangast, sem áðr, allt þar til er heima-griðungrinn stangar hinn til dauðs; höfðu mannbroddarnir gengit á hol. Þótti flestum þetta bellibragð[2] vera, er Helgi hafði gört; fèkk hann af þessu þat viðrnefni, at hann var kallaðr Broddhelgi, en þat þótti þá mönnum miklu heillavænligra, at hafa tvau nöfn. Var þat átrúnaðr manna, at þeir menn myndi lengr lifa, sem tvau nöfn hefði. Skjótt var þat auðsèt á Helga, at hann myndi verða höfðingi mikill,

1) *saaledes alle Haandskrifterne.*
2) bellibragð *alle Haandskrifterne, undtagen 144.*

ok engi jafnaðarmaðr. Einn vetr lifði Þorsteinn hvíti, síðan þeir Þorsteinn fagri skildu, ok þótti hann verit hafa hit mesta mikilmenni. Geitir í Krossavík átti Hallkötlu dóttur Þiðranda hins gamla Ketilssonar þryms, sonar Geitis ok Hallkötlu. Með þeim Geiti ok Broddhelga var vinátta mikil í fyrstu, en minnkaðist svá sem á leið, ok verðr fullr fjandskapr, sem segir í Vápnfirðingasögu, ok lýkr hèr sögu Þorsteins hins hvíta.

# Þáttr af Þorsteini stangarhögg.

Maðr hèt Þorsteinn, er bjó í Sunnudal, gamall maðr ok sjónlítill; hann hafði verit rauðavíkingr[1] í æsku sinni; hann var eigi dœldarmaðr, þótt hann væri gamall. Son átti hann sèr einn, er Þorsteinn er nefndr; hann var mikill maðr, öflugr ok vel stilltr, ok vann svá fyrir búi föður síns, at eigi mundi þriggja manna annarra verk haldkvæmara. Þorsteinn var heldr fèlítill maðr, en vel margt átti hann vápna; þeir áttu ok stóðhross feðgar, ok var þeim þat helzt til fjár, at þeir seldu undan hestana, því at engir brugðust at reið nè hug.

Þórðr er maðr nefndr, hann var húskarl Bjarna frá Hofi; hann varðveitti reiðhesta Bjarna, því at hann var kallaðr hrossamaðr. Þórðr var újafnaðarmaðr mikill; lèt hann ok marga þess kenna, er hann var ríkismanns húskarl, en eigi var hann sjálfr at meira verðr, ok eigi varð hann at vinsælli. Þeir menn váru enn á vist með Bjarna, er annarr hèt Þórhallr, en annarr Þorvaldr, ok váru uppaustrarmenn miklir um allt, þat er þeir heyrðu í hèraði. Þeir Þorsteinn ok Þórðr mæltu til hestaats ungum hestum, ok er þeir öttu, þá vildi hestr Þórðar verr bítast. Þórðr lýstr nú á skoltinn hesti Þorsteins, er hánum þótti sinn hestr verr hafa, mikit högg, en Þorsteinn sá þat, ok lýstr á móti hest Þórðar heldr meira högg, ok rann nú hestrinn

[1]) víkingr *552, 36, 27; de övrige* randavíkingr.

Þórðar, ok œptu menn þá með kappi. Þá lýstr Þórðr Þorstein með hestastafnum ok kom á brúnina, ok hljóp hón ofan fyrir augat. Þá risti Þorsteinn af skyrtublaði sínu, biųdr upp brúnina, ok lætr sem ekki hafi at orðit, ok biðr, at menn leyni þessu föður hans; ok fèll þetta þar nú niðr. Þeir Þorvaldr ok Þórhallr höfðu þetta fyrir kalsi, ok kölluðu hann Þorstein stangarhögg.

Litlu fyrir jól um vetrinn risu konur snimma til verks í Sunnudal; þá stóð Þorsteinn ok upp ok bar inn hey, ok lagðist síðan niðr í bekk. Nú kemr Þórarinn karl innar, faðir hans, ok spurði, hverr þar lægi. Þorsteinn sagði til sín. „Hví ertu svá snimma á fótum sonr?" sagði Þórarinn karl. Þorsteinn svarar: „Við fá þykkir mèr at meta, þat sem hèr er at vinna," sagði Þorsteinn. „Er þèr eigi illt í höfuðbeinunum, sonr?" kvað Þórarinn karl. „Eigi kenni ek þess," segir Þorsteinn. „Hvat segir þú mèr, sonr, af hestaþinginu því í fyrra sumar; vartu eigi lostinn í svima, frændi, sem hundr?" „Engi þykkir mèr virðing í vera," sagði Þorsteinn, „at kalla þat heldr högg, enn atburð." Þórarinn mælti: „Eigi mundi mik þess vara, at ek mynda ragan son eiga." „Mæl þú nú þat eitt um, faðir," sagði Þorsteinn, „er þèr þykkir eigi of mælt síðar." „Eigi man ek hèr svá mikit um mæla," sagði Þórarinn, „sem mèr er at skapi." Nú reis Þorsteinn upp, ok tók vápn sín, ok gekk síðan heiman, ok fór, unz er hann kom til hrossahúss, þess er Þórðr gætti hesta Bjarna, ok var hann þar fyrir. Þá hittir Þorsteinn Þórð, ok mælti til hans: „Vita vilda ek þat, Þórðr minn, hvárt þat varð af þèr váðaverk, er ek fèkk af þèr högg í fyrra sumar á hestaþingi, eða hefir þat at vilja þínum orðit?"[1] Þórðr svarar: „Ef þú átt tvá hvoptana,

1) *her tilföie 144, 156:* mantu þá vilja yfir, *med en Lacune foran* mantu, *hvor omtrent to Ord kunde staae. 496 har:* eigi mantu þá vilja yfir, *uden nogen Lacune.*

þá bregð þú tungunni sitt sinn í hvorn, ok kalla í öðrum váðaverk, ef þú vilt, en í öðrum kalla þú alvöru; ok eru þar nú bœtrnar, þær er þú mant af mèr fá." „Bústu þá svá við," sagði Þorsteinn, „at vera má, at ek heimta þær eigi optar." Síðan hleypr Þorsteinn at hánum ok höggr hann banahögg; gekk síðan til húss at Hofi, ok hittir konu eina úti, ok mælti við hana: „Seg þú Bjarna, at naut hafi stangat Þórð hestamann hans, ok man hann bíða hans þar, til þess er hann kemr hjá hrossahúsinu." „Far þú heim, maðr," sagði hón, „en ek man segja, þá er mèr sýnist." Nú ferr Þorsteinn heim, en konan ferr til verks síns. Bjarni reis upp um morgininn, ok er hann var undir borð kominn, þá spurði Bjarni, hvar Þórðr væri, ok svöruðu menn, hann myndi til hrossa farinn." „Heim hugða ek hann þó mundu kominn," kvað Bjarni, „ef hann væri heill." Þá tók kona til orða, sú er Þorsteinn hafði hitta: „Satt er þat, er oss er opt sagt konum, at þar er lítið til vits at taka, er vèr erum konur. Hèr kom Þorsteinn stangarhögg í morgin; kvað naut hafa stangat Þórð, svá at hann myndi eigi sjálfbjargi vera, en ek nennta eigi þá at vekja þik, ok þá hvarf mèr ór hug síðan." Bjarni stè þá undan borði, gekk til hrossahússins ok fann þar Þórð veginn, ok var hann síðan jarðaðr. Bjarni býr nú mál til, ok görir Þorstein sekan um vígit; en Þorsteinn sat heima í Sunnudal ok vann fyrir föður sínum, ok lèt Bjarni þó kyrrt vera.

Um haustit sátu menn við sviðuelda at Hofi, en Bjarni lá úti á eldahússveggnum, ok hlýddi þaðan til tals manna. Nú taka þeir brœðr til orða, Þórhallr ok Þorvaldr: „Eigi

562 *har:* eigi mantu þess vilja dylja, *og 36:* mantu þa vilja þat bæta, *ligeledes uden nogen Lacune. De to först anförte Haandskrifters Lacune synes at tyde paa, at der har været et ulæseligt Sted i den oprindelige Membran; hvorimod de övrige Haandskrifter, som ellers ikke udelade dette Sted, synes kun at frembyde nyere Tilsætninger.*

varði oss þess, þegar vèr tókum vist með Vígabjarna, at vèr myndim svíða hèr dilkahöfuð, en Þorsteinn skógarmaðr hans skyldi svíða geldingahöfuð; væri eigi verr at hafa meir vægt frændum sínum í Böðvarsdal, ok sæti nú eigi skógarmaðrinn jafnhátt hánum í Sunnudal, en ‚flestir verða forlagðir, ef fyrir sárunum verða', ok eigi vitu vèr, nær hann vill þenna flekk má af virðingu sinni." Maðr èinn svaraði: „Slíkt er verr mælt, enn þagat, ok líkligt, at ykkr hafi tröll togat tungu ór höfði, ok ætlum vèr, at hann nenni eigi at taka björg frá föður hans sjónlausum ok annarri úmegð þeirri, sem í Sunnudal er, en kynligt þykkir mèr, ef þit svíðit opt lambahöfuðin hèr, eða hrósit því, hvat í Böðvarsdal var títt." Nú fara menn til borða, ok síðan til svefns, ok fann ekki á Bjarna, hvat talat hafði verit. Um morgininn vakti Bjarni þá Þórhall ok Þorvald, ok bað þá ríða í Sunnudal, ok fœra sèr höfuð Þorsteins við bolinn skilit at dagmálum, „ok þykkja mèr þit líkligastir til at fœra flekk af virðingu minni, ef ek hefi eigi þrek til sjálfr." Nú þykkjast þeir víst of mælt hafa, ok fara þeir nú þó, unz þeir koma til Sunnudals. Þorsteinn stóð í durum ok hvatti sax; ok er þeir komu þar, þá spurði hann, hvert þeir ætluðu; en þeir sögðust hrossa leita skyldu, en Þorsteinn kvað þeirra myndi skammt at leita, „er hèr eru við garð." „Eigi er víst," segja þeir, „at vit finnim hrossin, ef þú vísar oss eigi görr til." Þorsteinn gengr þá út; ok er þeir koma í garðinn ofan, þá fœrir Þorvaldr upp öxina, ok hleypr at hánum. Þorsteinn stakk við hánum hendi sinni, svá at hann fèll fyrir. Þorsteinn lagði saxinu í gegnum hann. Þá vildi Þórhallr veita hánum tilræði, ok hafði hann slíka för, sem Þorvaldr. Þá bindr Þorsteinn á bak báða þá, ok lætr upp taumana á háls hestùnum, ok vísar á leið öllu saman, ok ganga hestarnir nú heim til Hofs. Húskarlar

váru úti at Hofi, ok gengu inn ok sögðu Bjarna, at þeir Þorvaldr váru heim komnir, ok sögðu þá eigi erendislaust farit hafa. Gengr nú Bjarni út, ok sèr þegar, hvernig um er búit, ok hefir eigi orð um fleiri; lætr nú jarða þá, ok er nú kyrrt allt, unz jól líða. Þá tekr Rannveig til orða einn aptan, er þau komu í sæng sína Bjarni ok hón: „Hvat ætlar þú at nú sè tíðast talat í hèraðinu?" kvað hón. „Eigi veit ek," segir Bjarni; „margir þykkja mèr úmerkir í sínum orðum," segir hann. „Þat er nú tíðast rœtt, at menn þykkjast eigi vita, hvat Þorsteinn stangarhögg man þess göra, er þèr man þurfa þykkja at hefna; hefir hann nú vegit húskarla þína þrjá, ok þykkir þingmönnum þínum eigi vænt til hal̓ds, þar sem þú ert, ef þessa er úhefnt, ok eru þèr mjök mislagðar hendr í knè." Bjarni svarar: „Nú kemr hèr at því, sem mælt er, at ‚engi lætr sèr annars víti at varnaði verða', en hlýða man ek þèr, hvat er þú mælir; hefir Þorsteinn ok fá saklausa drepit." Hætta þau þessu tali, ok sofa af nóttina, Um morgininn vaknar Rannveig, er Bjarni tók ofan skjöld sinn, ok spurði hón, hvert hann skyldi. Hann svarar: „Nú skal skipt virðingu með okkr Þorsteini í Sunnudal," segir hann. „Hversu fjölmennr skaltu fara?" segir hón. „Eigi man ek draga fjölmenni at Þorsteini," segir hann, „ok man ek einn fara." „Görðu eigi þat," segir hón, „at hætta þèr einn undir vápn heljarmannsins." Bjarni mælti: „Man þèr nú eigi verða þeirra kvenna dœmi, er þat gráta á annarri stundu, er eggja á annarri; ek þoli opt lengi frýjuorð, bæði af þèr ok öðrum, en þá stoðar ok eigi at letja mik, þá er ek vil fara." Bjarni ferr nú í Sunnudal, ok stendr Þorsteinn í durum, ok köstuðust þeir á nökkurum orðum. Bjarni mælti: „Þú skalt til einvígis ganga við mik í dag, Þorsteinn, á hól þenna, er hèr er í túni." „Allt er mèr til þess vant," segir Þorsteinn, „at berjast við

þik; en ek skal þegar utan, er skip ganga, því at ek kenni drengskap þinn, at þú mant fá föður mínum forverk, ef ek ferr frá." „Eigi stoðar nú undan at mælast," segir Bjarni. „Leyfa mantu mèr þá, at ek finna föður minn áðr," segir Þorsteinn. „At vísu," segir Bjarni. Þorsteinn gekk inn, ok sagði föður sínum, at Bjarni var þar kominn, ok bauð hánum til einvígis. Þórarinn karl svaraði: „Ván má hverr maðr þess vita, ef hann á við sèr. ríkara mann, ok siti sambèraðs hánum, ok hafi þó gört hánum nökkura úsœmd, at hann man eigi mörgum skyrtunum slíta, ok kann ek því eigi at sýta þik, at mèr þykkir þú mikit hafa tilgört; tak nú vápn þín, ok ver þik sem sköruligast, því at þar mundi verit hafa minnar æfi, at eigi munda ek bograt hafa fyrir slíkum, sem Bjarni er; er Bjarni þó hinn mesti kappi, þykkir mèr ok betra at missa þín, enn eiga ragan son." Nú gengr Þorsteinn út, ok fara þeir síðan út á hólinn, ok taka til at berjast með harðfengi, ok hjuggust mjök hlífar fyrir hvárumtveggja; ok er þeir höfðu mjök lengi barist, mælti Bjarni til Þorsteins: „Þyrstir mik nú, því at ek em úvanari erfiðinu, enn þú." „Gakk þá til lœkjarins," sagði Þorsteinn, „ok drekk." Bjarni görði svá, ok lagði niðr sverðit hjá sèr. Þorsteinn tók þat upp, leit á ok mælti: „Eigi mundir þú þetta sverð hafa í Böðvarsdal." Bjarni svaraði engu. Ganga þeir enn upp á hólinn, ok berjast um stundar sakir, ok þykkir Bjarna maðrinn vígkœnn ok fastari fyrir vera, enn hann hugði. „Margt hendir mik nú í dag," segir Bjarni, „lausir eru nú skúþvengir mínir." „Bind þú þá," kvað Þorsteinn. Nú lýtr Bjarni niðr, en Þorsteinn gekk inn, ok hefir út skjöldu tvá ok sverð eitt; gengr nú á hólinn til Bjarna, ok mælti við hann: „Hèr er skjöldr ok sverð, er faðir minn sendir þèr, ok man þetta eigi sljófgast meir í höggunum, enn þat sem þú hefir áðr; nenni ek ok eigi at

standa hlífarlauss lengr undir höggum þínum, en gjarna vilda ek nú hætta þessum leik, því at ek em hræddr, at meira man mega gæfa þín, enn úgipta mín, ok er hverr frekr til fjörsins, ef hann má nökkuru um ráða." „Eigi man nú stoða at beiðast undan," segir Bjarni, „berjast skal enn." „Eigi man ek fyrr höggva," segir Þorsteinn. Þá höggr Bjarni allan skjöldinn af Þorsteini; en þá hjó Þorsteinn skjöldinn af Bjarna. „Stórt er nú höggvit," kvað Bjarni. Þorsteinn svaraði: „Eigi hjóttu smærra högg." Bjarni mælti: „Betr bítr þèr nú sama vápnit, er þú hefir áðr í dag haft." Þorsteinn mælti: „Spara munda ek við mik úhapp, ef at ek mætta svá göra, ok berjumst ek hræddr við þik; vilda ek enn allt á þínu valdi vera láta." Þá átti Bjarni enn at höggva, ok váru nú báðir orðnir hlífarlausir. Bjarni mælti þá: „Þat man illt kaup at taka glœp við miklu happi; ætla ek mèr fullgoldit fyrir þrjá húskarla mína þik einn, ef þú vilt mèr trúr vera." Þorsteinn svarar: „Orðit hafa mèr svá fœri í dag á þèr, at ek mætta svíkja þik, ef úgæfa mín gengi ríkara, enn lukka þín, ok man ek eigi svíkja þik," sagði Þorsteinn. „Sè ek, at þú ert afbragðsmaðr," segir Bjarni; „lofa mantu mèr at ek ganga inn til föður þíns," segir hann, „ok segja hánum slíkt sem ek vil." „Gakk sem þú vilt fyrir mínum sökum," kvað Þorsteinn, „ok far þó varliga." Þá gekk Bjarni inn at lokhvílu þeirri, er Þórarinn karl lá í. Þórarinn spurði, hverr þar fœri, en Bjarni sagði til sín. „Hvat segir þú tíðenda, Bjarni minn?" kvað Þórarinn. „Víg Þorsteins sonar þíns," kvað Bjarni. „Varðist hann nökkut?" kvað Þórarinn. „Engan mann ætla ek snarpara verit hafa í vápnaskiptum, enn Þorstein son þinn." „Ekki er kynligt at því," kvað karl, „at þungt veitti við þik í Böðvarsdal, er þú bart nú af syni mínum." Þá mælti Bjarni: „Ek vil bjóða þèr til Hofs, ok

skaltu sitja þar í öðru öndvegi meðan þú lifir, ok man ek vera þèr í sonar stað." „Svá er mèr farit," kvað karl, „sem þeim, er ekki eigu undir sèr, ok verðr opt heitum heimskr maðr feginn, en svá eru heit yðar höfðingja, þá er þèr vilit fróa manninn eptir slíka atburði, at þat er mánaðarró, en þá eru vèr virðir eptir þat, sem aðrir framfœrslumenn, ok firnast við þat seint várir harmar; en sá maðr, er handsöl tekr af slíkum manni, sem þú ert, má þó vel una sínum hlut, hvat sem at dœma er; man ek ok þessi handsöl taka af þèr, ok gakk þú nú hingat til mín í rekkjugólfit, ok verðr þú nær at ganga, því at karl skelfr nú allr á fótum fyrir elli sakir ok vanheilsu, en eigi trútt, at mèr hafi eigi í skap runnit sonar dauðinn." Bjarni gekk nú í rekkjugólfit, ok tók í hönd Þórarni karli. Hann fann þá, at hann þuklaði á saxi, ok vildi þá leggja at Bjarna; hann kippti hendinni ok mælti: „Allra karla armastr," sagði Bjarni; „nú man at makligleik fara með okkr; Þorsteinn sonr þinn lifir, ok skal hann fara heim með mèr til Hofs, en þèr skal fá þræla til forverks, ok skal þèr þó einskis vant, meðan þú lifir." Þorsteinn fór nú heim með Bjarna til Hofs, ok fylgdi hánum allt til dauðadags, ok þótti nær einskis manns maki vera at drengskap ok hreysti. Bjarni hèlt virðingu sinni, ok var hann því vinsælli ok betr stilltr, sem hann varð ellri, ok var allra manna þrautbeztr, ok görðist trúmaðr mikill hinn síðasta hluta æfi sinnar. Bjarni fór utan ok gekk suðr, ok andaðist í þeirri ferð; hann hvílir í borg þeirri, er Valerí heitir, ok er þat mikil borg, skammt hingat frá Rómaborg. Bjarni varð kynsæll maðr. Hans sonr var Skeggbroddi, er víða kemr við sögur, ok var hinn mesti afbragðsmaðr um sína daga. Dóttir Bjarna hèt Halla ok Guðríðr, er Kolbeinn lögsögumaðr átti. Yngvildr var ok dóttir Bjarna, er Þorsteinn Síðuhallsson átti, ok var þeirra

sonr Magnús, faðir Einars, föður Magnús byskups. Ámundi var ok sonr Þorsteins ok Yngvildar; hann átti Sigríði, dóttur Þorgríms blinda. Hallfríðr var ok dóttir Ámunda, [móðir Ámunda[1], föður Guðmundar, föður Magnús góða ok Þóru, er Þorvaldr Gissurarson átti, ok annarar Þóru, móður Orms svínfellings. Guðrún' var ok Ámunda dóttir, móðir Þórdísar, móður Helgu, móður Guðnýjar Eyvindsdóttur, móður þeirra Sturlusona, Þórðar ok Sighvats ok Snorra. Rannveig var ok Ámundadóttir, móðir Steins, föður Guðrúnar, móður Arnfríðar, er digri Helgi átti. Þórkatla var ok Ámundadóttir, móðir Arnbjargar, móður Finns prests ok Þorgeirs ok Þuríðar, ok hafa margir höfðingjar frá þeim komit; ok lýkr þar at segja frá Þorsteini stangarhögg.

1) *tilföiet.*

## Brandkrossa þáttr.

Þar hefjum vèr upp Helganna sögu, er Ketill þrymr er, því at vèr vitum hann kynsælastan verit hafa þeirra manna, er í þessarri sögu er frá sagt; eru frá hánum komnir Síðumenn ok svá Krossvíkingar, svá ok þeir Droplaugarsynir. Þat viljum vèr ok segja, hversu Helgi Ásbjarnarson er kominn af Landnámsmönnum, er göfgastr maðr er í þessarri sögu at vitra manna virðingu.

Maðr hèt Hrafnkell, hann var Hrafnsson; hann kom út til Íslands síð landnámatíðar. ok var í Skriðudal; hann sofnaði þar ok dreymdi, at maðr kom at hánum, ok bað hann á braut verða, ok upp standa sem skjótast, með allt sitt. Hrafnkell, vaknaði ok fór þegar í braut á sömu stundu, en því næst hljóp ofan fjallit allt, ok varð þar undir göltr ok graðungr, er Hrafnkell hafði átt; þat eitt hafði eptir orðit. En hann fór í Hrafnkelsdal, ok byggði allan dalinn sínum mönnum, nær tuttugu bœi, en hann bjó sjálfr á Steinrauðarstöðum. Hann görðist brátt höfðingi mikill, ríkr ok fjölmennr. Synir Hrafnkels váru þeir Ásbjörn ok Þórir. En er Hrafnkell andaðist, tóku synir hans arf eptir hann at jafnaði; hlaut Þórir bústað þann, er faðir hans hafði átt, en Ásbjörn byggði þann bœ, er kallaðr var at Lokhellum, en nú heitir at Hrafnkelsstöðum, ok sat hann þann bœ vel. Ásbjörn átti þá konu, er Hallbera hèt; hón var dóttir Hrollaugs, sonar Rögnvalds jarls af Mœri. Þau áttu

son, þann er Helgi var kallaðr. Helgi fœddist upp; fálátr var hann ok vel orðstilltr; lagðist mönnum rómr á, hversu hann görðist. Ásbjörn varð eigi gammall. Þá er hann andaðist, tók Helgi arf eptir hann, ok bjó nökkura vetr á Lokhellum. Eptir þat brá Helgi búi sínu, ok seldi Hrafnkeli Þórissyni, brœðrung sínum, en hann fór utan, ok var marga vetr í hernaði, bæði í Orkneyjum ok Noręgi með frændum sínum. Helgi var ok nökkur sumur í víkingu, ok var hinn hraustasti maðr, en engi afreksmaðr at afli ok vígfimi. Eptir þat fór Helgi til Íslands, ok var bæði gott orðit til fjár ok virðingar. Spakbessi bauð Helga með sèr at vera, ok fór hann með hánum heim á Bessastaði. Á þeim sömu misserum kvángaðist Helgi, ok fèkk Oddlaugar, systur Bessa, ok tókust þar brátt góðar samfarir ok miklar ástir. Þá var Helgi staðfestulauss, ok var engi þá fúss at rísa upp af sínu landi fyrir Helga.

Maðr hèt Oddr[1], ok var kallaðr sindri; hann var auðigr at fè ok údœll við at eiga. Hann hafði valit sèr bústað við Lagarfljót, öðrum megin enn Bessastaðir eru, ok búit þann bœ vel. Oddr átti konu ok son, þann er Ósvífr hèt; var þat kallat, at hann fylgdi því nafni í skaplyndi. Hann var farmaðr ok barst á mikit, leikmaðr mikill, háðsamr ok hœlinn. Þat var einhverju sinni, at þeir rœddust við mágar, Bessi ok Helgi; spyrr Helgi, hvar hann sæi hánum bústað, eða hvert ráð hann legði á með hánum. Bessi gaf ok gott ráð, þat sem þeir efndu síðar. Þegar er ís lagði á vatnið, þá gekk Helgi á Oddsstaði[2], ok görði sèr kátt við Ósvífr; síðan tókust leikar upp milli Oddsstaða ok Bessastaða. Maðr er nefndr Útryggr, er vistarmaðr var á Oddsstöðum; hann tók at sœkja mjök Ósvífr at leikum, ok

1) *27 skriver overalt* Oddl.
2) *27 overalt* Oddastaði; *164 har to Steder* Oddastaði.

hœldist eptir, ok sagði hann meir vera hœlinn, enn harðleikinn; en Oddr vá síðan Útrygg. Helgi Ásbjarnarson tók við vígsmálinu. Þá leituðu menn um sættir, en engi var kostr annarr, enn Bessi görði einn um, ok varð sú sætt þeirra, at Bessi görði litla fjársekt, en görði Odd burt af bústað sínum ok ór hèraði. Oddi líkaði stórilla málalok, en þó urðu þau at vera, af því margir váru hánum unnandi úfararinnar. Helgi Ásbjarnarson leysti Oddsstaði aptur til sín, ok þó við mikinn úþokka Odds, en þó varð svá at vera, at Oddr varð í braut at fara, ok er ekki síðar frá hánum sagt í þessarri sögu, en þó hefir hann mikilmenni kallaðr verit. Helgi reisti bú á Oddsstöðum, ok ætlaði allt til á einum degi, ok þangat at fœra bú sitt hinn fyrsta fardag. En er Oddr bjó sína ferð í braut, þá lèt hann höggva graðung ok sjóða, en hinn fyrsta fardag, þá er Oddr var á braut búinn, lætr hann borð setja með endilöngum sætum, ok var þetta allt graðungsslátr á borð borit. Gekk þá Oddr þar at svá talandi: „Hèr er nú vandliga borð búit, ok svá sem hinum kærstum vinum mínum; þessa veizlu gef ek alla Frey, at hann láti eigi þann með minna harmi braut fara af Oddsstöðum, er í minn stað kemr, enn ek ferr nú." Eptir þat fór Oddr í braut með allt sitt.

Þessa rœðu segja sumir menn til um ætt Droplaugarsona, þeirrar er úkunnari er; en þótt sumum mönnum þykki hón efanlig, þá er þó gaman at heyra hana.

Maðr hèt Grímr, er bjó í Vápnafirði, í Vík hinni innri; hann var ungr maðr ok úkvángaðr ok vel auðigr at fè. Hann ól upp uxa þann, er brandkrossóttr var á lit, ok ágæta naut at vexti; hánum þótti hann betri, enn allt þat, er hann átti í kvikfè. Hann gekk í túnum á sumrum, ok drakk mjólk bæði vetr ok sumar. Þat bar við um sumarit, þá er uxinn var tíu vetra gamall, en taðan stóð úti um-

Meðaldal kom til boðs at Gísla, ok bregðr honum á einmæli ok[1] sagðe, at Vèsteinn væri út kominn, „Ok er hans hingat von." Gísli bregðr við skjótt ok kallar til sín húskalla sína, Hallvarð ok Hávarð, ok bað þá fara norðr í Önundarfjörð ok hitta Vèstein ok bera honum kveðju „mína, ok þat með, at hann sè heima þar til er ek sæke hann heim, ok kome ekki til boðsins í Haukadal" — ok selr í hendr þeim knýtiskauta, ok var þar í peningr hálfr til jarteigna, ef hann tryðe ekki sögu þeirra ella. Síðan fara þeir ok hafa skip úr Haukadal ok róa til Lækaróss ok ganga þar á land, ok til bónda þess, er þar bjó, á Bessastöðum; hann hèt ok Besse; þeir bera honum orð Gísla, at hann lèðe þeim hesta tvo, er hann átte, ok hètu Bandvettir, er skjótastir voro í Fjörðum. Hann lèr þeim hestana; ok ríða þeir unst þeir komu á Mosvöllu ok þaðan inn undir Hest. Nú ríðr Vèsteinn heiman; ok berr svo til, at þá ríðr hann undir melinn hjá Mosvöllum, er þeir bræðr ríða hit efra, ok farast þeir hjá á miss.

[2]Þorvarðr hèt maðr, er bjó í Holte; húskallar hans deildu um verk ok hjuggust með ljám, ok varð hvortveggi sár — kemr Vèsteinn til ok sættir þá, og gjörer svo, at hvorumtveggum hugnar vel; ríðr nú út til Dýrafjarðar, ok austmenn þrír samt. Enn þeir[3] koma undir Hest, Hallvarðr ok Hávarðr, ok fregna nú hit sanna um ferð Vèsteins — ríðu nú aptr sem þeir mega. Ok er þeir koma til Mosvalla, þá sá þeir manna-reið í miðjum dal, ok var þá leite í millum þeirra; ríða nú í Bjarnardal ok koma til Arnkelsbrekku; þar springa báðir hestarner; þeir renna þá af hestunum, ok kalla. Heyra þeir Vèsteinn nú, ok voro þá

1) *„mælti, ok" t. Sa.*
2) *Sa t. som Overskrift:* uefteiñ kom til gıfla.
3) *Gisning; Sa har „er".*

komnir á Gemlufallsheiðe, ok bíða nú ok hittast þeir, ok bera upp erindi sín — bera nú fram peninginn, þann er Gísli sende honum. Hann tekr nú annann pening úr fègyrðli sínum, ok roðnar mjök á at sjá: „Satt eitt segi þit" segir hann, „ok munda ek aptr hafa horfit, ef þit hefðut hitt mik fyr; enn nú falla vötn öll til Dýrafjarðar, ok mun ek þangat ríða; enda em eg þess fúss. Austmenn skulu hverfa aptr. Enn þið stígit á skip" segir Vèsteinn „ok segit Gísla ok systur minni þangatkomu mína." Þeir fara heim ok seigja Gísla. Hann svarar: „Svo verðr nú at vera." Vèsteinn ferr til Gemlufalls, til Lutu frændkonu sinnar, ok lætr hón flytja hann yfir fjörðinn, ok mælti við hann: „Vèsteinn!" sagðe hón, „vertu varr um þik; þurfa muntu þess." Hann er fluttr til Þingeyrar; þar bjó þá maðr, er Þorvaldr gneiste hèt; Vèsteinn geingr þar til húss, ok lèt Þorvaldr honum heimilann hest sinn; ríðr hann nú við hrímande ok hefir sitt söðulreiðe; hann fylgir honum til sauðahúss ok bauð at fylgja honum allt til Gísla. Hann kvað ekki þess þurfa. „Margt hefir skipazt í Haukadal" sagðe hann, „ok vertu varr um þik." Þeir skiljast nú. Ríðr Vèsteinn nú til þess hann kemr í Haukadal, ok var á heiðviðri ok tunglskin. Enn at þeirra Þorgríms, þá láta þau inn naut, Geirmundr ok kona sú er Rannveig hèt; bæser hún nautin, enn hann rekr inn at henne. Þá ríðr Vèsteinn þar um völl, ok hittir Geirmundr hann. [Geirmundr mælti:[1] „Kom þú ekke hèr á Sæból ok far til Gísla ok ver varr um þik." Rannveig hafðe geingit út úr fjósinu, hyggr at manninum ok þikist kenna; og er nautin voro inn látin, þræta þau um manninn, hverr verit hafðe, ok ganga við þat heim. Þeir Þorgrímr sitja við eld, ok spyrr Þorgrímr, ef þau hefðe nökkut manna sèth eðr hitt, eðr um hvat þau

1) *Fra* [ *t. efter P.*

þrættest. „Eg þóttumst kenna, at Vèsteinn var hèr kominn" sagðe Rannveig, „ok var í blárre kápu ok spjót í hende ok reið við hrímandi. Enn hvat segir þú, Geirmundr?" „Ógjörla sá ek til; enn húskall ætla ek Önundar úr Meðaldal, ok var í kápu Gísla, enn söðulreiðe Önundar, ok í[1] hende fiskestöng ok veðrar af upp." „Nú mun ljúga annathvort ykkart" sagðe Þorgrímr, „ok far þú, Rannveig, á Hól ok vit, hvath þar er títt." Nú fór hón ok kom til dyra, er menn voro komnir til drykkju. Gísli var í dyrum úte ok heilsaðe henne ok bauð henne þar at vera. Hón kvezt heim skyldu: „Ok vilda ek hitta Guðríðe mey." Gísli kallar á hana; ok varð ekke at erindum. „Hvar er Auðr, kona þín?" segir hón. „Hèr er hón" segir Gísli. Hón geingr út, ok spurðe, hvath hón vilde. Hón kvað smá erinde ein vera, ok komust eingi upp. Gísli bað hana gjöra annathvort, vera þar eðr fara heim. Hón fór heim, ok var þá nökkuru heimskare, enn áðr, ef á mátte gæða, enn kunni eingi tíðindi at segja. Enn eptir um morgininn lèt Vèsteinn bera at sèr töskur tvær, er varningr var í, ok þeir bræðr höfðu með farit, Hallvarðr ok Hávarðr. Hann tók þar úr refel sextögan at leingd ok höfuðdúk tuttugu álna langan ok ofit í glit af gulli í þrim stöðum ok munnlaugar þrjár fáðar með gulle. Þetta bar hann fram ok gaf systur sinni, Gísla ok Þorkeli svarabróður sínum, ef hann vilde þiggja. Gísli geingr ok Þorkatlar tveir á Sæból til Þorkels bróður síns. Segir Gísli, at Vèsteinn var þar kominn ok hann hefir gefit þeim báðum saman gripina, ok sýnir honum ok biðr hann af hafa slíkt er hann vill[2]. Þorkell svarar: „Þó værir þú makkligr, þó at þú eignaðist alla; ok vil ek ekki þiggja gripina; ekki eru launin sýnni enn svo." Ok vill

1) *Falles i Sa.*
2) *Falles i Sa.*

hann víst ei þiggja. Nú ferr Gísli heim, ok þikkir honum um allt einn veg á horfast.

[1]Nú bar þat til nýlundu á Hóli, at Gísli lætr illa í svefne tvær nætr í samt, ok spyrja menn, hvat hann dreymde. Hann vill ekki segja drauma sína. Nú kemr hin þriðja nóttin, ok fara menn til rekkna sinna; ok er menn höfðu sofit svefn, kemr bylur á húsith, svo mikill, ath af tekr þekjuna alla öðru megin af húsinu. Þat fylgde þessu, at vatn fèll úr himni svo mikith, at þat var með ódæmum, ok tóku húsin at drjúpa, sem líklikt var, er þakit tók at rofna. Gísli spratt upp skjótt ok heitr á menn sína, at skýli. Enn þræll einn var með Gísla, sá er Þórðr hèt, ok kallaðr hinn huglause. Þrællinn var heima; enn Gísli fór, ok nær aller mennirnir með honum, til heyjanna, at duga þeim við. Vèsteinn bauð at fara með þeim; enn Gísli vill ekki þat. Ok nú er mest tóku at drjúpa húsin, þá snúa þau syskin rekkjum sínum um endelangt húsit; enn allir menn aðrir voro burt flýðir úr húsinu, nema þau tvau ein. Nú er geingit inn nökkut fyrir lýsing, hljóðliga, ok þangat at, sem Vèsteinn hvíler. Hann var þá vaknaðr. Eigi finnr hann fyrr, enn hann er lagðr spjóte fyrir brjóstit, svo at stóð í gegnum hann. Enn er Vèsteinn fekk lagit, þá mælti hann þetta[2]: „Hneit þar" sagðe hann — ok því næst gekk maðrinn út. Enn Vèsteinn vilde upp standa; í því fellur hann niðr fyrir stokkinn dauðr. Auðr vaknar við ok kallar á Þórð hinn huglausa ok biðr hann taka vopnit úr undinni. Þat var þá mælt, at sá væri skyldr at hefna, er vopni kippte úr sári; enn þat voro kölluð launvíg, enn ekki morð, er menn lètu vopn eptir í beninni standa. Þórðr var svo líkblauðr maðr, at hann þorðe hvergi í nánd at koma.

1) *Sa l. som Overskrift:* „Þorgrímr drap Vestein".
2) „er hann fekk lagit" *l. Sa.*

Gísli kom þá inn, ok sá, hver efni í voro, ok bað Þórð vera kyrran. Hann tók sjálfr spjótit úr sárinu ok kastaðe alblóðugu í örk eina ok lèt eingan mann sjá ok settist á stokkinn. Síðan lèt hann búa um lík Vèsteins eptir þeirre siðvenju, er þá var, í þann tíma. Vèsteinn var mjök harmdauða bæðe Gísla ok öðrum mönnum. Þá mælti Gísli til Guðríðar fóstru sinnar: „Þú skalt fara á Sæból, ok vita, hvath menn hafast þar at; sende ek þik fyrir því þangat, ath ek trúe þèr bezt um þetta ok annat; ok kunn at segja mèr, hvat menn hafast þar ath." Hón ferr ok kemr á Sæból; þeir voro upp risnir, ok sátu með vopnum, Þorgrímar tveir ok Þorkell; ok er hón kom inn, var henne heilsath óbrátt — því at fólk var flest fámálugt. Þó spyrr Þorgrímr hana tíðinda. Hón sagðe víg Vèsteins eðr morð. Þorkell svarar: „Tíðindi munde oss þat hafa þótt eina stund". „Sá maðr er þar látinn" segir Þorgrímr, „er vær erum allir skyldir til virðing at veita, ok gjöra hans útferð sem sæmiligasta ok heygja hann; ok er þat satt at seigja, at slíkt er mikill mannskaðe; máttu ok segja svo Gísla, at vær munum þar koma í dag." Hón ferr heim, ok segir Gísla, at Þorgrímr sat með hjálm ok sverð ok öllum herbúnaðe, enn Þorgrímr nef hafði bolöxi í hende, enn Þorkell hafðe sverð ok brugðit af handfang — „Allir menn voro þar upp risnir, sumir með vopnum." „Slíks var at von" segir Gísli.

[1] Gísli býst nú til ath heygja Vèstein, með allt lið sitt, í sandmel þeim, er á stenzt ok Seftjörn, fyrir neðan Sæból. Ok er[2] Gísli var á leið kominn, þá fara þeir Þorgrímr með marga menn til haugsgjörðarinnar. Enn þá er þeir höfðu veitt Vèsteini umbúnath, sem siðr var til, gekk Þorgrímr at

1) *Sa t. som Overskrift:* uetl' $\overset{r}{u}$ heygð[2].
2) *Fattes i Sa.*

Gísla ok mælti: „Þat er tíðska" segir hann „ath binda mönnum helskó, þá er þeir skulu ganga á til Valhallar, ok mun ek þat gjöra við Vèstein." Ok er hann hafðe þat gjört, þá mælti hann: „Ekki kann ek[1] helskó at binda, ef þesser losna." Eptir þetta setjast þeir niðr fyrir utan hauginn ok talast við ok láta allólíkliga, at nökkur vite, hverr þenna glæp hefir gjört. Þorkell spurðe Gísla: „Hversu berst Auðr af um bróðurdauðann? hvort grætr hón mjök?" „Vita muntu þat þikkjast" segir Gísli; „hón berst af lítt ok þiker mikit. — Draum dreymde mik" segir Gísli „í fyrre nótt, ok svo í nótt: enn þó vil ek ekki á kveða, hverr vígit hefir unnit; enn á hith horfir um draumana. Þat dreymde mik hina fyrre nótt, at af einum bæ hrökktist höggormr ok hjöggi Vèstein til bana. Enn hina síðare nótt dreymde mik, at vargr rynni af sama bæ ok bite Vèstein til bana. Ok sagða ek því hvorngan drauminn, fyrre enn nú, ath ek vilda, ath hvorgi rèðist." Ok þá kvað hann vísu:

108,1 Betr hugða ek þá, brigði
(biðkað ek draums hins þriðja)
síks, af svefne vöktum,
sárteina, Vèsteini,
þá er vær í sal sátum
Sigrhadds, við möð gladdir,
(komst ei maðr á milli
mín nè hans) at víni.

Þorkell spurðe þá: „Hversu berst Auðr af um bróðurdauðann? hvort grætr hón mjök?" „Opt spyrr þú þessa, frænde!" segir Gísli, ok er þèr mikil forvitni á at vita þetta." Gísli kvað vísu:

1) *Falles i Sø.*

108,2 Hylur á laun und líni
linnvegs skap (kinna)
gríðar (less úr góðum)
gefn (èl kerum svefna).
Eik ber (angri) lauka
(eirekks) brá (geira)
(bróður) dögg á beiðe
blíð öndvegi síðan.

Ok enn kvað hann:

109 Hrynja lætr af hvítum
hvarmskógi gná bauga
hrönn, reifingum hranna,
hlátrbann- í knè svanna.
Hnetr less (enn þreyr þessum)
þögn (at mærðar rögni)
snáka túns af sínu
sjóneple bölgrónu.

Nú ganga þeir bræðr heim eptir þetta báðir saman. Þá mælti Þorkell: „Mikil tíðindi hafa hèr gjörzt, ok munu þèr verða nökkuru meiri tíðinde, með harmi, enn oss; enn ekki at síðr verðr hverr með sjálfum sèr leingst at fara. Vilda ek, at þú lètir þèr ekki þetta svo mikils fá, at menn renne þar af því grunum í; vilda ek, at vær tækum upp leika, ok væri nú svo vel með oss, sem þá er bezt hefir verit." „Þetta er vel mælt" seger Gísli, „ok vil ek þat gjarna, ok þó með þeim hætte, ef nökkut kann þat til at bera á þinni æfi, at þèr þikke jafn-mikit, sem mèr þikkir þetta, þá skaltu mèr því heita, at gjöra þá með sama hætte, sem þú beiðir mik nú." Þessu játar Þorkell. Síðan fara þeir heim, ok er þá drukkith erfi eptir Vèstein. Ok er þat er

gjört, ferr hverr heim til síns heimiliss, ok var nú allt kyrrt.

[1]Tókust nú upp leikar, sem ekke hefðe í orðit. Eiga þeir mágar optast leik saman, Gísli ok Þorgrímr, ok verða menn ekki ásáttir, hvorr sterkare er; enn þó ætla flestir Gísla aflameira. Þeir leika knattleika á tjörn þeirri, er Seftjörn heitir[2]; þar var jafnan fjölmennt. Þat var einn dag, þá er flesta lagi var komit, ath Gísli bað jafnliga skipta til leiksins. „Þat viljum vær víst" segir Þorkell; „enda viljum vær, at þú sparer þá ekke af við Þorgrím; því at þat orð flyzt af, at þú sparist við; enn ek ynna þèr allvel, at þú feingir sem mesta virðing af, ef þú ert sterkare." „Ekke höfum vit þat reynt hèr til" segir Gísli; „enn þó má þat vera, at þar komi, at vit reynum." Nú leika þeir, ok hefir Þorgrímr ekke við — fellde Gísli hann ok bar út knöttinn. Þá vill Gísli taka knöttinn; enn Þorgrímr heldr honum ok lætr hann ekki því ná. Þá feller Gísli svo hart Þorgrím, svo hann hafðe ekke við, ok af gekk skinnit af knúnum, enn blóð stökk úr nösunum, af gekk ok kjötit af knjánum. Þorgrímr stóð seint upp; hann leit til haugsins Vèsteins ok mælti:

//0 Geir í gumna sárum
gnast; ek kann ei lasta.

Gísli tók knöttinn á skeiðe ok rekr á mille herða Þorgrími, svo at hann[3] steyptist á fram, ok mælti:

/// Böllr á byrðar stalle
brast; enn ek kann ei lasta.

Þorkell sprettr upp ok mælti: „Nú má þat sjá, hverr sterkastr er, eðr mestr atgjörfimaðr er; ok hættum nú."

---

1) *Sa tilföier som Overskrift:* G. gıoꝛðı ueızlu.
2) *Falles i Sa.*
3) *Falles i Sa, og er tilföiet i Overeensstemmelse med P.*

Ok svo gjörðu þeir. Tókust nú af leikarner, ok líðr á sumarit, ok fættkaðist nú heldr með þeim Þorgrími ok Gísla. Þorgrímr ætlaðe at hafa haustboð at vetrnóttum ok fagna vetri ok blóta Frey, ok býðr þangat Berke bróður sínum ok Eyjólfi Þórðarsyni ok mörgu öðru stórmenne. Gísli býr ok til veizlu ok býðr til sín mágum sínum úr Arnarfirðe ok Þorkötlum tveimr, ok skorte ekki hálft hundrað manna at Gísla. Drykkja skylde vera at hvorratveggja, ok var stráð gólf á Sæbóli af sefinu af Seftjörn. Þá er þeir Þorgrímr bjuggust um ok skyldu tjalda húsin, enn boðsmanna var þangat von um kveldit, þá mælti Þorgrímr við Þorkel: „Vel kæmi oss nú reflarnir, þeir hinir góðu, er Vèsteinn vilde gefa þèr; þætte mèr, sem þar væri laugt í mille, hvort þú hefðir þá með öllu, eðr hefðir þú þá aldri; ok vilda ek nú, at þú lètir sækja þá." Þorkell svarar: „Allt kann sá er hófit kann, ok mun ek ekki eptir þeim senda." „Ek skal þat gjöra þá" sagði Þorgrímr, ok bað Geirmund fara. Geirmundr svarar: „Vinna mun ek nökkut; enn ekke er mèr um at fara." Þá geingr Þorgrímr at honum ok slærr hann buffeitt mikit ok mælti: „Far nú þá, ef þèr þikkir nú betra." „Nú skal fara" sagðe hann, „þó at nú sè verra; enn vit þat fyrir víst, at hafa skal ek vilja til at fá þèr þar fylu er þú færr mèr fola, ok er þó ei varlaunat." Síðan ferr hann. Ok er hann[1] kemr þar, þá eru þau Gísli ok Auðr búin at láta upp tjöldin. Geirmundr berr upp erindit ok sagði allt sem farit hafði. „Hvort viltu, Auðr, ljá tjöldin?" sagðe Gísli. „Ekki spyrr þú þessa af því, at þú vitir ekki, at ek vilda, at þeim væri hvorke þetta gott gjört, nè annat, þat er þeim væri til sæmdarauka." „Hvort vilde Þorkell bróðir minn?" sagðe Gísli. „Vel þótte honum, at ek færa eptir." „Þat skal ærit eitt til"

1) *Falles i Sa.*

sagðe Gísli, ok fylgir honum á leið ok færr honum gripina. Gísli geingr með honum, ok allt at garðe, ok mælti: „Nú er þann veg, at ek þikjumst góða hafa gjört ferð þína, ok vilda ek, at þú værir mèr nú leiðetamr um þat sem mik varðar, ok sèr æ gjöf til gjalda, ok vilda ek, at þú lètir lokur frá hurðum þrimr í kveld; ok mættir þú muna, hversu þú vart beiddr til fararinnar." [1] Geirmundr svarar: „Mun Þorkeli bróður þínum við eingu hætt?" „Við alls eingu" sagði Gísli. „Þá mun þetta áleiðiss snúast" sagðe Geirmundr. Ok nú, er hann kemr heim, kastar hann niðr gripunum. Þá mælti Þorkell: „Ólíkr er Gísli öðrum mönnum í þolinmæðe, ok hefir hann betr enn vær." „Þessa þurfum vær nú" segir Þorgrímr; ok láta upp refilinn. Síðan koma boðsmenn um kveldit. Og þykknar veðrit; gjörir þá logndrífu um kveldit ok hylur stigu alla.

[2] Börkr ok Eyjólfr koma um kveldit með sex tigu manna, ok var þar hundrað manna, enn hálft at Gísla. Tóku menn til drykkju um kveldit, ok fara menn í rekkjur eptir þat ok sofa. Gísli mælti við Auðe konu sína: „Ek hefe ekke gefit heste Þorkels hins auðga, ok gakk þú með mèr ok lát loku fyrir hurð ok vake, á meðan ek geing í burt, ok lát frá loku, er ek kem aptr." Hann tekr spjótit Grásíðu úr örkinni, ok er í kápu blárre ok í skyrtu ok í línbrókum, ok geingr hann síðan til lækjar þess, er fellr á milli bæjanna, ok tekit var neytingarvatn af hvorumtveggja bænum. Hann geingr götu til lækjarins, enn veðr síðan lækinn til götu þeirrar, er lá til hins bæjarins. Gísla var kunnig húsaskipan á Sæbóle; því at hann hafðe gjört þar bæinn; þar var innangeingt í fjós. Þangat geingr hann; þar stóðu

---

1) *Sa tilföier* ȝ — *sandsynligvis en blot Skrivfeil, med mindre der skulde staae* ȝ dag (*d. e.* í dag).

2) *Sa tilföier som Overskrift:* „G. drap þorgrim".

þrír tigir kúa hvorum megin; hann knýtir saman halana í nautunum ok lýkr aptr fjósinu ok býrr svo um, at ekki má upp lúka, þó at innan sè til komit. Síðan ferr hann til mannhúsanna, ok hafðe Geirmundr geymt hlut verka sinna; því at loka var eingi fyrir hurðum. Geingr hann nú inn ok lýkr aptr hurðunni, sem um aptaninn hafðe verit um búit. Nú ferr hann at öllu tómliga. Eptir þat stendr hann ok hlýðist um, hvort nökkurir vekte, ok verðr hann þess varr, at aller menn sofa. Þrjú voru log í skálanum. Síðan tekr hann sefit af gólfinu ok vefr saman, kastar síðan í ljósit eitt, ok slokknar þat. Eptir þat stendr hann ok hyggr at, hvort nökkurr vaknar við, ok finnr hann þat ekke. Þá tekr hann aðra sefvisk, ok kastar í þat ljós, er þar var næst, ok slökkvir þat. Þá verðr hann þess varr, at ekki munu allęr sofa; því at hann sèrr, at ungs manns hönd kemr á et þriðja ljósit ok kippir ofan kolunni ok kæfir ljósit. Nú geingr hann innar eptir húsinu, ok at lokhvílunni, þar er þau Þorgrímr hvíldu, ok systir hans, ok var hnigin hurð á gátt, ok eru þau bæði í rekkju. Geingr hann þangat og þreifast fyrir ok tekr á brjóste henne, ok hvílde hún nærr stokke. Síðan mælti hón Þórdís: „Því er svo köld hönd þín, Þorgrímr?" ok vekr hann. Þorgrímr mælti: „Viltu at ek snúest at þèr?" Hón hugði at hann legði höndina yfir hana. Gísli bíðr þá enn um stund ok vermer höndina í serk sèr; enn þau sofna bæðe; nú tekr hann á Þorgrími kyrrt, svo at hann vaknaðe. Hann hugðe, at hún Þórdís vekte hann, ok snèrist þá at henne. Gísli tekr þá klæðin af þeim annarri hende, enn með annarre leggr hann í gegnum Þorgrím með Grásíðu, svo at í beðinum nam stað. Nú kallar hón Þórdís ok mælti: „Vake menn í skálanum! Þorgrímr er veginn, bóndi minn." Gísli snýrr í burt skyndiliga til fjóssins, geingr þar út sem hann hafðe

ætlat, ok lýkr aptr eptir sèr rammliga; snýrr heim síðan hina sömu leið, ok má hvergi sjá spor hans. Auðr lætr lok frá hurðu, er hann kom heim, ok ferr hann í sæng sína, ok lætr sem ekke sè í orðit, eðr hann eigi um ekke at vera. Enn menn aller voro ölærir á Sæbóli ok vissu ekki hvat af skylde ráða; kom þetta á þá óvara, ok urðu því ekki tekin þau ráð sem dygði eðr þörf var á.

[1] Eyólfr mælti: „Hèr eru orðin mikil tíðindi ok ill, ok er fólk þetta vitlaust, er hèr er. Nú sýnist mèr þat ráð, at kveikja ljós, ok hlaupa til dyranna, svo at vegandinn megi ei út komast." Ok svo var gjört. Þikkir mönnum, er ei verðr við vegandann vart, sem sá muni þar nökkurr inni vera, er verkit hefir unnet. Líðr nú til þess, er dagr kemr; er þá tekit lík Þorgríms ok burtu kippt spjótinu ok til graptar búit, ok er þar at sex tigir manna; fara nú á Hól til Gísla. Þórðr hinn huglause var úte; ok er sèrr liðit, hleypr hann inn, ok segir, ath herr manns ferr at bænum, ok var hann allmjök flaumósc. „Þat er vel þá", segir Gísli, ok kvað vísu:

114 Fellur eigi ek fullum
(fólkrunn hjarar!) munni
(róðit hefi eg margra manna
morð) við hverju orðe.
Látum vær, þótt voga
viggrunnr hniginn liggi,
(kominn er þyss í þessa
þjóð) um oss sem hljóðast.

Nú koma þeir á bæinn, Þorkell ok Eyólfr; ganga at lokrekkju þeirre, sem Gísli hvíldi í ok kona hans; enn Þorkell, bróðir Gísla, geingr upp fyrir í hvílugólfit, ok sèr, hvar at

1) *Sa tilføier som Overskrift:* capitulum.

skórr Gísla liggja, frosnir ok snæugir aller; hann skaraðe þá upp undir fótborðit, ok svo, at ekki skylde sjá þá aðrir menn. Nú fagnar Gísli þeim, ok spyrr tiðinda. Þorkell kvað bæði mikil ok ill, ok spyrr, hverju gegna mundi, eðr hvað þá skal til ráða taka. „Skammt er þá mille illra verka ok stórra" segir Gísli; „viljum vær til þess bjóðast at heygja Þorgrím, ok eigu þèr þat at oss, ok er þat skylt, at vær gjörum þat með sæmd." Þetta þiggja þeir, ok fara aller saman á Sæból, til haugsgjörðar, og leggja Þorgrím í skip. Nú verpa þeir hauginn eptir fornum sið; ok er búit er at lykja hauginn, þá geingr Gísli til óssins, ok tekr upp stein einn, svo mikinn sem bjarg væri, ok leggr í skipit, svo at nær þótte hvert trè hrökkva fyrir, enn brakaðe mjök í skipinu, og mælti: „Eigi kann ek skip at festa, ef þetta tekr veðr upp." Þat var nökkurra manna mál, at ekki þótte allólíkt fara því er Þorgrímr hafðe gjört við Væstein, er hann rædde um helskóna. Nú búast þeir heim frá hauginum. Þá mælti Gísli við Þorkel bróður sinn: „Þat þikkjumst ek at þèr eiga, bróðir, at nú sè okkart vinfeingi sem þá er bezt hefir verit; ok tökum nú upp leika." Þorkell tekr því vel. Ok fara nú heim hvorirtveggju. Gísli hefir nú ekki allmannfátt, ok er nú slitit boðinu, ok gefr Gísli góðar gjafir sínum boðsmönnum.

[1] Nú er erfi drukkit eptir Þorgrím, ok gefr Börkr góðar vingjafir mörgum mönnum. Þat er næst til tíðinda, at Börkr kaupir at Þorgrími nef, at hann seidde seið, at þeim manni yrðe ekke at björg, er Þorgrím hefðe vegit, þó at menn vilde duga honum. Oxe níu vetra gamall var honum gefinn til þess. Nú flytr Þorgrímr fram seiðinn, ok veitir sèr umbúð eptir venju sinne, ok gjörir sèr hjall, ok fremr hann þetta fjölkynngiliga með allri ergi ok skelmiskap.

1) *Sa tilföier som Overskrift:* capitulū.

Varð ok sá hlutr einn, er nýnæmum þótte gegna, at aldri feste snjó utan ok sunnan á haugi Þorgríms, ok ekki fraus; ok gátu ménn þess til, at hann munde Frey svo ávarðr fyrir blótin, [at hann munde[1] ekki vilja, at frère á mille þeirra. Því fór fram um vetrinn, ok eiga þeir bræðr leika saman. Börkr geingr þar í bú með Þórdíse, ok færr hennar. Hón fór ekki ein saman, þá er þetta var, ok fæðir hún svein, ok er hann vatne ausinn, ok er fyst nefndr Þorgrímr, eptir föður sínum; ok er hann vex upp, þótte þeim hann þungr í skaplynde ok óeirinn, ok var snúit nafninu, ok kallaðr Snorre goðe. Börkr bjó þar þau missere, ok eiga þeir leika saman. Kona er nefnd Auðbjörg, er bjó í ofanverðum dalnum, á[2] Annmarkastöðum. Hún var systir Þorgríms nefs. Hón hafðe átt sèr bónda, er Þorkell hèt, ok var kallaðr annmarke. Sonr hennar hèt Þorsteinn; hann var einnhverr sterkastr at leikunum, annarr enn Gísli. Þeir eru jafnan sèr í leik Gísli ok Þorsteinn, enn þeir til móts Börkr ok Þorkell. Einnhvern dag kom þar fjölde manna at sjá leikinn; því at mörgum var mikil forvitni á ath sjá leikinn, ok vita, hverr sterkastr væri, eðr leikmaðr beztr. Enn þar var sem víða annarsstaðar, at mönnum er þess meira kapp á, er fleire koma til leikanna. Þess er getit, at Börkr hefðe ekke við Þorsteini um daginn; ok at lyktum reiddist Börkr ok braut í sundr knatttrè Þorsteins; enn Þorsteinn fellde hann, ok rak við svellinu niðr. Enn er Gísli sèr þat, þá mælti hann, at hann skylde leika, sem hann hefðe mátt til, við Börk, „Ok mun ek skipta trjám við þik." Svo gjöra þeir. Gísli sezt niðr ok gjörir at trènu, horfir á hauginn Þorgríms; snjórr var á jörðu; enn

1) „at hann mde. at hann mde" *fra* [ *Sa.*
2) *Fattes i Sa, og er tilföiet i Overeensstemmelse med P.*

konur sátu upp í brekkuna, Þórdís systir hans ok margar aðrar; Gísli kvað þá vísu, er æfa skylde:

117 Teina sá ek í túni
tálgríms vinar fálu,
gauts þess, er geig um veittag,
gunnbliks, þámiklu.
Nú hefir gunnstærir (geira
grímu þrótt) um sóttann
(þann lèt lundr um lendan)
landskost-ár (branda).

Þórdís nam þegar vísuna, geingr heim ok hefir ráðit vísuna. Þeir skilja nú leikinn; ferr Þorsteinn heim. Maðr hèt Þorgeir, ok [var kallaðr[1] orre; hann bjó á Orrastöðum. Bergr hèt maðr, ok var kallaðr skammfótr; hann bjó á Skammfótarmýre, fyrir vestan ána. Ok nú er menn fara heim, ræða þeir um leikinn, Þorsteinn ok Bergr, ok deila at lyktum; er Bergr með Berke, enn Þorsteinn mælir í móte; ok lýstr Bergr Þorstein öxarhamarshögg; enn Þorgeirr stendr á milli, ok færr Þorsteinn ekki hefnt sín — ferr heim til móður sinnar, Auðbjargar; bindr hón um sár hans, ok lætr ekki vel yfir hans ferð. Kerling færr ekke sofnað um nóttina; svo var henne bimbult. Veðr var kalt úte, ok logn ok heiðríkt. Hón geingr nökkurum sinnum andsælis um húsin, ok viðrar í allar ættir, ok setr upp nasernar. Enn við þessa hennar meðferð, þá tók veðrit at skipast, ok gjörir á fjúk mikit, ok eptir þat þey, ok brestr flóð í hlíðinni ok hleypr snæskriða á bæ Bergs, ok fá þar tólf menn bana, ok sèr enn merki jarðfallsins í dag.

[2] Nú ferr Þorsteinn á fund Gísla, ok skýtr hann skjóle

1) *Fra* [ *faltes i Sa; men er tilföiet i Overeensstemmelse med P.*
2) *Sa tilföier som Overskrift:* capitulū.

yfir hann, ok ferr hann suðr í Borgarfjörð ok þar utan. Enn er Börkr frètte þesse fákynstr, þá ferr hann upp á Annmarkastaðe ok lætr taka Auðbjörgu ok ferr með hana út á Saltnes ok berr hana grjóte í hel. Ok er þetta er liðit, fęrr Gísli heiman ok kemr á Nefstaðe ok tekr Þorgrím nef höndum ok færir á Saltnes, ok er dreginn belgr á höfuð honum ok er barðr grjóte til bana ok er kasaðr hjá systur sinni, á hryggnum mille Haukadals ok Meðaldals. Er nú kyrrt ok líðr á vorit. Ferr Börkr suðr á Þórsnes ok ætlar at ráðast þangat ok þikkist einga virðingarför farit hafa vestr þangat — látit þvílíkann mann, sem Þorgrímr var, enn feingit einga leiðrèttu. Hann býrr nú ferð sína ok skipar til bús síns ok at setja ráð sitt, enn ætlaðe at gjöra aðra för eptir fè sínu ok konu. Þorkell ætlaðe ok þangat at ráðast, Súrson, ok bjóst í för með Berki mági sínum. Frá því er sagt, at Þórdís Súrsdóttir hefir leiddan Börk á götu, kona hans, enn systir Gísla. Þá mælti Börkr: „Nú vil ek, at þú segir mèr, því þú vart svo óglöð fyst á hauste, þá er vær slitum leiknum, ok þú hefir því heitit, at segja mèr, áðr enn ek færa heiman." Þau eru nú ok komin at hauginum Þorgríms, er þau ræða þetta. Þá stingr hón við fótum ok kvezt ekki fara leingra; segir hón nú ok, hvath Gísli hafðe kveðit, þá er hann leit hauginn Þorgríms ok kveðr fyrir honum vísuna, „Ok ætla ek" segir hón, „at þú [1] þurfir ekki annann veg eptir at leita um víg Þorgríms, ok munu rètt búin málin honum á hendr." Börkr verðr við þetta ákafliga reiðr ok mælti: „Nú vil ek þegar aptr snúa ok drepa Gísla; enn þó veit ek ekki" sagðe hann, „hvað satt er í þessu, er Þórdís segir, ok þiki mèr hitt ekki ólíkara, at eingu gegni, ok eru opt köld kvenna ráð." Ok ríða þeir sína leið — svo getr Þorkell um talith —

1) Fattes i Sa.

þar til er þeir koma at Sandaós, þá stíga þeir af bake, ok æja. Börkr var fámálugr, enn Þorkell sagðe, ath hann vilde hitta Önund vin sinn. Hann ríðr þegar svo hart, at brátt felur sýn. Hann snýrr þá leið sinni út á Hól, ok segir nú Gísla, hvat títt er, at Þórdís hefir nú upp rofit málit ok rannsakat vísuna; „máttu nú ok svo við búast, at upp er komit málit." Gísli þagnar ok kvað vísu:

120 Gat-ath sólfastrar systir,
sveigar, mín at eiga,
gætin, Gjúka dóttur
Guðrúnar hugtúni:
þá er logsága lægis
lèt sinn, af hug stinnum,
(svo rak hón snjallra bræðra)
sannfreyjan ver deyja.

„Ok þóttumst ek ekki þess verðr frá henne; því at ek þikkjumst þat lýst hafa nökkurum sinnum, at mèr hefir ekki [1] hennar óvirðing betri þótt, enn sjálfs míns; hefir ek stundum lagt líf mitt í háska fyrir hennar sakir, enn hón hefir nú gefit mèr dauðaráð. Enn þat vil ek nu vita, bróðir, hvath ek skal þar eiga, sem þú ert, slíkt sem nú hefe ek at gjört." „At gjöra þik varann við, ef menn vilja drepa þik; enn bjargir veite ek þèr eingar, þær er mèr megi sakir á gefa. Þike mèr mikit af gjört við mik, at drepinn er Þorgrímr mágr minn ok fèlagi ok virktavinr." Gísli svarar: „Var ekki þess von um slíkan mann, sem Vèsteinn var, at ekki munde mannhefndalaust vera, ok munda ek ekki þèr svo svara, sem þú svarar mèr nú, ok ekki heldr gjöra." Nú skilja þeir. Ferr Þorkell til móts við Börk, ok fara þeir suðr til Þórsnesþings, ok skipar Börkr til búss síns;

1) „uerit" tilföier Sa.

enn Þorkell kaupir land á Barðaströnd, þat er í Hvammi hèt. Nú kemr at stefnudögum, ok ferr Börkr vestr með fjóra tigu manna ok ætlar at stefna Gísla til Þórsnesþings, ok er Þorkell Súrrson þar í för, ok systursynir Barkar, Þóroddr ok saka-Steinn; þar var ok í för austmaðr einn, er Þorgrímr hèt. Þeir ríða nú til Sandaóss. Þá mælti Þorkell: „Ek á skuld at heimta hèr á einum bæ litlum", ok nefnde bæinn, „ok vil ek þangat ríða ok heimta skuldina; enn þèr ríðit eptir tómliga." Nú ríðr Þorkell fyrir; ok er hann kom þar sem hann hafðe á kveðit, [þá biðr[1] hann húsfreyju, at hón skipte hestum við sik, ok láte þenna sama standa fyrir dyrum, „Ok kasta vaðmáli yfir söðulinn; ok er förunautar mínir koma eptir, þá seg þú, at ek sitja inni í stofu ok telja ek silfr." Nú fœrr hón honum hest annann, ok ríðr hann nú skyndiliga, ok kemr í skóga, ok hittir Gísla, ok segir honum, um hvath vera er, at Börkr er vestan kominn.

[2] Nú er þar til máls at taka, at Börkr býrr mál til Þórnessþings á hendr Gísla um víg Þorgríms. Á þeirre stundu selr Gísli land sitt Þorkeli Eirekssyni, ok tók við lausafè; þat var honum mjök innan handar. Hann spyrr Þorkel bróður sinn ráða, eðr hvat hann legðe til með honum, eðr hvort hann vill nökkura ásjá veita honum. Hann svarar sem fyrr, at hann kvezt mundu gjöra honum njósn, ef honum væri atfarer veittar, enn kvezt mundu firra sik sakagiptum. Þorkell ríðr nú á burt, ok víkr svo reið sinni, at hann kemst á bak þeim Berki, ok seinkar nú ferðina þeirra heldr. Gísli tekr nú [eyki tvo[3], ok ekr til skógar, með fjárhlut sinn, ok með honum þræll hans, Þórðr hinn[4]

1) þai bíð². þai bið² *fra* [ *Sa.*
2) *Sa tilföier som Overskrift:* „capitulum".
3) *Fra* [ *rettet for* eykín (*sikkert opstaaet af* eyki u); *jf. S.* 37⁶—⁷,¹³ *og P.*
4) ħín ħín *Sa.*

huglausi. Þá mælti Gísli: „Opt hefir þú mèr hlýðinn verit, ok minn vilja gjörfan, ok á ek þèr góðu at launa." Þat var vande Gísla, at hann var í kápu blárre, ok vel búinn; hann varpar þá af sèr kápunni, ok mælti: „Kápu þessa vil ek gefa þèr, vinr, ok vil ek, at þú njótir nú þegar, ok farir í kápuna, ok sitt síðan í sleðanum, þeim sem síðar ferr; enn ek mun leiða eykina, ok vera í kufli þínum." Þeir gjöra nú svo. Þá mælti Gísli: „Ef svo berr til, at nökkurer menn kalla á þik, þá skaltu þess mest gæta, at svara aldreigi; enn ef nökkurer menn vilja þèr mein gjöra, þá haltu til skógarins." Enn þat var mjök jafnfært um vit ok hugrekke; því at hvorke var neitt til. Gísli leiðir nú eykina. Þórðr var mikill maðr vexte, ok bar hann hátt í sleðanum; hrósaðe hann sèr ok heldr, ok þóttist vegliga búinn. Nú sjá þeir Börkr för þeirra, er þeir fara til skógarins, ok hleypa eptir hvatliga. Enn er Þórðr sèr þat, þá hleypr hann úr sleðanum, sem hann má harðast, ok til skógarins. Þeir hyggja Gísla þar fara, ok halda eptir sem ákafast, ok kalla á hann sem þeir geta. Enn hann þeigir við, ok hleypr sem hann má. Þorgrímr austmaðr skýtr eptir honum spjóte, ok kemr mille herða honum, svo hart, at hann fellur við áfram, ok var þat hans banasár. Þá mælti Börkr: „Skjóttu allra manna heilastr"! Þeir bræðr ræddu sín á milli, at þeir mundu fara eptir þrælnum, ok vita, ef nökkur hugr er í honum; þeir snúa nú til skógarins. Nú er frá því at seigja, at þeir Börkr koma at blákápumanninum, ok draga af honum kápuhöttinn, ok þikir nú minna happ í, enn þeir ætluðu; því at þeir kenndu þar Þórð hinn huglausa, er þeir ætluðu Gísla. Þat er nú sagt, at þeir bræðr koma at skógnum, enn Gísli er kominn í skóginn, ok sèr hann þá, ok svo þeir hann. Þá skýtr annar þeirra spjóte til hans; enn Gísli tók þat á lopte, ok skaut aptr,

ok kemr á Þórodd miðjann, ok fló í gegnum hann. Nú snýrr Steinn í móte fèlögum sínum, ok seigir heldr ógreiðfært um skóginn. Börkr vill þó þangat at leita, ok svo gjöra þeir. Ok er þeir koma at skóginum, þá sèr Þorgrímr austmaðr, hvar limit hrærist í einum stað, ok skýtr spjóte á gagngjört, ok kemr í kálfann á Gísla. Hann sendir aptr spjótit, ok rekr gegnum Þorgrím, ok lætr hann líf sitt. Nú leita þeir um skóginn, ok finna Gísla ekki, ok hverfa aptr við svo búit til bæjarins, ok búa nú mál til á hendr Gísla um víg Þorgríms. Eingan hlut taka þeir þaðan í fjárhlutum, ok fara síðan heim. Gísli ferr nú á fjallit, at húsbake, ok bindr sár sitt, meðan þeir Börkr voro á bænum. Ok er þeir voro á burtu, fór Gísli heim, ok býrr þegar ferð sína, ok færr sèr skip, ok flytr þangat á mikinn fjárhlut, ok ferr Auðr kona hans með honum, ok Guðríðr fóstra hans, ok út til Húsaness, ok koma þar við land. Gísli geingr þar upp til bæjarins, ok hittir þar mann, ok spyrr sá, hverr hann væri; enn Gísli sagðe til slíkt er honum sýndist, enn ekke þat sem var. Gísli tekr upp stein einn, ok kastar út í hólm þann er þar var fyrir lande, ok bað þar bóndason eptir gjöra, þá er hann kæmi heim, ok kvað hann þá vita mundu, hverr maðrenn þar hefðe komit. Enn þat var einskis manns at inna, ok kom þar þá enn þat fram, ath Gísli var betr at íþróttum búinn, enn flestir menn aðrir. Eptir þat geingr hann á bátinn, ok rær út yfir nesit, ok[1] yfir Arnarfjörð, ok yfir fjörð[2] þann, er geingr inn af Arnarfirðe, er heitir Geirþjófsfjörðr, ok býst hann þar um, og gjörir þar alhýse, ok er þar[2] um vetrinn.

[3]Þat er nú þessu næst, at Gísli gjörer orð mágum

1) „yfir nesit ok" *tilföier Sa.*

2) *Fattes i Sa.*

3) *Den i Sa tilföiede, meget utydelige, Overskrift synes at være:* Gisli gioi feku̥x

sínum, Helga ok Sigurðe ok Vestgeiri, at þeir fare til þings, ok bjóðe sætt fyrir hann, at hann yrðe ekki sekr. Ok fara þeir til þings, Bjartmárssynir, ok koma eingu áleiðiss um sættina, ok kalla menn, at þeir hafe illa borit sik, svo at þeim hafe næsta í allt skap komit, áðr enn lètte. Þeir segja Þorkeli auðga, hvat títt er, ok kvoðust ekki þora at segja Gísla sekt sína. Urðu þar eingi önnur tíðindi á þinginu, enn Gísli verðr sekr. Þorkell auðgi ferr þá til fundar við Gísla, ok sagðe honum sekt sína. Þá kvað Gísli vísu þessa:

/24, / Mundu-t þau
á Þórsnese
málalok
á minni sök,
ef Vèsteins
væri hjarta
Bjartmárs sonum
í brjóst lagit.

2 Þá glúpnuðu,
er gleðjast skyldu,
móðurbræðr
minnar kvonar,
sem eyðendr
eggi væri
fjarðar dags
fúlu losnir.

3 Luku (þunglig) á þingi
(þau eru orð komin norðan),
saldeilande sólar,
sómlaust á mik dómi.

125 Á ek (bláserkjar) Berke
[báru] (hreims) ok Steine
[veitter dags ens vegna!]
(valdr!) hermila at gjalda.

Nú spyrr Gísli, hvers hann skal von eiga hjá þeim. Þeir segjast[1], nafnar báðir, muna skjóta skjóle yfir hann, með þeim hætte, at þeir lète ekki fè sitt fyrir þá sök. Ferr Þorkell heim eptir þetta. Svo er sagt, at Gísli var þrjá vetr í Geirþjófsfirðe, enn stundum með Þorkeli Eirekssyni; enn aðra þrjá vetr ferr hann um allt Ísland, ok hittir höfðingja, ok biðr sèr liðs; enn sakir þess tröllskapar, er Þorgrímr nef hafðe haft í seiðinum, ok atkvæða, þá verðr þess ekki auðit, at höfðingjar tæke við honum, ok þó at stundum þætte þeim ekki svo ólíkliga horfa, þá bar þó allsstaðar nökkut við. Hann var þó löngum með Þorkeli Eirekssyni, ok hefir hann nú sex vetr verit í sektinni. Eptir þetta er hann stundum í Geirþjófsfirðe á bæ Auðar, enn stundum í fylsnum, fyrir sunnan ána, er hann hafðe gjört sèr; annat fylsni átte hann við kleifarnar, suðr frá garðe, ok var hann ýmist.

[2]Nú er Börkr spyr þetta, þá býrr hann heiman för sína, ok hittir Eyjólf hinn grá, er þá bjó í Arnarfirðe, í Ottradal, ok beiðir, at hann leite eptir Gísla ok drepe hann í sektinni, ok kvezt mundu gefa honum til þrjú hundruð silfrs, þess at allgott sè, at hann leggi á alla stund at leita eptir honum. Hann tekr við fènu, ok heitr sinni umsýslu. Sá maðr var með Eyólfe, er Helgi hèt, ok var kallaðr njósnar-Helgi, hann var bæðe frárr ok skygn, ok var honum um alla Fjörðu kunnigt. Hann er sendr í Geirþjófsfjörð,

1) *Gisning for segja.*
2) *Sa tilföier som Overskrift: „capitulum".*

at vita, hvort Gísli væri þar. Hann verðr var við manninn, ok veit ekki, hvort Gísli er, eðr annar maðr. Hann ferr heim, ok segir Eyólfe til svo búins. Hann kvezt víst vita, at þat mun Gísli verit hafa, ok bregðr við skjótt, ok ferr heiman við sjaunda mann í Geirþjófsfjörð, og verðr ekke var við Gísla, ok ferr við svo búit aptr heim. Gísli var vitr maðr ok draumamaðr mikill ok berdreymr. Þat kemr saman með öllum vitrum mönnum, at Gísli hafe leingst allra manna í sekt geingit, annar enn Grettir Ásmundarson. Frá því er sagt, eitt haust, at Gísli lèt illa í svefne, nótt eina, þá er hann var á bæ Auðar; ok er hann vaknar, spurðe hón, hvath hann dreymde. Hann svarar: „Ek á draumkonur tvær" sagðe hann, „ok er önnur vel við mik, enn önnr segir mèr þat nökkut jafnan, er mèr þikkir verr enn áðr, ok spár mèr illt eina. Enn þat dreymde mik nú, at ek þóttumst ganga at húse einu, eðr skála; ok inn þóttumst ek ganga í húsit, ok þar kennda ek marga inni, frændr mína ok vine; þeir sátu við elda ok drukku, ok voro sjau eldarnir — sumir voro mjök brunner, enn sumir sem bjartastir. Þá kom inn draumkona mín hin betri, ok sagðe, at þat merkte aldr minn, hvat ek ætta eptir ólifat; ok hón rèð mèr þat, meðan ek lifða, at láta leiðast[1] forna sið ok nema einga galdra nè forneskju ok vera vel við daufan ok haltan ok fátæka ok fáráða. Ekki var draumrinn leingri". Þá kvað Gísli vísur nökkurar:

126 (Fold) kom ek inn þar er eldar
(unnfurs!) í sal brunnu
[at vorum þar aura]
einn ok sex [at meini].
Sá ek blíðliga báðar
bekksagnir mèr fagna

1) *Saaledes (uden Kjendeordet) Sa.*

(hróðrdeiler bað heilan
hvern mann) í því ranni.
12/1 Hyggit at, kvað Agða
annspilli vör banda,
(mildr) hvè margis eldar
(málmrunnr!) í sal brunni.
Svo áttu, kvað bil blægju,
(bjargs) ólifat margann.
(veðr- Skjöldunga- valde!)
vetr [nú er skammt til betra].
2 Gersk-at-tu næmr, kvað nauma,
(niðleiks ara steikar
árr!) [nema allt gott heyrir
iðla] galdrs [at skaldum].
Fátt kveða fleina brautar
fur-þverranda verra
(randar leggs ins reynda
runnr!), enn illt at kunna.
3 Vald eigi þú vígi
(vertu ótyrrinn) fyrre
(móts við meite-njörðu)
[mèr heitit því] (sleitu).
Baugskyndir! hjálp þú blindum.
(Baldr) hygg þú at því (skjaldar!)
illt kveð-a háð at höltum;
handlausum tý grand-a.

[1] Nú er frá því at segja, at Börkr þrýstir at Eyólfe fast, ok þikkir ekki svo fylgt sem hann vilde, ok þikkir ekki mikit koma fyrir fèit, þat er hann fekk honum í hendr, ok kvezt þess víss vera orðinn, at Gísli væri í Geirþjófs-

1) Sa tilföier som Overskrift: „Þorgerð[2] tók á gesta".

firðe, ok sendir Börkr mann[1] at leita eptir Gísla, elligar hann kvezt sjálfr mundu fara. Eyólfr vaknar við skjótt, ok sendir enn njósnar-Helga til Geirþjófsfjarðar, ok hefir hann nú vistir með sèr, ok er á burt viku, ok sitr nú um, at hann yrðe var við Gísla; sèr nú einn dag, at hann gengr frá leynum sínum, ok kennir Gísla; lætr hann nú verða við brugðit, ok ferr á burt, ok segir Eyólfr, hvers hann er víss orðinn. Eyólfr býrr nú ferð sína heiman með níunda mann, ok ferr til Geirþjófsfjarðar, ok hittir á bæ Auðar; þeir finna ekki Gísla þar, ok fara nú um alla skóga, at leita Gísla, ok finna hann ekki; koma aptr til bæjar Auðar, ok býðr Eyólfr henne mikit fè til at segja til Gísla; enn þat ferr fjarre, at hón vilè þat; þá heitast þeir at meiða hana at nökkuru, ok tjár þat alls ekki; ok verðr við þat heim at fara. Þikkir þesse för hin hæðiligasta, ok er Eyólfr heima um haustit. Enn þó at Gísli yrðe þá ekki fundinn, þá skilur hann þó, at hann muni tekinn verða, er skammt er á mille. Gísli ræzt nú heiman, ok inn til Strandar, ok ríðr á fund Þorkels bróður síns, í Hvamm; hann drepr þar á dyrr á svefnhúse því, er Þorkell liggr í, ok geingr hann út, ok heilsar Gísla. „Nú vil ek vita" sagðe Gísli, „ef þú vilt mèr nökkurn fullting veita; vænte ek nú af þèr góðrar liðveizlu; er nú mjök þröngt at mèr; hefir eg ok leingi til þessa sparazt". Þorkell svarar hinu sama, ok kvezt önga björg munu veita honum, þá er honum megi sakir á gefa; enn kvezt mundu fá honum silfr eðr fararskjóta, ef hann þyrfte, eðr aðra hluti þá sem fyrr var sagt. „Sè eg nú" sagðe Gísli, at þú vilt mèr ekke lið veita. Fá mèr nú þrjú hundruð vaðmála, ok huggast svo, at ek mun sjaldan

1) *Skjöndt Ordene ere klare, saa synes dog Meningen her at være forvansket og at burde udtrykkes enten ved* biðr Eyólf senda mann *eller* biðr Eyólf fara, *i Stedet for* sendir Börkr mann.

krefja þik hèðan frá liðs". Þorkell gjörir svo, færr honum vöru ok silfr nökkut. Gísli kvezt þat nú ok þiggja mundu; enn sagðist ekki þó svo lítiliga við hann gjöra mundu, ef hann stæðe í hans rúmi. Gísla þiker fyrir, er þeir skiljast. Hann ferr nú út í Vaðil, til móður Gests Olleifssonar, ok kemr þar fyrir dag, ok drepr á dyrr. Geingr húsfreyja til dyra. Hón var opt võn at taka við skógarmönnum, ok átte hón jarðhús; var annar jarðhússendir við ána, enn annar við eldahúsith hennar; ok sèr enn þess merke. Þorgerðr fagnar vel Gísla, „Ok mun ek þat til láta við þik, at þú[1] dvelìst hèr um hríð; enn ek má ekki vita, hvort þat verðr nökkuth annat, enn kvennvælar einar". Gísli kvezt nú þat þiggja mundu; enn segir nú ekki verða körlunum svo vel, at örvænt sè, at konunum verðe betr. Gísli er þar um vetrinn, ok hefir hvergi verit jafnvel gjört við hann í sektinni sem þar.

[2]Þegar er vorar, ferr Gísli aptr í Geirþjófsfjörð, ok má þá ekki leingr vera í burt frá Auðe konu sinne; svo unnast þau mikit; er nú þar um sumarit á laun, ok til þess er haustar; ok kemr nú á þref um draumana, þegar er leingir nóttina, ok kemr nú hin verre draumkonan at honum, ok gjörast nú svefnfarer harðar, ok seigir nú eitt sinn Auðe, hvat hann dreymde, er hón spurðe eptir, ok kvað þá vísu:

/30,1 (Villa oss, ef elle
oddstríðir skal bíða,)
mèr gengr sjöfn í svefna
sauma (mínir draumar);
(stendr) eigi (þat þeygi)
(þornreið!) bragar geire

1) *Fattes i Sa.*
2) *Den i Sa tilföiede Overskrift:* .G. kõ ᵗ ingiallz *er lidt utydelig.*

ölnannan selr annars
efne (mèr fyrir svefne).

Ok nú segir Gísli, ath konan sú hin verre kemr opt at honum, ok vill jafnan ríða hann blóðe ok roðru, ok þvo honum í, ok lætr sèr illiga. Þá kvað hann enn vísu:

130, 2 Eigi verðr enn (orða,
oss lèr um þat skorða)
[gefn drepr fyrir mèr glaumi]
gott úr hverjum draumi.
Kemr, þegar ek vil blunda,
kona, við mik til funda,
(oss þværr hón unda flóðe)
öll í manna blóðe.

Ok enn kvað hann:

130, 3 Sagt hefe ek frá orum
oddflaums viðum draumi
(eir) [varð-ath mèr], (aura!)
[orðfátt], er ek mun láta.
Verr, hafa vopna snerru
vekendr þá, er mik sektu, —
brynju hatrs hins bitra
beiðendr —, ef ek nú reiðumst.

Ok eru nú kyrr tíðinde. Ferr Gísli nú til Þorgerðar, ok er með henne annann vetr. Enn um sumarit eptir ferr hann í Geirþjófsfjörð, ok er þar unzt haustar. Þá ferr hann enn til Þorkels bróður síns, ok drepr þar á dyrr; Þorkell vill ekke út ganga, ok tekr Gísli kefli[1], ok rístr á rúnar, ok kastar inn. Þat sèr Þorkell ok tekr upp ok lítr á ok stendr upp síðan, geingr ut, ok heilsar Gísla, ok spyr tíðinda. Hann kvezt ekke kunna at segja, „Ok em eg nú kominn hit síðasta sinn á yðvarn fund, frænde, ok lát nú verða at

[1]) *Falles i Sa, og er tilföiet i Overeensstemmelse med P.*

sköruligri liðveizlu; enn ek mun því launa, at ek mun aldri krefja þik optar". Þorkell svarar enn hinu sama ok fyrr — býðr honum hross eðr skip, enn skerst undan allri liðveizlu. Gísli þiggr skip, ok biðr Þorkel setja fram með sèr skipit. Hann gjörer svo — ok færr honum sex vættir matar ok hundrað vaðmála. Ok er Gísli er á skip kominn, stendr Þorkell á lande. Þá mælte Gísli: „Nú þikist þú öllum fótum í etu standa ok vera vinr margra höfðingja, ok ugger nú ekke at þèr; enn ek er sekr, ok hefe ek mikinn fjandskap margra manna; enn þat kann ek þèr at segja, at þú munt þó fyrr drepinn enn ek. Ok munum vit nú skilja, ok verr enn vera skylde, ok sjást aldri síðan; enn vita skaltu þat, at ekki munda ek svo við þik gjöra". „Ekke hirðe ek um spár þínar" sagðe Þorkell — ok skildust við svo búit. Ferr Gísli inn til Hergilseyjar á Breiðafjörð. Þá tekr hann úr skipinu þiljur ok þóptur, árar, ok allt þat sem laust var innbyrðiss, ok hvelfir skipinu ok lætr reka inn at Nesjum. Ok nú geta menn þess til, er sjá skipit, at Gísli mune drukknaðr vera, er skipit er brotith, ok rekit á land, ok mune tekit hafa frá Þorkeli bróður sínum. Nú geingr Gísli í Hergilsey til húss. Þar býr sá maðr, er Ingjaldr hèt; kona hans hèt Þorgerðr; Ingjaldr var systrungr Gísla at frændseme, ok hafðe með honum farit út hingat til Íslands. Ok er þeir hittast, býðr hann Gísla allann greiða, ok alla björg, þá er hann mátte honum veita; ok þat þiggr Gísli, ok er þar síðan um kyrrt nökkura stund.

[1] Með Ingjalde var þræll ok ambátt; þrællinn hèt Svartr, enn ambáttin hèt Bóthildr. Helgi hèt son Ingjalds, ok var afglapi, sem mestr mátte vera, ok fífl; honum var sú umbúð veitt, at raufarsteinn var bundinn við hálsinn, ok beit hann

---

1) *Sa tilföier som Overskrift: „G. ú j Hergilsey".*

gras úte, sem fènaðr, ok er kallaðr ingjaldsfífl; hann var mikill vexte, nær sem tröll. Gísli er þar þann vetr, ok smíðar skip Ingjaldi, ok marga hlute aðra. Enn allt þat, sem hann smíðaði, þá var þat auðkennt, því at hann var hagare enn flestir menn aðrir. Menn undruðust, því þat var svo vel smíðað margt, sem Ingjaldr átte; því at hann var ekke hagr. Gísli er ávallt á sumrum í Geirþjófsfirðe; ferr nú svo fram þrjá vetr, frá því er hann hafðe dreymt, ok verðr honum þetta at mestu trauste, er Ingjaldr veitir honum. Þikkir mönnum nú grunsamligt um þetta allt jafnsaman, ok hyggja nú, at Gísli muni lifa, ok hafa verit með Ingjaldi, enn ekki drukknaðr, sem sagt hafðe verit. Leggja menn nú ræðu á, at[1] Ingjaldr á nú þrjú skip, ok öll vel gjörr. Kemr þesse kvittr fyrir Eyólf hinn grá, ok hlýtr Helgi enn at fara, ok kemr hann í Hergilsey. Gísli er ávallt í jarðhúse, þá er menn koma í eyna. Enn Ingjaldr var góðr gestgjafe, ok býðr Helga gisting; þar var hann um nóttina. Ingjaldr var iðjumaðr mikill; hann rère á sjó hvern dag, er sjófært var; ok um morguninn, er hann var búinn til útróðrar, spyrr hann, hvort Helga er ekke ákaft um ferðina, eðr því hann liggr. Hann kvað sèr vera ekke einkar skjallt, ok blès við, ok strauk höfuðbeinin. Ingjaldr bað hann þá liggja sem kyrrastann, ok ferr hann til sjófar; enn Helgi tekr at stynja fast. Nú er sagt, at Þorgerðr geingr til jarðhússins, ok ætlar at gefa Gísla dögurð; enn þile er á millum búrsins ok þess, er Helgi lá í; Þorgerðr geingr í burt úr búrinu; klífr Helge upp á þilit, ok sèr, at þar var manne matr deildr; ok í því kemr Þorgerðr inn, ok vizt Helgi við fast, ok fellr ofan af þilinu. Þorgerðr spyrr[1], því hann lætr svo,

1) *Falles i Sa.*

at klífa í ræfr upp, ok vera ekki kyrr. Hann kvezt svo óðvirke vera af beinverkjum, at hann mátte ekki kyrr vera, „Ok vilda ek” segir hann, „at þú[1] fylgdir mèr til rekkju”. Hón gjörir svo. Síðan geingr hón[2] burt með matinn. Enn Helgi ríss upp þegar, ok geingr eptir, ok sèr nú, hvath títt er; geingr nú aptr, ok leggst niðr eptir þetta, ok er þar þann dag. Ingjaldr kemr heim um kveldit, ok ferr til rekkju Helga, ok spyrr, hvort honum lètte nökkut. Hann kvað áleiðis snúast, ok beiðir sèr farnings um morguninn úr eyinni; ok er hann fluttr suðr til Flateyjar, ok ferr síðan suðr til Þórsnes; segir nú, at hann er orðinn var við, at Gísli er með Ingjaldi. Síðan býst Börkur heiman, ok eru saman fimmtán, fara á skip, ok sigla sunnan yfir Breiðafjörð. Þenna dag er Ingjaldr róinn á vastir, ok Gísli með honum, enn þræll hans ok ambátt á öðru skipi, ok sátu hjá eyjum nökkurum, þeim er heita Skutileyjar.

[3]Nú sèr Ingjaldr, at skipit sigler sunnan, ok mælti: „Skip sigler þarna, ok hygg ek, at þar mune vera Börkr hinn digri”. „Hvat er þá til ráðs takanda?” sagði Gísli; „ek vil vita, hvort þú ert svo hygginn, sem þú ert[2] dreingrinn góðr”. „Skjótt er til ráða at taka” sagði Ingjaldr, „þó at eg sè eingi vitrleiksmaðr: róum sem ákafast at eyinni, ok göngum síðan upp á Vaðsteinaberg, ok verjumst, meðan vær megum upp standa”. „Nú fór sem mik varðe” sagðe Gísli, „at þú mundir hitta þat ráðit, at þú mættir dreingrinn af verða sem beztr[4]; enn verre laun sel ek þèr þá fyrir liðveizluna, enn ek hafða ætlat, ef þú skalt fyrir mínar sakir lífit láta. Nú skal þat vera aldri, ok skal annat ráð taka. Þú skalt róa at eyjunni, ok þrællinn, ok

---

1) *Fattes i Sa.*
2) *Fattes i Sa, og er tilföiet i Overeensstemmelse med P.*
3) *Sa tilföier som Overskrift:* „.G. roi ui þergilſ eſ”. 4) mest[2] bezt[2] *Sa.*

ganga upp á bergit, ok búist at verjast, ok munu þeir ætla mik annann manninn, er sigla sunnan fyrir nesit. Enn ek mun skipta klæðum við þrælinn, sem eitt sinn fyr, ok mun ek fara á bátinn, með Bóthildi". Ingjaldr gjörðe sem Gísli ráðlagði; fannst þat eitt á, at hann var hinn reiðaste. Ok[1] er þeir skilja, þá mælti Bóthildr: „Hvat er nú til ráðs?" Gísli kvað vísu:

134 Ráðs leitar nú rítar
ruðr [vekjum mar Suðra]
(skorð), er skiljast verðum
(skjaldsteins!) frá Ingjaldi.
Þó mun ek hlýrs at hváru
hafla (bláfeldar!) skafla
(snyrtigátt), nè ek sýtum,
(snauð) hvat mèr verðr auðit.

Nú róa þau suðr í móte þeim Berki, ok láta sem ekke væri til vandræða. Þá segir Gísli fyrir, hversu hátta skal: „Þú skalt segja" segir hann, „at hèr sè fíflith innanborðs; enn ek mun sitja í stafni, ok herma eptir því, ok vefja mik í voðunum, ok vera stundum utanborðs, ok láta sem ek má æriligast; [ok ef nökkur[2] berr þá um fram, mun ek róa sem ek má, ok leita þess á, at sem skjótast skilde með oss". Ok nú rærr hón í móte þeim, ok þó ekki allnærre þeim Berki, ok lætr sem hón bregðe til miða. Nú kallar Börkr á hana, ok spyrr, ef Gísli væri í eyinni. „Ekki veit ek þat" segir hón; „enn hitt veit ek, at er þar sá maðr, er mjök berr af öðrum mönnum, þeim sem í eyinni eru, bæðe at vexte ok haglcik". „Já", segir Börkr; „enn hvort er Ingjaldr bónde heima?" „Löngu áðan rère hann

1) ek *Sa.* 2) *Fra* [ *gjentaget i Sa saaledes:* ok ef nöck[2]. ok ef nöck[2].

til eyjarinnar" sagðe hón, „ok þræll hans með honum, at því er ek hugða". „Þat mun þó ekki verit hafa" sagðe Börkr, „ok mun Gísli þat verit hafa — ok róum eptir þeim sem ákafast." Þeir svöruðu: „Gaman þiker oss at fíflinu, ok horfa á þat, svo sem þat getr æriliga látit". Þeir sögðu, at hón var hörmuliga stödd, er hón skylde fylgja fóla þessum. „Svo þikki mèr ok" segir hón; „enn hitt finn ek á, at yðr þikkir blæligt, ok harmit mik alllítt". „Förum ekke at heimsku þesse" sagðe Börkr, „ok víkjum áleiðis". Skiljast þau nú, ok róa þeir til eyjarinnar, ok ganga á land, ok sjá nú mennina á Vaðsteinabergi, ok snúa þangat, ok hyggja allgott til sín; enn þeir eru uppe á berginu, Ingjaldr ok þrællinn. Börkr kenner brátt mennina, ok mælti til Ingjalds: „Hitt er nú ráð, at selja fram Gísla, eðr segja til hans ella; ok ertu mannhundr mikill,[1] er þú hefir leynt bróðurbana mínum, ok ert þó minn landsete, ok værir þú ills verðr frá mèr, ok væri þat sannara, at þú værir drepinn". Ingjaldr svarar: „Ek hefe vond klæðe, ok hrygger mik ekke, þó at ek slíte þeim ekki gjörr; ok fyrr mun ek láta lífit, enn ek gjöra ekki Gísla þat gott, sem ek má, ok firra hann vandræðum". — Ok þat hafa menn mælt, at Ingjaldr hafe Gísla mest veitt, ok þat at mestu gagni vorðit; ok þat er sagt, at þá er Þorgrímr nef gjörðe seiðinn, at hann mælti svo fyrir, at Gísla skylde ekke at gagni verða, þó at menn byrgi honum hèr á lande; enn þat kom honum ekki í hug, at skilja til um úteyjar, ok endist því þetta hóte leingst, þótt ekki yrðe þess áleingdar auðit. —

[2]Berke þikkir ekki þat til liggja, at veita Ingjaldi at-

---

1) *Sa indskyder En, hvilket maaskee er foranlediget ved, at der i dens Original har staaet en for er.*

2) *Sa tilföier som Overskrift: „capitulum".*

göngu, landseta sínum; hverfa þeir nú frá til bæjar, ok leita þar Gísla, ok finna hann ekki, sem von var. Þeir fara nú um eyna, ok koma þar at í einum stað, er fíflit lá, ok beit gras í dalverpe einu, ok bundinn steinn við hálsinn. Þá tekr Börkr til orða: „Bæðe er nú, at mikit er sagt frá fíflinu Ingjalds, enda deilist þat nú heldr víðara enn ek hugða, ok er hèr ekke á at horfa, ok hefir oss orðit svo mikil vanhyggja, at stóru berr; ok ekki veit ek, nærr vær fáum þetta leiðrètt; ok mun Gísli þar verit hafa á bátinum hjá oss, ok mun hafa látit epter fíflinu; því at hann er við hvortveggja brugðinn, ok er hin mesta hermikráka; ok er þat skömm jafnmörgum mönnum, ef hann skal nú komast úr höndum oss; ok skundum eptir honum, ok látum hann nú ekki úr færi ganga". Síðan hlaupa þeir á skip, ok róa eptir þeim, ok falla fast við árar. Þeir geta at líta, at þau eru komin langt inn á sund, ok sækja nú hvorertveggju fast róðrinn. Renner þat skipit meira, sem mennirnir voro fleire á, ok leggst svo nære um síðir, at þá er Börkr kominn í skotfæri, er þau eru komin at lande. Þá tekr Gísli til orða, ok mælti við ambáttina: „Nú munu vit skiljast, ok er hèr gull, at þú skalt færa Ingjaldi, enn annat konu hans, ok seg þeim, at þau gefi þèr frelse, ok ber þetta til jarteigna. Ek vil ok, at Svarte sè frelse gefit. Máttu at vísu heita minn lífgjafe, ok vil ek, at þú njótir þess." Nú skilja þau, ok hleypr Gísli á land, ok í hamraskarð nökkut; enn þat er á[1] Hjarðarnese. Ambáttin rère í burt, alsveitt af mæðe, ok rauk af henne. Þeir Börkr róa at lande, ok verðr saka-Steinn skjótastr af skipinu, ok hleypr at leita Gísla; ok er hann kemr í hamraskarðit, stendr Gísli fyrir með brugðit sverð, ok keyrir þegar í höfuð honum, svo at stóð í herðum niðri, ok fèll hann

1) *Skulde maaskee hedde* fyrir; *jf. det Følgende.*

dauðr á jörð. Þeir Börkr ganga nú upp á eyna; enn Gísli hleypr á sund, ok ætlar at leggjast til lands. Börkr skýtr eptir honum spjóte, ok kom í kálfann á honum, ok skar út úr, ok varð þat mikith sár. Hann kemr á burt spjótinu, enn týnir sverðinu; því at hann var svo móðr, at hann gat ekki á haldit. Þá var myrkt af nótt. Er hann komst at lande, þá hleypr hann í skóg; því at þá var víða skógum vaxit. Þá róa þeir Börkr at landi ok leita Gísla, ok kvía hann í skóginum, ok er hann svo móðr ok stirðr, at hann má varla ganga, ok verður nú varr við menn alla vega frá sèr. Nú leitar hann ráðs, ok ferr ofan til sjófarins, ok kemst þar inn með flæðarbökkum til Haugs í myrkrinu, ok hittir bónda einn, er Refr hèt, ok var allra manna slægastr. Hann heilsar honum, ok spyrr tíðinda. Hann sagðe allt, hversu farit hafðe með þeim Berki. Refr átte sèr konu, er Álfdís hèt, væn at yfirlite, enn fárskona sem mest í skapi, og var hinn meste kvennskratte; með þeim Ref var jafnræðe. Og er hann hefir sagt Ref tíðindin, skorar Gísli á hann til fulltings, „Ok munu þeir koma hèr brátt" sagðe Gísli, „ok ekr nú at mjök, enn fáer verða til liðveizlu". „Ek mun gjöra á nökkurn" sagðe Refr, „þann, at ráða einn, hversu at með skal fara at veita þèr, ok hlutast þú til einskis". „Þat skal nú þiggja" sagðe Gísli, ok mun ek ekki ganga fæte framar". „Gakk þú inn þá" sagðe Refr; ok svo gjörðu þeir. Þá mælti Refr við Álfdíse: „Nú mun ek skipta mönnum við þik í rekkjunni", ok tekr nú fötin öll úr rúminu, ok mælti, at Gísli skylde þar niðr leggjast í hálminn, ok berr á hann ofan fötin, ok hvíler nú á honum ofan hón Álfdís — „Ok vertu nú þar" sagðe Refr, „fyst, hvat sem í gjörest". — Hann biðr nú ok Álfdíse vera sem versta viðskiptes, ok sem ærasta, „Ok spare nú ekke

af" sagðe Refr „ok at mæla þat allt illt; er þèr kemr í hug, bæðe í blóte ok skattyrðum; enn ek mun ganga til tals við þá, ok haga svo orðum sem mèr sýnist". Ok í annath sinn, er hann kemr út, sèr hann menn fara, ok eru þar förunautar Barkar, átta saman; enn Börkr er eptir at Forsá; ok skulu þesser þangat fara, at leita at Gísla, ok taka hann, ef hann væri þar kominn. Enn Refr er úte, ok spyrr tíðinda. „Þau ein kunnu vær at seigja, at þú munt spurt hafa. Eðr veiztu nökkut til fara Gísla?" segja þeir; „eðr hvort hefir hann hèr nökkut komit?" „Þat er bæðe" sagðe Refr, „at hann hefir ekke hèr komit; enda munde honum skammt til skjótra ófara, ef hann hefðe þess freistat; ok ekki veit ek, hversu trúligt yðr þikkir, at ek munda ekki óbúnare, enn einhverr yðvar, at drepa Gísla; enn hefe ek þat vit með mèr, at ek munda þikkjast ekke allítit í vinna, at hafa slíks manns traust, sem Börkr er, ok hans vin vilda ek vera". Þeir spyrja: „Er þèr nökkuth um, at vær rannsökum þik ok hús þín?" „Já!" sagðe Refr; „þat vil ek gjarna; því at ek veit, at þèr megit því örruggligar leita í öðrum stöðum, ef þèr vitit fyrir víst, at hann er ekki hèr, ok gangit inn, ok leitit sem gjörsamligast". Þeir ganga inn. Ok er Álfdís heyrðe hark þeirra, þá spyrr hón, hvat gauragangi þar væri, eðr hverèr glóparnir starfaðe á mönnum um nætr. Refr bað hana hafa sik at hófe. Enn hón lætr þó ekki vant margra fíflyrða; veitir hón þeim mikla ágauð, svo at þeir máttu minni til reka. Þeir rannsaka ekki at síðr, ok þó minnr enn þeir mundu, ef þeir yrðe ekki fyrir þvílíkum hrópyrðum af húsfreyju. Fara síðan á burt, ok finna alls ekke, ok biðja bónda vel lifa; enn hann bað þá vel fara. Ok koma þeir aptr til fundar við Börk — ok una allilla við sína för, ok þikjaz feingit hafa mikinn mannskaða með svívirðing, enn komit eingu

áleiðis. Flyzt þetta nú yfir hèraðit, ok þikkir mönnum ekki úr steini hefja, hverjum óförum þeir fara fyrir Gísla. Börkr ferr nú heim, ok segir Eyólfe, hvat um er at vera. Gísli er með[1] Ref hálfan mánuð, ok síðan ferr hann á burt, ok skilja þeir Refr góðir vinir, ok gefr Gísli honum kníf ok belte, ok voro þat góðir griper; enn ekke hafðe hann fleira laust. Ok eptir þetta ferr Gísli í Geirþjófsfjörð til konu sinnar, ok hefir nú mikith aukizt hans frægð í þessum atburð; ok er þat ok sannsagt, at ekki hefir meiri atgjörfemaðr verit, enn Gísli, nè fullhugi; enn þó varð hann ekki gæfumaðr. Nú er fyst frá horfith.

[2]Nú er þar til máls at taka um vorith, at Börkr ferr til Þoskafjarðarþings með fjölmenne, ok ætlar ath hitta vini sína. Gestr ferr vestan af Rauðasande á Barðaströnd, ok Þorkell Súrrson, ok ferr á sínu skipi hvorr þeirra. Ok er Gestr er albúinn, koma til hans sveinar tveir, ok klæddir illa, ok höfðu stafi í höndum. Þess verða menn víser, at Gestr hefir launtal við sveinana, ok verða menn þess víser, at þeir biðja hann fars, ok hann veitir þeim. Þeir fara nú með honum til þingsins. Þar ganga þeir á land, ok fara sem leiðir liggja fyrir þeim til þess er þeir koma til Þorskafjarðarþings. Maðr er nefndr Hallbjörn; hann var göngumaðr, ok fór um hèruðin, ekki með færri menn enn tíu eðr tólf; enn hann tjaldaðe sèr[3] búð á þinginu. Þangat fara sveinarner, ok biðja hann búðarrúms, ok segjast vera göngumenn. Hann kvezt veita búðarrúm hverjum þeim, er hann vill beitt hafa, „Hefe ek hèr verith mörg vor" sagðe hann, „ok kenne ek alla höfðingja ok goðorðsmenn". Þeir sveinarnir segja, at þeir vilde hlíta hans ásjá ok fræðaz af

1) *Fattes i Sa, og er tilföiet i Overeensstemmelse med P.*
2) *Sa tilföier som Overskrift:* „ſueiaꝛnır ſpu þoꝛkel ſuꝛſ".
3) *Gisning i Overeensstemmelse med P; S har* ȧ.

honum. — „Er okkr mikil forvitni á at sjá stórmennismenn, þar er miklar sögur ganga frá”. Hallbjörn kvezt mundu fara ofan til strandar ok sagðist mundu kenna hvert skip skjótliga, sem kæmi, ok seigja þeim til. Þeir biðja hann hafa þökk fyrir lèttlæte sitt. Fara nú ofan til strandar, ok svo til sjófarins; sjá nú, at skipin sigla at lande. Þá tekr sveinn hinn eldri til orða: „Hverr á þat skip, er nú sigler hingat næst?” Hallbjörn sagðe, at þat á Börkr hinn digri. „Enn hverr sigler þar næst?” „Gestr hinn spake” sagðe hann. „Enn hverìr sigla þar næst, ok leggja skip sitt við fjarðarhornit?” „Þat er Þorkell Súrrson” sagðe hann. Þeir sjá nú, at Þorkell geingr á land, ok sezt niðr einshverssstaðar, meðan þeir flytja varnað þeirra af skipinu, svo[1] sem sjórrinn fèlle á land. Enn Börkr tjaldar búð þeirra. Þorkell hafðe girzkann hatt á höfðe, ok feld grán, ok gulldálk um öxl, enn sverð í hende. Síðan geingr Hallbjörn, ok sveinarner með honum, þangat at, sem Þorkell sitr. Nú tekr annar sveinninn til orða, sá hinn eldri, ok mælti: „Hverr er [sá hinn[2] göfugligi, er hèr sitr? Ekki hefe ek sèð vænna mann nè tiguligra”. Hann svarar: „Vel fara þèr orð; enn Þorkell heite ek”. Sveinninn mælti: „Allgóðr gripr mun sverðit þat vera, sem þú hefir í hendinni; eðr hvort muntu lofa mèr at sjá?” Þorkell svarar: „Furðu undarliga lætr þú um þetta, enn þó mun ek þetta leyfa þèr”, ok rèttir at honum. Sveinninn tók[3] við sverðinu, ok veik sèr frá líttat, ok spretter friðböndunum, ok bregðr sverðinu. Ok er Þorkell sá þat, þá mælti hann: „Þat lofaða ek þèr ekki þarna, at bregða sverðinu”. „Þar spurða ek þik ekke at leyfis” sagðe sveinninn, ok reiðir upp sverðit,

1) *Usikker Gisning; i Sa synes at staae* ſu (ſu=so=svo?).
2) *Rettelse;* ſiñ *fra* [ *Sa.*
3) tok tk *Sa.*

ok rekr á hálsinn Þorkeli, svo at af tók höfuðit. Enn þegar þesse tíðinde eru orðin, þá hleypr upp Hallbjörn göngumaðr; enn sveinninn[1] kastar niðr sverðinu alblóðugu, ok grípr upp staf sinn, ok hlaupa þeir með þeim Hallbirni; ok urðu göngumenn næsta at gjalte. Þeir hlaupa upp hjá búðinni, er Börkr tjaldaðe. Menn drífa þá ath Þorkeli, ok þikkjast ekki vita, hverr verkit hefir unnit. Börkr spyrr, hverju gegnde þyss sjá, eðr kliðr, er var hjá Þorkeli. Ok er þeir Hallbjörn hlaupa upp hjá búðinni — ok eru fimmtán göngumenn — ok er hann Börkr spurðe þessa, þá svarar sá hinn yngri sveinninn, er Helgi hèt — enn sá hèt Bergr, er vígit hafðe vegit —: „Ekki veit ek, hvat þeir þinga; enn þat hygg ek, at þeir þræte um, hvort Vèsteinn hefðe átt eptir dætr einar, eðr hefðe[2] hann áttann son nokkurn”. Hallbjörn hleypr til búðar; enn sveinarner til skógar, er þar var nærr, ok verða ekki fundnir.

[3] Menn hlaupa nú til búðar Hallbjarnar, ok spyrja, hvè gegnde. Enn þeir göngumennernir segja, at sveinar tveir ungir höfðu komit í flokk þeirra, ok segja, at þeim kom þetta mjök at óvörum[4] ok kvoðust eingi deile á þeim vita; þeir seigja þó frá yfirlitum þeirra, ok viðrtal þeirra, hvílíkt verit hafðe. Börkr þikkist nú vita af orðum þeim, er Helgi hafðe mælt, at synir Vèsteins mune verit hafa; ok eptir þetta geingr hann til fundar við Gest, ok ræðz um við hann, hversu með skal fara. Börkr mælti: „Mèr er þat skyldast allra manna, at mæla eptir Þorkel mág minn[5]. Þikkir oss ekki því ólígt hafa til borit, sem synir Vèsteins

---

1) *Gisning i Overeensstemmelse med P; Sa har* sueiñ.

2) ħeꝑðe ħeꝑðe *Sa.*

3) *Sa tilföier som Overskrift:* capitulum.

4) mjök at óvörum *tilföiet i Fölge Gisning; i Stedet for Ordene* at þeim . . . at óvörum *har P*: — at þetta kemr mjök at þeim óvörum.

5) *Falder i Sa, og er tilföiet i Overeensstemmelse med P.*

mune unnit hafa verkit; því at ekki vitum vær annarra manna von, þeirra er sakir hafe átt við Þorkel, enn þeir. Nú kann vera, at þeir hafe komiz burt at sinni. Gef þú til ráð, hversu málit skal upp taka". Gestr svarar: „Kunna munda ek mèr ráð, ef ek hefða vígit vegit, at hafa þat undanbragð, at málit mætte ónýtt verða, ef á mèr yrðe haapt, at nefnast annann veg enn ek hèta"; ok letr Gestr mjök, at sökin sè fram höfð. Þat hafa menn fyrir satt haft, at Gestr hafe verit í ráðum með sveinunum; því at hann var skyldr þeim at frændsemi. Nú hætta þeir, ok falla niðr málin; enn Þorkell er heygðr at fornum sið, ok fara menn heim af þinginu; ok gjörist ekke fleira til tíðinda á því þingi. Börkr unir nú illa við sína ferð, sem þó átte hann stundum vanda til, ok hefir þó svo búit mykla sneypu ok svívirðing af þessu máli. Sveinarnir fara nú unzt þeir koma í Geirþjófsfjörð, ok liggja úte tíu dægr. Koma þeir til Auðar, ok er Gísli þar fyrir; þeir koma þar um nótt, ok drepa á dyrr. Auðr geingr til hurðar, ok heilsar þeim, ok spyr tíðinda — enn Gísli lá í rekkju sinni ok var þar jarðhús undir niðri, ok beinde hón raust þegar, ef hann þurfte at varast. Þeir segja henne nú víg Þorkels, ok um hvat væla var; segja henne ok, hversu leingi matlauser þeir hafa verit. „Ek mun senda ykkr" sagðe Auðr, „yfir hálsinn í Mosdal til sona Bjartmárs; skal ek fá ykkr vistir, ok jarteignir, at þeir skjóte yfir ykkr nökkuru- skjóli; ok gjöre ek því þetta, at ek nenni ekki at kveðja Gísla bjargar við ykkr." Nú fara sveinarnir í skóga þá, er þeir mega ekki finnast, ok neyta matar — því at þeir höfðu leingi matar misst —, ok leggjast síðan niðr ok sofa, er þeir voru mettir; því at þeir voro mjök syfjaðir.

[1] Nú er at segja frá Auðe, at hón geingr inn til Gísla,

1) *Sa tilföier som Overskrift:* capitulum.

ok mælti: „Nú skiptir mik myklu, hversu þú vilt til snúa, at gjöra minn sóma meira enn ek em verð". Hann tók þegar undir ok mælti: „Veit ek, ath þú munt segja mèr víg Þorkels bróður míns." „Svo er, sem þú getr" sagðe Auðr, „ok eru hèr komnir sveinarnir, ok vildu, at þèr byrgist at aller saman, ok þikkjast nú ekke traust eiga, nema þetta." Hann svarar: „Ekke má ek þat standast, at sjá bróðurbana mína, ok vera ásamt við þá", ok hleypr upp, ok vill bregða sverðe, ok kvað vísu:

Hverr of veit, nema hvassann
hjaldrís drage Gísli
(átt mun fyrða frètta
færevón) úr spónum,
alls sigrviðir segja
snyrte hrings af þingi
(drýgjum enn til dauða
dáð) Þorketil ráðinn.

Nú sagðe Auðr þá á burtu, „Ok hafða ek vit til þess, at hætta þeim ekki hèr". Gísli sagðe, at þann veg var ok allra bezt, at þeir hittist ekki; ok sefast hann brátt, ok eru nú kyrr ein tíðinde. Svo er sagt, at nú eru ekki meir eptir, enn tveir vetr þess, er draumkonan sagðe hann mundu lifa. Ok er á líðr, er Gísli í Geirþjófsfirði, ok koma aptr draumar hans aller, ok harðar svefnfarir, ok kemr nú jafnan at honum draumkonan sú hin verre, ok þó hin stundum, hin betri. Einhverja nótt er þat enn, at Gísla dreymer, at konan sú hin betri kom at honum; hón sýndist honum ríða grám heste, ok býðr honum með sèr at fara, til síns inniss, ok þat þekkist hann. Þau koma nú at húse einu, því er nærr var sem höll væri, ok leiðir hón hann inn í húsit, ok þóttu honum þar vera hægindi í pöllum, ok vel

um búit. Hón bað þau þar vera, ok una sèr vel — „Ok skaltu hingat fara, þá er þú andast" sagðe hón, „ok njóta hèr fjár ok farsælu". Ok nú vaknar hann, ok kvað vísur nokkurar eptir því sem hann dreymde:

Heim bauð með sèr sínum
saumhlökk grám blakke
(þá var brúðr við beiðe
blíð) lofskreyte at ríða.
(Mágrundar) kvazt mundu
(man ek orð um þat skorðu)
hneigesól af heilu
hornflæðar mik gæða.

Dýrr lèt drápu stjóra
dís til sess um vísat
lægiss elz, þar er lágu
(lítt týni ek því) dýnur.
Ok með sèr hin svinna
saums leidde mik nauma,
lagðe heil í hvílu;
hlaut skald sæng blauta.

Hingat skaltu (kvað hringa
hildr at óðar gilde),
[fleina þollur] með fullu,
[fallheygjaðr] deyja.
Þá muntu (ullur),***
ísungs, fèi þvísa
[þat hagar okkr til auðar]
(ormláðs) ok mèr ráða.

[1]Frá því er sagt, at einhverju sinni var Helgi[2] enn

1) *Sa tilföier som Overskrift:* eytelpuz leitaði (*dette Ord er utydel.*) gfla (*saal.*)
2) *Gisning; Sa har nl.* „at ein ђuerín fíní. at ђelgı ď" *i Stedet for Ordene* at einhverju sinni var Helgi.

sendr á njósn í Geirþjófsfjörð; ok þikkir mönnum áræðiligt, at Gísli mune þar[1]. Sá maðr ferr með honum, er Hávarðr hèt. Hann hafðe komit út um sumarit áðr, ok var frænde Gests Oddleifsonar. Þeir voro sendir í skóga, at höggva efnetrè; enn þó at þetta væri yfirbragð á þeirra ferð, þá bjó þó hitt undir, at þeir skyldu leita at Gísla, ok vita, ef þeir fyndi fylsne Gísla. Ok einn dag at kvelde sjá þeir eld í kleifunum fyrir sunnan ána; þat var um dagsetrskeið, ok niðmyrkr sem mest. Þá spyrr Hávarðr Helga, hvat þá sè til ráðs — „Ok muntu" segir hann „vera þessu vanari, enn ek". „Einn mun á gjörr" segir Helgi, „at hlaða hèr vörðu á hóle þessum, er nú stöndum vit á, ok mun þá finnast, er ljóss dagr er; ok sèr hèðan frá vörðunni til kleifanna, er skammt er at sjá". Þetta taka þeir ráðs. Ok er þeir hafa hlaðit vörðuna, sagðe Hávarðr sik syfja, svo at hann kvezt ekke mega annat, enn sofa. Hann gjörir svo. Enn Helgi vakir ok hleðr þat sem ógjört var at vörðunni. Ok er hann[2] hafðe því lokit, þá vaknar Hávarðr, ok biðr Helga þá sofa, enn hann kvezt vaka mundu. Ok Helgi sefr um hríð. Ok á meðan hann sefr, tekr Hávarðr til verks ok berr á burt vörðuna alla ok sèr hvern steininn í náttmyrkrinu. Ok er hann hefir þat gjört, þá tekr hann stein einn mikinn, ok keyrir niðr á bergit, nærre höfðe Helga, svo at jörðin bifaðist við. Ok þá sprettr Helgi upp, ok verðr lafhræddr ok felmsfullur, ok spurðe, hverju gegnde. Hávarðr sagðe: „Maðr er í skóginum, ok hafa marger slíkir komit í nótt". „Þat mun Gísli verit hafa" seger Helge, ok mun hann hafa orðit varr við okkr; ok máttu þat skilja, fèlagi góðr", segir hann, „at vit munum aller lemjast, ef á okkr kemr slíkt grjót; ok ér eingi annar

1) *Her fattes formodentlig* vera.
2) *Fattes i Sa.*

á gjörr, enn verða á burtu sem skjótast". Nú rennr Helgi sem fljótast má hann; enn Hávarðr geingr á eptir, ok biðr Helga ekki hlaupa undan sèr; enn Helgi gaf at því eingan gaum, ok fór sem fætr toguðu. Ok at lyktum koma þeir báðir til skips, ok stíga þar á, ok ljósta síðan árum í sjó, ok róa sem ákafast, ok lètta ekki fyrr sinni ferð, enn þeir koma heim í Otradal, ok segir Helgi, at hann er víss orðinn, hvar Gísli er niðr kominn. Eyólfr víkst við skjótt, ok ferr þegar við tólfta mann, ok er þar í för Helgi ok Hávarðr. Þeir fara til þess er þeir koma í Geirþjófsfjörð, ok ganga um alla skóga at leita vörðunnar ok fylsnis Gísla, ok fundu hvorke. Nú spyrr Eyólfr Hávarð, hvar þeir settu vörðuna. Hann svarar: „Ekki má ek þat vita; því at bæðe var, at ek var svo syfjaðr, at ek vissa fátt frá mèr, enda hlóð Helge þá vörðuna, er ek svaf. Ekki þikke mèr örvænt, at Gísli hafe orðit varr við okkr, ok hafe borit burt vörðuna, þá er lýste, ok vit vorum í burtu farner". Þá mælti Eyólfr: „Afauðit verðr oss mjök um þetta mál, ok munu vær aptr snúa", ok svo gjöra þeir, ok kvezt Eyólfr áðr vilja hitta Auðe. Þeir koma nú á bæinn, ok ganga inn, ok settist Eyólfr enn á[1] tal við Auði. Hann tekr svo til orðs: „Ek vil eiga kaup við þik, Auðr", segir hann, „at þú seg mèr til Gísla, enn ek mun gefa þèr þrjú hundruð silfrs, þau sem eg hefir tekit til höfuðs honum. Þú skalt[2] ok ekki[3] við vera, er vær tökum hann af lífe. Þat skal ok fylgja, at ek mun fá þèr ráðahag þann, at öllu sè betri, enn sjá hefir verit. Máttu ok á þat líta" segir hann, „hversu óhallkvæmt þèr verðr at liggja í eyðefirðe þessum, ok hljóta þat af óhöppum Gísla, ok sjá aldre frændr ok nauðlitamenn".

1) at at *Sa.*
2) *Sa gjentager Ordene* Þú skalt *saaledes:* „þu skalt. þu skalt".
3) *Tilföiet i Overeensstemmelse med P.*

Hón svarar: „Þar þikke mèr óvænst um" segir hón, „at vær verðum um þat sátt, at þú fáir mèr þat gjaforð, at mèr þikke jafnt við þetta. Enn þó er þat satt, sem mælt er, at fè er bezt eptir feigann; ok lát mik sjá, hvort fè þetta er svo mikit ok frítt, sem þú seger". Hann steypir nú fènu í knè henne, ok hefir hón hönd í, enn hann telur ok tjár fyrir henne. Guðríðr fóstra hennar tekr at gráta.

[1] Síðan geingr hón út, ok til móts við Gísla, ok segir honum: „Fóstra mín er nú vitlaus orðin, ok vill svíkja þik". Gísli mælti: „Gjör þú þèr gott í hug; því at ekki mun mèr þat at fjörleste verða, at Auðr blekke mik", ok kvað vísu:

149 Segja menn, at manni
menhlín hafe sínum
fjarðar elgs um fólgit,
fleyvangs, hugi ranga.
Enn grjót ölun- gáttin
góins fitjar vill sitja.
Hygg-at ek hælibrekku
hannlogs at því sanna.

Eptir þetta ferr mærin heim, ok segir ekke, hvert hón hefir farit. Eyólfr hefir þá talit silfrit; enn Auðr mælti: „Í eingann stað er fèt minna eðr verra, en þú hefir sagt; ok mun þèr nú þikkja ek heimilt eiga[2] at gjöra af slíkt er[2] mèr sýnist". Eyólfr tekr því glaðliga, ok bað hana at vísu gjöra af slíkt er hón vill. Auðr tekr nú fèð, ok lætr koma í einn stórann sjóð; stendr hón síðan upp, ok rekr sjóðinn með silfrinu á naser Eyólfi, svo at þegar stökkr blóð um hann allann, og mælti: „Haf nú þetta fyrir auð-

---

1) *Sa tilföier som Overskrift:* eyiolf² mælte fiedin (*lidt utydeligt, tæer* m).
2) *Fattes i Sa.*

tryggi þína, ok hvert ógagn með. Einge von var þèr þess, at ek munda selja bónda minn í hendr illmenni þínu. Haf nú þetta, ok með bæðe skömm ok klæki. Skaltu þat muna, vesall maðr, meðan þú lifir, at kona hefir barit þik; enn þú munt ekke at heldr fá þat er þú vildir". Þá mælti Eyólfr: „Hefit[1] hendr á, ok drepi, þó at blauðr sè". Hávarðr tekr þá til orða: „Þó er för vor helzte ill, þó at vær vinnum ekki þetta níðingsverk; ok stande menn upp, ok láte hann ekki þessu ná". Eyólfr mælti: „Satt er hit fornkveðna — án er ills geingiss, nema heiman hafe". Hávarðr var vinsæll maðr, ok voro marger búnir at veita honum lið til þessa, enn í annann stað at firra Eyólf óhappi; ok verðr hann nú svo búit at hafa, ok ferr á burt við þetta. Enn áðr enn Hávarðr geingi út, mælti Auðr: „Ekke mun sannligt at halda skuld þeirre, er Gísli á at gjalda þèr, ok er hèr fingrgull, er ek vil at þú hafir". „Ekke munda ek þetta þó heimt hafa" seger Hávarðr. „Ek vil nú þó gjalda" segir Auðr. Hón gaf honum þó raunar gullit fyrir liðveizlu sína. Hávarðr fekk sèr hest, ok ferr suðr á Strönd til Gest Oddleifssonar, ok vill ekki leingr vera með Eyólfi. Eyólfr ferr heim í Otradal, ok unir illa sinni ferð; enda þótte mönnum þesse ferð hin hæðiligasta.

[2]Líðr svo nú sumarit, at Gísli er í jarðhúsum sínum, ok er varr um sik, ok ætlar hann nú ekke í burt; þikkir honum nú fokit vera í öll skjól; nú eru ok liðner draumavetr hans gjörfaller. Þat berr enn til einhverja nótt um sumarit, at Gísli lætr illa í svefne. Enn er hann vaknar, spyrr Auðr, hvath hann hefðe dreymt. Hann segir, at nú kom at honum draumkonan sú hin verre, ok mælti svo: „Nú skal

1) *Burde maaskee rettes til* Hafit, *da* hafa hendr á *er den sædvanlige Udryksmaade.*

2) *Sa tilföier som Overskrift:* G. kuað uísur.

ek því öllu bregða, er hin betri draumkonan mælti við þik; ok skal ek þess ráðande, at þèr skal þess ekke at gagni verða, er hón hefir mælt". Þá kvað Gísli vísu:

150 Skulut þit ei, kvað skorða
skaptkers, saman vera
(svo hefir ykkr) við ekka
eitr (guðrúnar heitit).
Allvaldr hefir alda,
erlendis, mik senda
enn úr æðra ranni,
annann heim at kanna.

„Þat dreymde mik enn" sagði[1] Gísli, „at sjá kona kom til mín, ok batt á höfuð mèr dreyruga húfu, ok þvó áðr höfuð mitt í blóðe, ok jós á mik allann, svo at ek varð alblóðugr". Gísli kvað vísu:

151,1 Þvo hugða ek mèr þrúðe,
þremja lunns úr brunni,
Óðins elda löðri,
auðs, mína skör, rauðu:
ok hraun-kneifar, hræfa,
hand veri, því blande,
báls í benja ele
blóðrauð vala slóðar.

Ok enn kvað hann:

151,2 Hugða ek geymigöndul
gunnelda mèr falda,
ok rakskorinn reikar
rúf, dreyrugri húfu:
være hendr á henne
í hjörregni þvegnar.

1) *Falles i Sa, og er tilföiet i Overeensstemmelse med P.*

Svo vakte mik sága
saums úr mínum draume.

Nú gjörðist svo mikit um drauma Gísla, at hann gjörir svo myrkhræddan, at hann þorir hvergi einnsamann at vera; ok þegar hann leggr sín augu saman, þá sýnist honum hin sama kona. Þat var enn eina nátt, at Gísli lèt raunlítt í svefne. Auðr spurðe, hvat fyrir hann bæri. „Þat dreymde mik" segir Gísli, „at menn kæme at oss, ok væri Eyólfr í för, ok margt annarra manna, ok hittumst vær, ok vissa ek, at áburðir[1] urðu með oss. Einn þeirra fór fystr, grenjande mjök, ok þóttumst ek höggva hann sundr í miðju, ok þótte mèr vera á honum vargshöfuð. Þá sóttu margir at mèr; ek þóttumst hafa skjöldinn í hende mèr ok verjast leingi". Gísli kvað þá vísu:

152,1 Vissa ek fjandr at funde
(fekk ek) inni (lið minna)
ár [þótt eige værag
andaðr] (af því) standa
(gætt var) [verr! enn væri]
(valtafn í mun hrafni)
[fríðr í fögru blóðe
faðmr þinn roðinn mínu].

Ok enn kvað hann:

152,2 Máttuð skilde skalde
(skjöldr kom mèr at halde —
gátum hug — við hneite)
björ gellanda þella,
áðr enn mik þeir, er mínu
munu aldrlagi valda,
[gnýrr var björs at heyra
hárr] ofrlíðe báru.

1) P hér atburðir.

Ok enn kvað hann:

153,1 (Stè ek yfir einn, áðr ynni
árflognis mik sárann)
hrælækjar gaf ek hauke
(huggendr) munins tuggu.
Sneið at sínu ráðe
sverðs egg í tvau leggi;
misste menja lestir
(mannbót var þat) fótar.

Nú líðr á haustit, ok minnkar ekke draumana, ok heldr er vaxande gangr at þeim. Þat var eina nótt, er Gísli lèt enn illa í svefne. Auðr spurðe þá enn, hvatts fyrir hann bære. Gísli kvað vísu:

153,2 Hugðe ek blóð um báðar
(benvíðis) mèr síðr
(þann höfum vær at vinna
víl) senn ofan renna.
[Slíkt dreymir mik, seima]
sekr er ek við her nökkut
(biðum brodda hríðar
ben) [lofn, er ek mun sofna].

Ok enn kvað hann vísu:

153,3 Hugða ek blóð um báðar,
baughlín, granar mínar
harðar hvössu sverðe
hrænez rekin setja:
ok val mærar være
(Vör) af myklu fáre
(líkn rekjum svo, lauka)
lífs vónir mèr grónar.

Ok enn kvað hann:

154,1 Hugða ek hlífar flagða
hristendr af mèr kvista
(stór feingum ben) brynju
báðar hendr með vende.
Enn fyrir mækiss munni
minn hugða ek, Syn tynna,
(oss gein hjörr um hjassa)
hjálmstofn ofan klofna.

Ok enn kvað hann vísu:

154,2 Hugða ek Sjöfn í svefne
silfrbands yfir mèr standa
(Gerðr hafðe sú garða)
grátande (brá vota),
ok eld-njórun öldu
allskyndiliga bynde
(Hvath hyggr' þú mèr, hin mæra,)
mín sár (under því voru.)

[1] Nú er Gísli heima þat sumar, ok er nú kyrrt. Síðan kemr sumarnátt síðasta. Þá er þess getit, at Gísli mátte ekke sofa, ok ekke þeirra þriggja. Veðre var þann veg farit, at var á logn mikit — hèlufall var ok mikit. Þá kvezt Gísli vilja fara frá húsum ok til fylsniss síns, suðr undir kleifarnar, ok vita, ef hann mætte sofna. Nú fara þau öll, ok eru þær í kyrtlum, ok draga kyrtlarnir dögg-slóðena. Gísli hafðe kefle, ok reist á rúnar, ok falla niðr spænernir. Þau koma til fylsnisins. Hann leggst niðr, ok vill vita, ef hann gæte sofit; enn þær vaka. Rennr á hann svefnhöfgi, ok dreymir hann, at fuglar kæmi í húsit, er læmingar heita; þeir eru meire enn rjúpkerar; ok lètu illiliga, ok höfðu volkazt í roðru ok blóðe. Þá spurðe

[1]) *Sa tilföier som Overskrift:* at þoz uið gisla.

Auðr, hvað hann hafðe dreymt — „Nú voro enn ekki svefnfarer góðar". Gísli kvað vísu:

Mèr bar hljóm í heimi,
hörbil, þá er vit skildumst,
(svaukkvig dverga drekkju)
dreyra sals fyrir eyru.
Ok hjörraddar hlýdde
heggr (rjúpkera Tveggja
koma mun dala dreingi
dögg) læmingja höggvi.

Ok er þetta er tíðinda, heyra þau manna mál, ok er Eyólfr þar kominn með hinn fimmtánda mann, ok hafa áðr komit til húss, ok sjá döggslóðina, sem vísat væri til. Ok er þau verða vör við mennina, ganga þau upp á kleifarnar, þar sem vígi er bezt, ok hefir hvor þeirra þusl í hende mykla. Þeir Eyólfr ganga at neðan. Hann mælti þá við Gísla: „Hitt er nú ráð, at fara ekki undan leingra, ok láta þik ekki elta, sem huglausa menn, því at þú ert kallaðr fullugi mikill. Hefir nú ekki[1] orðit skammt funda á milli, ok þat mundu vær vilja, at sjá være hinn efste". Gísli svarar: „Sæk þú at karlmannliga, fyrir því at ek skal ekke leingra undan fara. Er þat ok þín skylda mest at sækja fystr at mèr; því at þú átt sakir við mik meire enn aðrir menn, þeir sem hèr eru í för". „Ek mun þat ekke under þèr eiga" segir Eyólfr „at skipta liðe mínu sem mèr líkar". „Þat var ok líkara" segir Gísli, „at grey þitt munde ekki þora við mig vopnum at skipta". Eyólfr mælti þá til njósnar-Helga: „Þat væri nú frægð mikil, at þú rèðir fystr upp á kleifarnar at Gísla, ok munde þat ágæte leingi uppi vera". Opt hefe ek þat reynt" segir Helgi, „at þú vilt aðra hafa fyrir þèr optast, þar er nökkur raun er at; enn

1) *Tilföiet i Fölge Gisning; P har* verðit langt (*for* ekki orðit skammt).

fyrir því, at þú eggjar svo ákafliga, þá skal ek til ráða, enn þú fylg mèr dreingiliga, ok gakk næst mèr, ef þú ert ekki með öllu blauðr". Helge ræðr nú til, þar sem honum þikkir vænst, ok hefir í hende öxe mykla. Gísli var svo búinn, at hann hafðe í hende öxe ok gyrðr sverðe ok skjöld á hlið; hann var í kufle grám, ok hafðe gyrt at sèr með reipe. Nú skopar Helge skeið, ok hleypr upp á kleifarnar at Gísla. Hann snarar í móte Helga, ok reiðir upp sverðit, ok rekr á lendarnar, svo at í sundr tók maninn í miðju, ok fellur sèr hvorr hlutrinn ofan fyrir kleifarnar. Eyólfr komst upp[1] annarsstaðar, ok kom þar Auðr í móte honum, ok lýstr á hönd honum með lurke, svo at úr dró allt aflit úr, ok hratar hann ofan aptr. Þá mælti Gísli: „Þat vissa ek fyrir löngu, at ek var vel kvæntr; enn þó vissa ek ekki, at eg væri svo vel kvæntr, sem ek er. Enn minna lið veittir[2] þú mèr nú, enn þú munder vilja, eðr þú ætlaðir, þó at tilræðit væri[3] gott; því at eina leið mundu þeir nú hafa farit báðir".

[4]Þá fara til tveir menn at halda þeim Auðe ok Guðríðe, ok þikkjast þeir hafa ærit at vinna. Nú sækja tólf at Gísla, ok komast upp á kleifarnar. Enn hann verr sik bæðe með grjóte ok vopnum, svo at því fylgde mikil frægð. Nú hleypur at förunautr Eyólfs einn, ok mælti til Gísla: „Legg þú af við mik vopnin þau hinu góðu, er þú berr, ok allt saman ok Auðe konu þína". Gísli svarar: „Tak þú þá við ódeigliga; því at hvorke samir, vopnin, þau er ek hefe átt, nè svo konan". Sjá maðr leggr til Gísla með spjóte. Enn Gísli höggr mót ok spjótit af skaptinu, ok verðr höggit svo mikit, at öxin hjóp í helluna, ok brestr

1) *Gisning for* ut.
2) *Gisning for* „ueitar".
3) *Faltes i Sa.*
4) *Sa tilföier som Overskrift*: capitulum.

af hyrnan. Hann kastar þá öxinni, enn grípur til sverðsins, ok vegr með því, enn hlífir sèr með skildinum. Þeir sækja nú at röskliga; enn hann verst vel ok dreingiliga; koma þeir nú hart saman. Gísli vo þá enn tvo menn, ok eru nú fjórir látnir. Eyólfr bað[1] þá sækja at sem karlmannligast — „Fám vær hart af" segir Eyólfr, „ok væri þat einskiss vert, ef góð yrðe erfiðisslaunin". Ok er[2] minnst er vonin, vizt Gísli við, ok hleypr upp á hamar þann, er heitir Einhamar, ok af kleifunum; þar snýst Gísli við ok verst. Þetta kom þeim at óvörum; þikkir þeim nú mjök óhægjast sitt mál[1] — mennirnir dauðir fjórir, enn þeir sárer ok móðir. Verðr nú hvíld á atsókninni. Þá eggjar Eyólfr menn sína allfast, ok heitr þeim myklum fríðindum, ef þeir næðe Gísla. Eyólfr hafðe einvala lið með sèr at hreyste ok harðfeingi.

[3]Maðr er nefndr Sveinn, er fystr rèðst í móte Gísla. Gísli höggr til hans, ok klýfr hann í herðar niðr, ok fleygir honum ofan fyrir hamarinn. Nú þikkjast þeir ekki vita, hvar staðar næmi manndráp þessa manns. Gísli mælti þá til Eyólfs: „Þat munda ek vilja, at þau þrjú hundruð silfrs, er þú hefir tekit til höfuðs mèr, skaltu hafa dýrast keypt; ok þat munda ek vilja, at þú gæfir til þess önnr þrjú hundruð silfrs, at vit hefðum aldri fundizt, ok muntu taka svívirðing fyrir mannskaða". Nú leita þeir sèr ráðs, ok vilja ekki fyrir líf sitt frá hverfa. Sækja þeir nú at honum tveggja vegna, ok fylgja þeir Eyólfi fremstir, er annar heitir Þórer, enn annar Þórðr, frændr Eyólfs; þeir voro hinu mestu garpar; ok er atsóknin þá bæðe hörð ok áköf, ok

---

1) *Tilföiet i Margen i Sa med samme Haand som Texten.*
2) *Fattes i Sa.*
3) *Sa tilföier som Overskrift:* .G. let lıp fitt.

fá þeir nú komit á hann sárum[1] nökkurum með spjótalögum; enn hann verst með mikilli hreyste ok dreingskap; ok fá þeir svo þungt af honum af grjóte ok stórum höggum, svo at eingi var ósárr, sá er at honum sótte; því at Gísli var ekki missfeingr í höggum. Nú sækja þeir Eyólfr at fast, ok frændr hans; þeir sá, at þar[2] lá við sæmd þeirra ok virðing. Leggja þeir þá til hans með spjótum, svo at út falla iðrin; enn hann sveipar at sèr iðrunum ok skyrtunni, ok bindr at fyrir neðan með reipinu. Þá mælti Gísli, at þeir skyldu bíða lítt þat — „Munu þèr nú hafa þau málalok, sem þèr vildut". Hann kvað þá vísu:

157 Fals, hallar skal fylla
fagrleit, sú er mik reitar,
rekkelát, at, rökkve
regns, sínum vin fregna.
Vel hygg ek, þótt eggjar
ítrslegnar mik bíte
(þá gaf sínum sveini)
sverðs (minn faðir herðu).

Sjá er hin síðasta vísa Gísla; ok þegar jafnskjótt er hann hafðe kveðit vísuna, hleypr hann ofan af hamrinum, ok keyrir sverðit í höfuð Þórðe, frænda Eyólfs, ok klýfr hann allt til beltisstaðar; enda fellur Gísli á hann ofan, ok er þegar örendr. Enn þeir voro aller mjögh sárir, förunautar Eyólfs. Gísli lèt líf sitt með svo mörgum ok stórum sárum, at furða þótte í vera. Svo hafa þeir sagt, at hann hopaðe aldri, ok ekki sá þeir, at högg hans være minna hið síðasta enn hið fysta. Lýkr þar nú æfe Gísla; ok er þat alsagt, at hann hefir hinn meste hreystemaðr verit, þó at hann være ekki í öllum hlutum gæfumaðr. Nú draga

1) „faiv þann" *Sa* (*for* hann sárum).
2) *Tilføiet i Margen i Sa med samme Haand som Texten.*

þeir hann ofan, ok taka af honum sverðit, götva. þeir hann þar í grjótinu, ok fara ofan til sjófar. Þá andaðist hinn sètte maðr, við sjó niðri. Eyjólfr bauð Auðe, at hón færi með honum. Enn hón vildi ekki. Eptir þetta fara þeir Eyólfr heim í Otradal, ok andaðist þegar hina sömu nótt hinn sjaunde maðr. Enn hinn átte liggr í sárum tólf mánaðe, ok fær bana. Enn aðrer verða heiler, þeir sem sárir voro, ok fęingu þó óvirðing. Og er þat alsagt, at eingi hafe hèr frægri vörn veitt verit[1] af einum manni, svo at menn vite með sannindum.

[2]Nú ferr Eyólfr heiman við hinn tólfta mann suðr til fundar við Börk hinn digra, ok sagðe honum þesse tíðindi, ok allann atburð. Ok varð Börkr kátr við þetta, ok biðr Þórdíse taka vel honum Eyólfi — „Ok mun þú ást þá hina myklu, er þú unner Þorgrími bróður mínum, ok gjör vel við Eyólf”. „Gráta mun ek Gísla bróður minn” segir Þórdís; „enn mun eigi vel fagnat Gísla bana, ef grautr er gjörr ok gefinn?” Ok um kveldit, er hón bar mat fram, feller hón niðr spónatrogit. Eyólfr hafðe lagt sverð þat í mille stokks ok fóta sèr, er Gísli hafðe átt. Þórdís kenner sverðit, ok er hón lýtr niðr eptir spónunum, þreif hón meðalkaflann á sverðinu, ok leggr til Eyólfs, ok vilde leggja á honum[3] miðjum; gáðe hón ekki, at hjaltit horfðe upp, ok nam við borðinu; hón lagðe neðar, enn hón hafðe ætlað, ok kom í lærit, ok var þat mikit sár. Börkr tekr Þórdíse, ok snarar af henne sverðit. Þeir hlaupa upp aller, ok hrinda fram borðunum ok matnum. Börkr bauð Eyólfe sjálfdæmi fyrir þetta, ok gjörðe hann full manngjöld, ok kvezt gjört hafa mundu meira, ef Berki hefðe verr í farit.

---

1) *Falles i Sa.*
2) *Sa tilföier som Overskrift:* „eñ mũ ė gısla bãa vel fagñ”.
3) *Rettelse for* „hann”.

Þordís nefnir sèr þá votta, ok seger skilit við Börk, ok kvezt ekki skyldu koma síðan í sömu sæng hjá honum; ok þat ende hón. — Fór hún þá at búa á Þórdísastöðum út á Eyre. Enn Börkr er eptir at Helgafelle til þess er Snorre goðe kom honum á burt; ok fór Börkr þá at búa í Glerárskógum. — Enn Eyólfr ferr heim, ok unir illa við sína ferð.

[1]Syner Vèsteins fara til Gests frænda síns, ok skora á hann, at hann komi þeim utan, með ráðum sínum, ok Gunnhildi, móðr þeirra, ok Auðe, er Gísli hafðe átta, ok Guðríðe Ingjalzdóttur ok Geirmunde bróður hennar. Fara þau öll utan í Hvítá. Kom Gestr þeim utan með fè sínu. Þau voro skamma stund úte, ok komu við Noreg. Geingr Bergr á stræte, ok vill kaupa þeim búðarrúm í kaupangi, ok tveir menn með honum; þeir mæta tveimr mönnum, ok var annar í skallazklæðum, ungr maðr ok mikill vexte; sá spurðe Berg at nafne. Hann sagðe til hith sanna um nafn sitt ok kyn; því at hann ætlaðe, at hann munde þess víðar koma, at hann munde njóta föður síns, enn gjalda. Enn sá, er í skarlaksklæðunum var, brá sverðe, ok hjó Berg banahögg. Þat var Are Súrrson, bróðir Gísla ok Þorkels. Förunautar Bergs fóru til skips, ok sögðu tíðindin. Stýremaðr kom þeim undan ok tók Helga far til Grænlands. Helge kom þangat, ok þroskaðist þar, ok þótte hinn bezte dreingr; ok voro menn sendir til höfuðs honum; enn þess varð ekki auðit. Helgi týndist í veiðeför, ok þótte þat mikill skaðe. Þær Auðr ok Gunnhildr fara til Danmerkr í Heiðabæ; tóku þær við trú, ok geingu suðr, ok komu ekki aptr. Geirmundr var eptir í Noregi, ok kvongaðist, ok varð vel at þroska. Guðríðr systir hans var manni gefin,

1) *Sa tilföier som Overskrift:* capitulū.

ok þótte skýr kona, ok eru marger menn frá henni komnir. Are Súrrson fór til Íslands; hann kom í Hvítá, ok selde skipit, enn keypte sèr land at Hamri, ok bjó þar nökkura vetr. Víða hefer hann búith á Mýrum, ok eru menn komnir frá honum. Lúku vær hèr Gísla sögu Súrrsonar. Guð gefe alla góða daga utan enda. Amen.

Þat er upphaf á sögu þessi, at Haraldr enn hárfagri rèð fyrir Noregi. Hann var fyrstr einvaldskonungr um allan Noreg, ok urðu margir landflótta fyrir honum til ýmissa landa, ok voru þat meirr stórmenni, fyrir því at þeir vildu ekki[1] yfirgang hans þola, en höfðu ei styrk til mótstöðu við hann. Um hans daga fannz Ísland ok byggðiz. Rèðuz þá út hingat börn Ketils flatnefs — Björn enn austræni, er Kjalleklingar eru frá komnir, ok Helgi bjóla, er bjó á Kjalarnesi, ok Þórunn hyrna, er Helgi enn[2] magri átti, í Eyjafirði. Eru frá þeim Eyfirðingar komnir. Auðr, dóttir Ketils, kom síðast út hingat, ok eru af hennar ætt komnir Orkneyjajarlar ok Götuskeggjar í Færeyjum ok Breiðfirðingar hèr á[3] landi. Þórólfr mostrarskegg rèðz út hingat, ok nam hann öll Þórsnesslönd; eru frá honum komnir Snorrungar. Úlfr enn skjálgi rèðz út hingat, ok nam hann Reykjanes í Breiðafirði; eru frá honum komnir Reyknesingar. Þórðr víkingr kom út hingat; kom hann í Dýrafjörð ok nam þar land allt ènum neyrðra megin. Hrollaugr, son Rögnvalds jarls af Mæri, bróðir torf-Einars jarls ok Þóris þegjanda[4] ok göngu-Hrólfs, hann fór út hingat, ok nam land austr á Síðu, ok eru frá honum komnir Síðumenn.

Í þenna tíma var hersir einn ríkr í Noregi, sá er Þorkell hèt, ok var kallaðr gullhjálmr, á Sunnhörðalandi, í Súrnadal. Hann var kvongaðr maðr. Átti hann iij sonu við konu sinni. Ari hèt hinn ellsti, annarr Gísli, þriði

1) ei *b.* 2) hin *b.* 3) i *b.* 4) þeigianda *b.*

Þorbjörn. Þeir voro allir efniligir menn. Ísi er maðr nefndr, er rèð fyrir Fjarðafylki. Dóttir hans hèt Ingibjörg; hón var kvenna vænst. Hennar bað Ari Þorkelsson, ok var hón honum gift. Hann tók fjárlut mikinn með henni. Henni fylgði sá maðr heiman, er Kolr hèt; hann var mikill at kyni; hann hafði hertekinn verit ok var kallaðr þræll; hann fór með Ingibjörgu í Súrnadal. Þorkell lætr bú eitt auðigt koma í hendr Ara syni sínom þar í dalnum; tekr hann þar til forráða ok þykkir vera enn efniligsti maðr. Sá maðr[1] er nefndr til sögunnar, er Björn hèt. Hann var kallaðr Björn enn blakki[2]. Hann var berserkr ok hólmgöngumaðr mikill. Þeir voro xij saman. Björn var fjölkunnigr ok bitu hann ei járn[3]. Hann var óþokkasæll við alþýðu. Settiz hann í bú manna, þar er honum sýndiz, en lagði í rekkjur hjá sèr konur þeirra ok dætr ok hafði við hönd sèr slíka stund sem honum sýndiz. Kvíddu allir við kvámo hans, en fögnuðu er hann fór í brott. Þess er við getit, at Björn spyrr þetta, at Ari hefir fríða konu heim flutta ok tekit við auð fjár. Þykkir[4] honum [þangat vænligt[5] at ráðaz. Snýr hann þangat með sveit sína ok kemr þar at kveldi eins dags; ok er þeir hittaz, [Ari ok Björn[6], þá segir hann, at hann ætlar sèr forræði fyrir búi því, ok vill, at Ingibjörg kona hans samrekki með honum slíka stund sem honum sýniz; bað Ara gera hvort er honum þykkir betra, at fara á brott eða vera þar. Ari kvez ekki mundu brott fara ok eigi ætla honum þar[7] nokkor forræði. „Þá er vel" segir Björn, „ok er sá kostr annarr, at[8] ek vil skora þèr á hólm, at þú berìz við mik, ef þú treystiz, á þriggja nátta fresti, ok skal þá reyna, hvorr okkarr skal eiga Ingibjörgu; skal sá ok fè taka

1) $\overset{r}{m}$ maþr *a*. 2) Blaki. 3) jarns *a* 4) þikk' *a*. 5) „vænligt þangat" *fra* [ *b*. 6) Biorn oc Ari *fra* [ *a*. 7) „þat" *a*. 8) *Fattes i a*.

eptir annan, er sigr hefir á hólminom. Mun ek mik ekki með fè leysa af hólminom, enda tek ek ei fè fyrir aðra". Ari kvez þat gjarna vilja, at þeir berðiz. Fóro berserkir við þat á brott, ok búaz nú til hólmstefnunnar, ok ganga þeir nú á hólm, ok lýkr svá þeirra viðrskifti, at Ari fellr, en berserkrinn varð ekki sárr, því at hann beit ekki járn. Nú þykkiz Björn hafa vegit til landa ok laussa aura ok kvánfangs. Lýsir hann þá yfir því, at hann ætlar þangat at kveldi, til þess bæjar, er Ari hafði átt. Gísli svarar, bróðir Ara, ok kvat brátt eptir verða um þá frændr, „ef sjá óhæfa skal fram fara, at sjá ófagnaðr skuli ofgöngum ganga yfir oss. Nú skal þat aldri verða. Vil ek skora á þik til hólmgöngu þegar á morgin. Vil ek miklu heldr falla á hólmi, enn þola óhæfu þessa". „Þat er vel" segir Björn; „mano þèr svá fara gjörvallir frændr, ef þèr villt til þess hætta at berjaz við mik". Skilja nú eptir þetta, ok ferr Gísli heim til búss þess, er Ari hefir átt. Eru nú sögð tíðindi þessi af hólminom, lát Ara, ok þykkir þat híbýlabrestr mikill vorðinn. Gísli gengr til fundar við Ingibjörgu ok segir henni fall Ara, ok þat með, at hann hefir skorat Birni[1] á hólm ok þeir skulu berjaz um daginn eptir. „Sú er óvænlig ætlan" sagði Ingibjörg, „ok uggi ek, at þèr takiz ekki vel, nema þú njótir annarra við". „Þess vil ek þá biðja þik, ok svá aðra, þá er glíkligstir veri, at þá luti mætti til leggja, at þá væri sigrinn vænligri enn áðr". „Einn maðr er sá" segir hón[1], „er mèr þykkir glíkligstr til at leggja kunni til þessa máls, svá at þèr mætti at gagni koma". „Hverr er þat?" segir Gísli. „Kolr fóstri minn er þat", segir hón; „því at þat hygg ek, at hann eigi sverð þat, er betra skal vera, enn flest önnur, þótt hann láti úvirðuliga yfir, ok kallar hann þat

1) B: 2) hun a.

brytskálm sína". Nú var sendt eptir Kol, ok kemr hann á þeirra fund, Gísla ok Ingibjargar. Gísli mælti: „Áttu sverð nokkut gott?" Kolr svarar: „Lítil gersimi er sverð mitt; en þó er þat mart í karlshúsi, at ei er í konungsgarði". Gísli mælti: „Viltu ekki ljá mèr sverðit til hólmgöngunnar við Björn?" Kolr mælti[1]: „Þá mun þèr fara sem öðrum um þá gripi, er gersimar eru undir, ok nennit þá eigi at láta af höndum. En ek mun nú segja þèr, at sverðit mun bíta þat sem því er til höggvit, hvort sem er járn eða annat, má þat ok ekki deyfa, því at þat er dvergasmíði; ok heitir sverðit Grásíða. En svá máttu ætla, at mèr mun illa hugnaz, ef ek nái eigi þá sverðinu, er ek vil við taka". „Ómakligt er annat" segir Gísli, „enn þú náir sverðinu, þá er ek hefir haft í nauðsyn mína". Tekr Gísli nú við sverðinu, ok líðr af nóttin. En áðr þeir færi heiman til hólmgöngu, spurði[2] Þorbjörn Gísla bróður sinn: „Hvorr okkarr, bróðir! skal nú berjaz við berserkinn í dag, eða hvorr skal höggva kálfinn?" Gísli svarar: „Þat ræð ek, at þú höggvir kálfinn; en vit Björn manom reyna með okkr". Eigi kaus hann et inndælla. Fóro þeir nú til hólmsins. Ganga þeir nú á hólm Gísli ok Björn. Þá sagði Gísli, at Björn skyldi höggva fyrri. „Þat hafa mèr öngvir fyrr boðit" segir Björn; „enda hefir mèr engi fyrr boðit hólmgöngu enn þú". Nú höggr Björn til Gísla; en hann kemr skildi fyrir sik; ok höggr hann af skildinom allt þat er tók, fyrir utan mundriðann. Gísli höggr aptr til Bjarnar[3], ok kemr á skjaldarsporðinn, ok tekr þar af, ok undan honum fótinn fyrir ofan knè. Gísli höggr í annat sinn af honum höfuðit. Er þá snúit at þeim förunautum Bjarnar: eru sumir drepnir, en sumir komaz á skóg undan. Þá fór Gísli heim eptir þat, ok fekk af þessu orðstír góðan; tekr

1) sv'. b. 2) spurð a. 3) B. b; Biorns a.

hann síðan bú þat at erfðum eptir Ara bróðor sinn, er hann hafði átt; hann fekk ok Ingibjargar — líða nú stundir fram — ok seldi ekki sverðit af hendi, enda hefir Kolr eigi til kallat.

Einn dag hittaz þeir úti ij saman: hafði Gísli þá í hendi sverðit Grásíðu, en Kolr öxi. Spurði Kolr, hvè honum hefði sverðit gefiz. Gísli lèt vel yfir. „Þá vil ek nú við taka" segir Kolr, „ef þú þikkiz haft hafa[1] í þína þörf nú at sinne". „Viltu selja?" segir Gísli. „Ekki" segir Kolr. „Ek mun gefa þèr frelsi ok kaupeyri, svá at þú megir fara með öðrum mönnum þangat sem þú vill". „Ekki vil ek selja" segir Kolr. „Þá mun ek gefa þèr frelsi ok ljá þèr eða gefa þèr jörð ok þar með fá þèr ganganda fè svá sem þú þarft at hafa". „Ekki vil ek at heldr selja" segir Kolr. „Já" segir Gísli, „of fastr ertu af. Mettu nú svá dýrt" [segir hann[2], „sem þú hefir í hug, við lausafè, ok mun ek ekki smátt á sjá, ef þú vill nokkorn á gera. Þar með fæ ek þèr frelsi ok kvánfang sæmiligt, ef þèr leikr nokkot[3] í skápi". „Ekki er um at tala" segir hann; „ek mun ekki selja, hvat er þú býðr við. En nú ferr þetta eptir því sem mik grunaði í fyrstu, at ekki væri víst, hvort þú vildir þegar laust láta, ef þú vissir, hver gersimi í veri". „Ek mun ok segja þèr" segir Gísli, „hversu fara mun, at hvorrgi mun hafa vel; því at ek nenni sverðit ekki laust at láta, ok ekki kemr þat öðrum manni í hönd, enn mèr, ef ek má ráða". Kolr reiðir þá upp öxina, en Gísli brá Grásíðu, ok hjó hvorr til annars: hjó Kolr í höfut Gísla, svá at í heila stóð — en sverðit kom í höfut Kols[4], ok beit ekki; en þó var svá fast til höggvit, at haussinn rifnaði, en sverðit brast sundr. Þá mælti Kolr: „Nú hefði betr farit, ef at ek hefði

1) *Fattes i b.* 2) *Fra* [ *fattes i b.* 3) nockut, *a.* 4) *K.*

tekit við sverði mínu fyrr, sem ek beidda; ok mun þó endir einn leystr vera um þá ógiptu, er yðr frændum mun þar af standa". Nú lætr þar hvárrtveggi líf sitt.

En eptir þat fýsiz Ingibjörg ór Súrnadal, ok ferr hón heim til föður síns með fè sitt. Þorbjörn aflar sèr kvánfangs, ok ferr hann austr um Kjöl til Fresseyjar, ok bað konu þeirrar, er Ísgerðr hèt, ok fekk hennar. Fór hann eptir þat heim í Súrnadal, ok tekr þar til ráða með föður sínom. Þorkell gullhjálmr lifir skamma stund þaðan frá — tekr hann sótt ok andaz; en Þorbjörn tekr fjárlut allan eptir föður sinn. Hann var síðan kallaðr Þorbjörn súrr. Þau Þorbjörn ok Ísgerðr áttu börn, þau er nefna verðr. Þorkell hèt son þeirra, enn ellsti; annarr Gísli; Ari hèt enn þriði, ok fór hann þegar austr til Freyseyjar til fóstrs, ok er hann lítt við sögu þessa. Þórdís hèt dóttir þeirra. Þorkell var maðr mikill ok fríðr sýnom, rammr at afli ok skrautmenni et mesta. Gísli var maðr svartr, ok sem þeir menn, er stórir voro vexti; ógerla vissu menn afl hans; hann var hagr maðr ok iðjumaðr mikill, hógværr í skapi. Þórdís systir þeirra var fríð kona sýnum, skörungr mikill ok heldr harðfeng í skapi ok svarrkr enn mesti.

Þeir menn eru nefndir þar í Súrnadal, er[1] annarr hèt Bárðr, en annarr Kolbeinn: þeir voro báðir á ungum aldri ok vel fjáreigandi; ekki var þó skylt með þeim; þeir höfðu ok litlu misst feðra sinna í Englandsferð. Sá bær, er Bárðr bjó á, hèt á Hellu; en á Granaskeiði þar er Kolbeinn bjó. Þeir voro mjök jafnkomnir at aldri við sonu Þorbjarnar[2] súrs, ok váro þar hvárirtveggjo enir beztu gleðimenn. — Nú í þenna tíma hefir höfðingjaskipti orðit, meirr enn eitt, í Noregi — fyrir því at Eiríkr blóðöx, Haraldsson, tók konungdóm af[3] föður sínom lifanda; en er Haralds

1) *Falles.* 2) „þorbiorn" *a.* 3) *at b.*

missti við, þá kom Hákon vestan af Englandi, ok fór þegar norðr til Þrándheims, ok hittir fyrst Sigurð Hlaðajarl, ok tjár fyrir honum, hvert ríki Hákon hinn gamli hafði haft í Þrándheimi, faðir hans — „Þætti mèr ok þat kaup vel fara, at þú hèldir mik til konungs, en ek ynna þèr slíkrar sæmdar, sem faðir yðvarr hefir átt — værir þú frjáls, en ekki ánauðigr, sem nú eru allir í landi þessu". Þat höfðu álög verit Haralds ens hárfagra, at hann eignaðiz jarðir allar í Noregi, byggðar ok óbyggðar, ok jafnvel sjóinn ok vötnin; skyldu allir hans jarðbyggendr vera. Nú hugsar jarl þetta með sèr, ok virðiz honom vel tal Hákonar, ok binda þeir nú fasta vináttu með sèr. Jarl stefnir þá þriggja fylkna[1] þing. Nú er þingit er sett, stendr Hákon upp ok mælti svá: „Þat er öllum mönnum kunnigt, þeim sem hèr eru komnir, at Haraldr enn hárfagri lagði Noreg allan undir sik, allt norðan frá Finnmörk ok austr til Elfar; var hann einvaldskonungr yfir öllum mönnum; átti hann ok fjölda sona, sem yðr er kunnigt, ok voro flestir vel mannaðir; en hann unni þeim misjafnt; sendi hann suma brott í önnor lönd; en suma hafði hann innanhirðar við sèr, ok var þat Eiríkr blóðöx, er hann[2] hugði at vera skyldi fyrir öllum sonum hans; ok hlýddu því allir, sem hann vildi vera láta, meðan hann lifði; en nú hefir Eiríkr frændi mjök marga þá luti látit vinna, er mikil óhæfa fylgir. Nú vil ek þess biðja yðr alla Þrændr, at þèr hyggit at því at styrkja ok styðja þann til landstjórnar, er hagfeldari væri landsbyggðinne, ok meirr lèti frændr sína hefjaz af sèr, ok alþýðu, enn hinn, er niðra vill landsbyggðinne. Vil ek ok því lýsa, at ek vil öllum mönnum upp gefa óðul sín öll, þeim er til mín vilja snúaz ok kalla mik konung". Margir menn mæltu sín í milli: „Nú bregðr kynliga við. Hèr er kominn

1) fylkia *a.* 2) *Faltes.*

Haraldr enn hárfagri, ok er nú orðinn ungr í annat sinn; en þá var hann gamall, er vær[1] sám hann síðast. Eðr hví mun gegna? eða mun hann eiga son nokkorn svá glíkan sèr, at eigi megi kenna hvorn frá öðrum — utan þat, at annarr er ungr, enn annarr[2] gamall, ok sá maðr gaf oss aftr föðurarf várn ok óðul með góðvilja, en faðir hans tók af oss með ofríki?" Nú mælti þat allr múgr, at þeir kvoðuz til konungs vilja yfir sèr þann er glíkastr veri Haraldi ok mestan goðvilja sýndi alþýðu, en kvoðuz aldri vilja Eirík yfir sèr — þann mann, er um útgarða færði frændr sína alla — eða Gunnhilde ok sonu hennar. Lýkr svá þinginu, at Hákon var til konungs tekinn. En er þetta spurðiz í annat fylki ok it þriðja, hver rèttarbót Þrændum var gefin: þá sendu menn orð til Hákonar konungs ok bjóðaz allir til þjónostu[3] við hann. En er hann var konungr vorðinn í Noregi, þá var þat samtíða, er Þorbjörn súrr ok synir hans rèðu fyrir í Súrnadal.

Nú er þat fyrst at segja, at Kolbeinn, er fyrr var nefndr, gerir sèr títt um kvámor til Þorbjarnar súrs ok þikkir þat mest gaman at tala við Þórdíse. Ok eigi líðr svá lengi fram, áðr aðrir leggja þeim þetta[4] til orðs. Ok svá er þetta í orðróm fært, at Þorbjörn faðir hennar verðr varr við, ok þikkir sem vera muni dagsatt. Talar hann þá við þá sonu sína, at honom þykkir þeirra vera at ráða bætr á slíku. Gísli kvað hægt at ráða bætr á því, er engi[5] mein voro á — „ok kveðr þú ekki þat, er þèr þikkir fjandskapr í, ef vèr mælum?" „Ek sè" kvat Þorbjörn, „at miklu er þetta meirr á lopt komit, enn nú stoði at drepa því niðr. Nú þykki mèr hitt miklu sannara, at þit[6] bræðr munut vera óhlutvandir; enda mun lítil karl-

1) ver *b.* 2) er *tilföier b.* 3) þionustu *a.* 4) „*þat*" *b.* 5) eingi *b.* 6) þið *a.*

mennska með yðr". Gísli mælti: „Gjör þú þèr ekki angr at[1], faðir! um kvámor hans; en ek mun ræða við hann, at hann láti af kvámom hingat". „Til slíks ertu glíkligastr" segir Þorbjörn „at fara með bónorði til hans, at hann láti af kvámom hingat, ok leggja þökk ok aufusu á, ok láta allvesalliga — en hafaz ekki at, þótt ekki sè látit at orðum þínum". Nú gengr Gísli frá í brott, ok hætta þeir feðgar tali þessu. Ok næst, er Kolbeinn kom þangat, þá leiðir Gísli hann á götu um kveldit, er hann fór í brott, ok ræðir við hann, at eigi vill hann kvámor hans lengr þangat — „því at faðir minn gerir sèr angrátt[2] um ferðir þínar; því at[3] þat er mál manna, at þú glepir Þórdíse systur mína; en föður mínum er þat ekki at skapi. Mun ek þat til vinna, ef þú vill fyrir mín orð gera, at ek vil færa þèr heim leika ok gleði". Kolbeinn mælti: „Hvat mun slíkt at ræða, er þú veizt at öngu[4] gegnir? Veit ek ekki, hvort mèr er þungligra, angrlynde föður þíns eðr eptirlæti við hann". Gísli svarar: „Ekki er þannig á at taka. Mun hèr ok svá fara, sem þar segir, at ek mun þat mest virða í þrautina, sem vill föður míns er. Nú þætti mèr[5] miklu skipta, at þú gjörðir þetta fyrir mín orð; ok áttu þá slíkt at mèr í annat sinn; en ek uggi, at oss líkí verr, ef þú vilt þverlyndi við hafa". Kolbeinn svarar fá um, ok skiljaz þeir við þat. Ferr Gísli heim, ok líðr nú svá um hríð, ok er nokkoru lengra milli um kvámor Kolbeins, enn verit hafði. Honum þykkir nú enn daufligt heima, ok ferr hann til Þorbjarnar. Ok einn dag, er hann var þar kominn, sat Gísli í stufu ok smíðaði, ok voro þeir þar allir feðgar. Þorkell var hinn kátasti við Kolbein, ok sátu þau þrjú á þverpalli, Þórdís ok[6] Þorkell ok Kolbeinn. En er á leið

1) *Jf. L. 11 nedenfor.* 2) *Jf. L. 2 ovenfor.* 3) *Udeladt i b.* 4) engu *b.* 5) þat *tilföiet i b.* 6) *Udeladt i b.*

85

daginn ok kvelda tók, þá standa þau upp og ganga[1] fram. Þeir voro eptir í stufunne feðgar, Þorbjörn ok Gísli. Þá tekr Þorbjörn til orða: „Ekki hefir þèr í hald komit bónríkit þitt. Er þat bæði, at meylig hefir vorðit[2] tiltekjan þín, enda ætla ek tvísýni á, með hvoru yðr skal heldr telja, bræðr, sonum eða dætrum. Nú er þat mikit at vita á gamals aldri, at eiga þá sonu, er ekki þykkir[3] meiri karlmennska yfir, enn þar sè konur aðrar, ok erut þèr ólíkir þeim bræðrum mínum Gísla ok Ara". Gísli svarar: „Ekki þarftu svá mikit af slíku at taka; því at vant er at vita, hverja[4] raun hverr gefr". Ok nennir Gísli nú ei lengr at heyra á hrakyrði hans ok gengr fram. Þeir ganga þá ór dyrunum út, Þorkell ok Kolbeinn; en Þórdís snýr þá til stofu. Gísli gengr út eptir þeim, ok gengu þeir nú allir samt. Enn vekr Gísli til við Kolbein, at hann lèti af kvámum. Hann kvaz ætla, at ekki[5] mundi af því verða. Gísli mælti: „Þá viltu lítils virða orð mín; ok manom vær þá verr leggja fèlagskapinn, enn ek hefði ætlat". „Ekki þykkjumz ek því valda" segir Kolbeinn. Gísli mælti: „Annathvort mun þó vera, at þú munt nokkors verða at virða orð mín, eðr ella vil ek sundr segja allri vináttu þeirri er með oss hefir verit". „Þú verðr því at ráða" segir Kolbeinn; „en ekki nenni ek at láta af kvámom mínum at[6] heldr". Gísli brá sverði ok hjó til hans, ok vannz Kolbeini þat at fullu. Þorkell lèt sèr mjök misboðit um verkit; en Gísli gengr heim í stufu. Þorbjörn spyrr, hversu gengit hafi þá bónríkit. „Þat vil ek kalla" segir Gísli, „at vel hafi gengit, fyrir því at þat mæltumz vèr nú við, er vèr skildum, at Kolbeinn mundi af láta af kvámom, svá at þèr yrði angr at því". „Þat mun því at eins"

1) gengu *a*. 2) orðit *b* 3) þicki *b*. 4) hv'a. 5) ei *b*.
6) *Udeladt i b*.

segir Þorbjörn, „ef hann er dauðr". „Láttu þèr þikkja[1] at betr" segir Gísli, „at þinn vili sè gerr um þetta mál". „Þá njóttu heill handa" segir Þorbjörn; „ok kann þá vera, at ek eigi ekki dætr einar barna.

Nú er at segja[2] frá Þorkeli, at hann unir ei heima, ok ætlar hann at ráðaz austr til Freyseyjar. Ok er hann kemr austr at Kilinom, til konungsbónda, er Sigurðr hèt — hann var ekki auðigr maðr, góðviljamikill við alþýðu; hann tók vel við Þorkeli, ok spurði, hví gegndi um ferðir hans. Þorkell segir, at hann ætlar á Kjöl. „Þar er sú för" segir Sigurðr, „er ek vildi at þú legðir eigi hug á, fyrir því at sú veitir nú mörgum þungt". „Hvat berr mest til þess?" segir Þorkell. „Ek veit þat eigi glöggt" segir Sigurðr; „en hitt veit ek þèr með sönnu at segja, at allir þeir, er færri fara saman, enn xij menn, þá hafa öngver aptr komit; en þeir menn, er með fjölmenni hafa farit, þá hafa við öngva[3] torfæru orðit varir". „Þá þykki mèr óvíst, hvat slíku veldr" segir Þorkell; „ok kann ek ekki at hnekkja för minne fyrir þat. Hitt vil ek * * *

* * * [4]taka þeir Gísli nú stórviðu ok færa í skipin, ok meiðiz hvat sem fyrir verðr. Vilja þeir þá frá leggja víkingarnir; en þeir máttu eigi á þeim skipunum, er við voro fest; hlaupa þeir þá af þeim skipunum ok í önnur, en sumir lupu á kaf; ok voro þau nú broðin, er við voro fest; en aðrir urðu því fegnir, er frá hèldu. Ok eptir þat flýðu víkingar, er eptir voro. En þeir Gísli tóku þar mikit fè ok hlóðu skipin; halda nú til lands eptir þat ok heim í Súrnadal. Eru þeir nú heima um hríð, ok þykkja[5] þeir enn mikit hafa vaxit í þessi ferð.

1) þikla *a.* 2) fega *b.* 3) einga *b.* 4) *Her er en Lacune, i a næsten 10, i b næsten 20 Sider.* 5) þiekia *b.*

Þenna vetr hinn sama gera þeir ferð sína bræðr norðan af Flúðunesi, Einarr ok Sigurðr, með nærr xl manna, ok fara til þess er þeir koma í Súrnadal um nótt. Þeir koma fyrst á Hellu til Bárðar ok tóku hús á honum; voro honum tveir kostir gervir — at hann mundi tekinn af lífi, eðr hann skyldi ráðaz í ferð með þeim, við þá karla, sem þar væri til. Bárðr kvat sèr vera vandalaust við Þorbjörn ok sonu hans — „Virði ek meira" segir hann „lífit; en fyrir þessu þikki mèr alls ekki". Ræðz hann síðan til ferðar við þeim með x menn. Voro þeir þá saman v tigir manna. Þeir koma á óvart til Stokka til Þorbjarnar; skipaði hann liði síno fyrir skála, en sumum fyrir stokkabúrit. Gísli hafði smíðat nokkorum vetrum áðr stokkabúrit, ok gert á þann hátt, at einnhvern stokkinn í öllum veggjonum hafði hann í sundr tekit, ok var miðkaflinn lauss, ok voro þeir utan í festir, en járnlykkjor innan slegnar, ok þar járnslár fyrir, ok þótti utan at sjá sem heilt veri. Veðri var þannig farit, at veðr var þykkt ok vindr hvass, ok stóð vindrinn framan á stokkabúrit. Þeir draga viðu bæði at skálanum ok stokkabúrino ok slá eldi í. En er þeir verða þess varir í stokkabúrino, lúka þeir upp hurðina; en sýruker var inni í búrino eðr stokkaker; þeir taka sýruna ok bera í eldinn ok slökkva. Nú taka þeir ok gera bálit mikit í annat sinn, hvörntveggja veg frá dyrunum[1] ok tekr [ brátt at festaz eldrinn[2] í viðinum. Þeir feðgar voro allir í stokkabúrinu, ok svá þær mæðgur, Ísgerðr ok Þórdís. Gísli ræðz þá frá dyrunum ok til gaflhlaðsins ok kippr[3] þar ór slánni ok hrindr út stokkinom, gengr síðan þar út ok hverr þeirra at öðrum; váro þar öngvir menn fyrir; því at allir gættu dyranna, at þar skyldi öngvir út komaz; en þessa varði þá eigi. Þau fylgja reyknum frá bænum á[4] brott, ok til skógar. En er þau

1) dyunum (forskrevet) b. 2) eldriñ bratt at festaz fra [ b. 3) Saal. 4) í b.

koma í skóginn, sjá þau heim, at skálinn logar ok bærinn. Þá kvat Gísli:

Hár leikr eldr yfir orum
(er bál mikit) skála;
gaukr mun Gauts af slíku
gladdr, en vargar saddir.
Reynda ek fyrr á fjandum,
faðir minn, af þraut þinne
(stofnaz styrjar efni)
[stinn járn um[1] sök minni.

Nú eru þau í mörkinne; en bærinn brennr[2] at köldum kolum. Ganga þeir bræðr ekki fyrr frá, enn þeir þikkjaz Þorbjörn hafa inni brennt ok sonu hans ok allt lið þeirra. Þat voro xxx manna, er inni höfðu brunnit í skálanum. Segja þeir bræðr þetta, hvar sem þeir koma — lát þeirra feðga. En þeir Gísli gerðu ekki vart við sik, fyrr enn hinir eru í brottu. Þeir afla sèr nú liðs á laun, ok síðan fara þeir um nótt til Bárðar, leggja eld í bæinn ok brenna upp allt saman ok mennina þá sem inni voro; fara heim eptir þat ok efna til bæjargerðar. Gísli hverfr í brott, ok veit engi maðr, hvat af honum [er vorðit[3]. En er vorar, kemr hann heim. Er þá snúit at þegar, ok selja þeir jarðir sínar á laun, en fjárlutrinn er færðr í brott. Þat var reyndar ætlan þeirra bræðra, at ráðaz brott ór Noregi; ok hafði Gísli því í brott horfit, at hann annaðiz um skipsmíð þeirra; ok ferr þetta svá af hljóði allt saman, at ráðabreytni sjá spyrst ekki fyrr, enn þeir væri[4] til skips komnir, xxx karla[5], ok konur at auk. Halda þeir nú síðan skipinu til hafs, ok leggja þar til hafnar einnar, undir eyjar nokkorar, ok ætla þaðan at bíða byrjar. Einn góðan veðrdag stíga

1) *Fra* [ *som eet Ord.* 2) brañ *b.* 3) verðr *fra* [ *b.* 4) *Saal.* 5) kalla.

þeir bræðr[1] á bátana; en x voro með kaupskipino, ok sínir x stigu á hvorn bátinn; var Þorbjörn eptir á skipi. Þeir Gísli róa norðr fyrir land ok stefna til Flúðuness; segir Gísli, at hann vill finna þá bræðr, áðr hann færi brott ór Noregi. Ok er þeir komu þar, þá frètta þeir, at þeir voro heiman farnir at landskyldum Hákonar konungs. Þeir Gísli snúa þá á leið fyrir þá, þar sem þeir áttu at fara, ok sitja fyrir þeim; en þeir bræðr voro xv saman; hittaz nú, ok varð þar harðr bardagi. Falla þeir Einarr ok Sigurðr þar ok allir förunautar þeirra, ok varð Gísli v manna bani, en Þorkell þriggja[2]. Gísli kvez eiga eyrinde heim til bæjarins. Gísli gengr nú heim til bæjarins ok inn í skálann, ok sèr, hvar Skeggi liggr — snýr at honum ok höggr af honum höfuðit. Þeir ræna þar öllu, ok fara at öllu sem hermannligast[3], ok taka lausafè þat allt, er[4] þeir komaz með; róa nú til skips síns; ganga síðan upp á eyna ok efla þar heit mikit ok heita til byrjar sèr, ok kemr byrr á. Láta þeir í haf ok ætla til Íslands. Þeir hafa útivist langa ok harða; sigla þeir fyrir norðan landit ok svá vestr fyrir Strandir ok síðan vestr fyrir Fjörðu; kvámo þeir skipi síno í Dýrafjörð, í Haukadalsós; bera þar af skipinu ok setja tjöld sín; ok spyrz brátt skipskváman[5]. Maðr hèt Þorkell, er bjó í Alviðru; hann var auðigr maðr ok ættstórr. Í Keldudal bjó sá maðr, er Þorkell hèt, ok var Eiríksson. Þá var byggt víðast[3] á Vestfjörðum. Þorkell Eiríksson seldi þeim Þorbirne land í Haukadal. — Byggt var áðr fyrir innan ána, ok er sá maðr Þorgrímr nefndr, er þar bjó, ok kallaðr nef. Upp í dalinn langt bjó sá maðr, er Þorkell hèt, ok kallaðr anmarki; hann var kvongaðr, ok hèt Þórhalla kona hans; hón var systir Þorgríms nefs. Þorkell anmarki fylgði at nafni síno; en Þórhalla bætti þó

1) „báðir" *tilföiet i b.* 2) iij *a.* 3) x *for st.* 4) sem *b.* 5) skipkomaū *a.*

hvergi um fyrir honum. Þau áttu son, er Þorsteinn hèt; hann var mikill ok sterkr. Í Meðaldal inn frá Haukadal bjó sá maðr, er Önundr hèt; hann var vel fjáreigandi ok skilríkr maðr. — Þeir feðgar húsa nú bæ sinn, Þorbjörn ok Gísli ok Þorkell.

Maðr er nefndr Bjartmárr. Hann kom út til Íslands í Arnarfirði, ok byggði bæ þann, er í Eyju hèt; þat er í Arnarfjarðarbotni. Bjartmárr var kvongaðr maðr. Helgi ok Sigurðr hètu synir hans. Gunnhildr hèt dóttir þeirra Bjartmárs; hón var fríð kona sýnum. Um sumarit eptir kom skip af hafi. Sá maðr er nefndr Vèsteinn, er skipit átti; hann vistaðiz um vetrinn með Bjartmári; hann gekk at eiga Gunnhilde dóttur hans. Vèsteinn var allra manna vápnfimastr. Þau Gunnhildr ok Vèsteinn áttu ij börn: son þeirra hèt Vèsteinn, en Auðr dóttir. Vèsteinn Vèsteinsson gerðiz fardrengr góðr, ok átti hann þó bú í Önundarfirði undir Hesti. Kona hans hèt Hildr. Bergr hèt son hans ok Helgi. Þá er þetta var tíðinda, andaðiz Þorbjörn súrr ok Ísgerðr kona hans. Þeir Þorkell ok Gísli tóko þá við búi eptir þau. Þorbjörn ok Ísgerðr voro í haug lögð í Haukadal. Litlu síðarr biðr Þorkell sèr konu. Þorbjörn hèt maðr ok var kallaðr selagnúpr; hann bjó í Tálknafirði, at Kvígandafelli. Þórdís hèt kona hans, en Ásgerðr dóttir þeirra. Þeirrar konu bað Þorkell Súrsson ok fekk hennar. Gísli bróðir hans bað Auðar, systur Vèsteins, ok fekk hana. Þeir búa nú báðir samt í Haukadal ok skiftu ekki fè með sèr at heldr, þótt þeir væri kvongaðir. Eitt vor er þat sagt, at Þorkell í Alviðru átti för suðr til Þórsnessþings, ok fylgðu þeir honum Súrssynir, Gísli ok Þorkell. Í Þórsnesi bjó þá Þorsteinn þorskabítr, sonr Þórólfs mostrarskeggja. Þorgrímr hèt son Þorsteins, en annarr Börkr digri. Þórdís hèt dóttir hans. Kona Þorsteins er nefnd

Þóra, dóttir Ólafs feilans, sonar Þórðar gellis. Þorkell lauk málum sínum á þinginu. Þorsteinn þorskabítr bauð Þorkeli heim ok þeim Súrssonum, ok gaf þeim góðar gjafir; ok áðr þeir skildu, bjóða þeir heim sonum Þorsteins vestr þangat annat vor til þings þeirra Dýrfirðinga. Líða nú þau misseri ok er allt tíðindalaust. Kemr nú annat vor, ok fara þeir heiman Þorsteinssynir, Þorgrímr ok Börkr, ok eru xvi saman. Koma þeir nú vestr til Valseyrarþings, ok hittaz þeir þar ok Súrssynir, ok bjóða þeir heim með sèr sonum Þorsteins af þinginu; en áðr höfðu þeir verit at heimboði Þorkels í Alviðru. Fara þeir nú heim með Súrssonum ok þiggja veizlu. Þorgrími líst væn Þórdís systir þeirra bræðra, ok hefir uppi[1] orð sín ok biðr hennar; ok því næst var hón föstnut Þorgrími, ok var þegar at boði setit, ok fylgði henni heiman Sæból, er þeir bræðr höfðu áðr búit á. En þeir Gísli ok Þorkell fara á Hól ok búaz þar fyrir. En Þorgrímr rèðz þá vestr þagat[2], ok býr hann á Sæbóli. En Börkr, bróðir hans, rèð fyrir í Þórsnesi, þá er Þorsteinn var andaðr, faðir þeirra; voro með honum systursynir hans, saka-Steinn ok Þóroddr.

Nú búa þeir í nágrenni mágar í Haukadal, ok er með þeim gott vinfengi. Þeir Þorkell ok Gísli húsa vel bæ sinn á Hóli, svá at þar er brátt ekki minne bær, enn á Sæbóli; þar liggja saman garðar, ok er vinfengi þeirra gott at svá búnu. Þorgrímr hafði goðorð, ok er þeim bræðrum at honum afli mikill. Nú fara þeir um várit til várþings, xl manna, ok voro allir í litklæðum. Þar var Vèsteinn, mágr Gísla, ok allir þeir Súrdælir. Gestr Oddleifsson var ok þar kominn til þings, ok var hann í búð með Þorkeli auðga ór Alviðru. Þeir sitja við drykkju Haukdælir; en aðrir eru at dómum, því at sóknarþing var. Þá kemr inn

1) up *b*. 2) „þangat" *a*.

í búð þeirra Haukdæla gassi mikill, er Arnórr hèt, ok mælti: „Allmikit er um yðr Haukdæli, er þèr gáit einkis, nema drekka, en þèr gangit eigi til dóma, er þingmenn yðrir eigu[1] málum at skipta, ok þikkir svá öllum, þó ek kveða upp". Þá mælti Gísli: „Göngum til dóma sem snarast[2]; kann vera, at þetta tali fleiri". Þeir ganga nú til dóma, ok spyrr Þorgrímr, ef nokkorir veri þeir þar, er þyrfti þeirra liðveizlu, „ok skal ekki eptir liggja þat er vèr megom at veita vorum mönnum; ok skulu þeir hvergi bera skerðan lut, meðan vèr[3] erum uppi". Þá mælti Þorkell auðgi: „Lítils eru mál þessi verð, er vær eigum við at skiptaz; en vèr manom yðr til segja, þegar vèr þurfum yðra liðveizlu". Nú finnaz mönnum orð um lið þeirra, hvè skrautligt var, ok um málsemd Þorgríms ok um skörungskap hans. Ok er menn koma heim til búða, þá mælti Þorkell við Gest enn spaka: „Hvè lengi ætlar þú at kapp þeirra Haukdæla eða yfirgangr muni vera svá mikill?" Gestr mælti: „Eigi munu[4] þeir allir samþykkir hit þriðja vor hèðan, er þar eru nú". En Arnórr var hjá þessu ok ljóp þegar í búð þeirra Haukdæla ok hermir þessi orð, er þeir Gestr höfðu við talaz. Gísli svarar: „Hèr mun hann mælt mál hafa, ok vörumz vær, at eigi verði svá þetta; því at Gestr er sannspárr um marga luti; ok sè ek ráð til þessa, at vær megum vel gera við þessu". „Hvert er þat?" segir Þorgrímr. „Vèr skulum binda þetta meirum fastmælum, enn áðr — vèr skulum sverjaz í fóstbræðralag". Þeim sýndiz þetta ráðligt, ok ganga síðan út ór búðinne á eyraroddann, ok ristu þar upp jarðarmen, svá at báðir endar voro fastir í jörðunne, ok settu þar undir málaspjót, þat er maðr mátti taka hendi til fals. Þar skyldu þeir nú undir ganga, Þorgrímr, Gísli, Þorkell, Vèsteinn. Ok nú vökva

1) eiga *b.* 2) z *for* st. 3) [?] *a.* 4) mano *b.*

þeir sèr blóð ok láta renna saman dreyra sinn í[1] moldu þeirri, er upp var skorit jarðarmenit í miðju, ok hræra allt saman; en síðan fellu þeir allir á knè, ok sverja at hverr skal annars hefna, sem hverr bróðir annars veri, ok nefndu öll goð í vitni. Ok nú er þeir takaz í hendr allir[2], þá mælti Þorgrímr: „Ærinn vanda hef ek, þótt ek gera þetta við Þorkel ok Gísla mága mína; en við Vèstein skyldir mik ekki til[3] at binda svá mikinn vanda" — ok hnykkir at sèr hendinne. „Svá munu[4] þá fleiri gera" segir Gísli, ok hnykkir sinni hendi; „skal ek við engan þann binda vanda, er ekki vill við Vèstein mág minn". Þikkir mönnum nú mikils um vert spámæli Gests. Þá mælti Gísli við Þorkel: „Nú fór sem mik varði, ok mun þeim nú þetta til nokkors koma um þetta". Nú fara menn heim af þinginu, ok er allt kyrrt ok tíðindalaust. Þá kemr skip af hafi þat sumar í Dýrafjörð, ok áttu bræðr ij norrænir; hèt annarr Þórir, en annarr Þórarinn, ok voro víkverskir menn. Þess er við getit, at Þorgrímr ríðr til skips ok kaupir at stýrimönnum cccc viðar ok gefr sumt verðit þegar í hönd, en sumt á frest. Setja þeir nú upp [skip sitt[5] austmennirnir í Sandaós ok taka sèr vist. Oddr er maðr nefndr ok var Örlygsson; hann bjó á Eyri í Skutulsfirði; hann tók við stýrimönnum báðum til vistar. Nú sendir Þorgrímr Þórodd son sinn at færa innan viðinn, ok bað hann telja ok vita við hverju hann tæki. Hann kemr nú inn til skipsins, ok þykkir honum nokkut annan veg um kaupit, enn Þorgrímr hafði honum sagt; vilja nú austmennirnir ekki þat halda, er þeir höfðu við keypz í fyrstu; ok mælti Þóroddr illa til austmannanna. En þeir stóðuz þat ekki ok vinna á honum ok vega hann þar.

1) *Gisning for* or; *jf.* 11[21]. 2) saman *tilföiet i b.* 3) *Udeladt i b.*
4) mano *b.* 5) skipit *fra* [ *b.*

Austmennirnir fara frá skipinu eptir þetta ok fá sèr hesta ok ætla til vistar sinnar í Skutilsfjörð. Þeir fara dag þann allan ok um nóttina, þar til er þeir koma í dal þann, er gengr af Skutilsfirði, ok hafa þar dagverð sinn, ok fara síðan leið sína. Þorgrímr spyrr nú tíðindi þessi, at sonr hans er veginn, en ógreitt um viðuna; býst hann nú heiman ok lætr flytja sik yfir fjörðinn; hann ferr nú eptir austmönnum einn saman, ok kemr at þeim þar sem þeir lágu ok svofu á áfanga. Hann vekr Þórarinn ok stingr á honum spjótskapti síno; hann hleypr upp ok vill taka sverð[1] sitt, því at hann kennir Þorgrím; enn Þorgrímr leggr þá spjótinu í gegnum hann. Nú vaknar Þórir ok vill hefna hans; en Þorgrímr leggr hann ok spjóti til bana. Ok heitir þar Döguróardalr, er þeir átu dagverð, en þar Austmannafall er þeir lètuz. Nú ferr Þorgrímr heim, ok verðr hann af verki þessu frægr; sitr í búi sínu um vetrinn. En um vorit búa þeir mágar skip þat, er austmenn höfðu átt, til utanferðar, Þorgrímr ok Þorkell, ok kasta á sinne eigu, ok ætla utan at fara. Austmenn þessir höfðu verit óeirðarmenn miklir í Noregi ok áttu þar óvært. Eptir þetta láta þeir í haf; ok þetta sumar et sama ferr Gísli utan ok Vèsteinn mágr hans í Skeljavík á Steingrímsfirði; ok láta hvárirtveggjo í haf. En Önundr ór Meðaldal rèð fyrir búi þeirra bræðra, Gísla ok Þorkels; en saka-Steinn fyrir búi þeirra Þorgríms, með Þórdíse konu hans, á Sæbóli. Hann var náfrændi Þorgríms.

Í þenna tíma rèð fyrir Noregi Haraldr gráfeldr. Þorgrímr ok Þorkell kvámu at norðr í Þrándheimi[2] ok hittu þar konunginn, gengu fyrir hann ok kvöddu hann; en hann tók þeim vel. Gerðuz þeir honum handgengnir. Varð þeim gott til fjár ok virðingar. Þeir Gísli voro úti meirr enn

[1]) ſpiot *b*. [2]) þrandheim *a*.

c dægra, ok sigldu um vetrnátta-skeið at Hörðalandi í miklu fjúki ok ofviðri á náttarþeli, ok brutu þeir skipit í spán, en hèldu fè síno ok mönnum. Maðr hèt skegg-Bjálfi; hann átti skip í förum ok ætlaði til Danmerkr. Þeir Gísli föluðu hálft skip at honum. En hann kvaz spurt hafa, at þeir voro góðir drengir, ok gaf hann þeim skipit hálft, ok launa þeir þegar meirr enn fullu í fjárlutum. Þeir hèldu nú suðr til Danmerkr, ok í þann kaupstað, er í Vèbjörgum heitir. Þar voro þeir um vetrinn, með þeim manni, er Sigrhaddr hèt; voro þeir þar iij saman fèlagar, Gísli ok Vèsteinn ok Bjálfi, ok var vingott með þeim ok mikit gjafavixl. Í þenna tíma var kristni komin í Danmörk, ok lètu þeir Gísli fèlagar primsignaz; því at þat var í þann tíma mikill siðvani þeirra manna, er í kaupferðum voro, ok voro þeir þá í öllu samneyti með kristnum mönnum. Um vorit snimma bjó Bjálfi skip sitt til Íslands. Sigurðr hèt maðr norrænn; hann var fèlagi Vèsteins ok var þá vestr í Englandi[1]; hann sendi þá[2] orð Vèsteini ok kvaz vilja skilja fèlag við hann ok þóttiz ekki[3] þurfa fjár hans lengr. Nú biðr Vèsteinn Gísla leyfis at fara at hitta hann; „því at ek á þar fjár at vitja". „Því skaltu þá heita mèr" segir Gísli, „at þú farir aldri síðan af landi, ef þú kemr nú aptr heill, nema ek leyfa þèr". Ok þessu játar hann. Gísli ríss upp snimma um morgininn ok gengr til smiðju; hann var manna hagastr ok gervastr at sèr um alla luti; Gísli smíðar silfrpenning, er stóð eyri; hann hnitar saman penninginn, ok voro í xx naddar; hann var í tveim hlutum, ok voro x naddar í hvorom lut, ok þótti sem heill væri, þá er saman var lagðr, ok mátti þó taka sundr í tvo luti. Gísli tekr nú í sundr penninginn ok selr annan lutinn

---

1) Eing- *for* Eng- *a*. 2) *Udeladt i b*. 3) ei *b*.

í hendr Vèsteini, en hann sjálfr hefir[1] annan; biðr þá þetta hafa til jartegna, ef nokkut geriz þat í, er þeim þykkir[2] máli skipta, „Ok skulum vit þá at eins sendaz í milli" segir Gísli, „ef líf annarshvárs liggr við; ok segir mèr svá hugr um, at vit manom þess við þurfa, at sendaz í milli, þótt við finnumz ekki sjálfir". Eptir þetta skiljaz þeir, ok ferr Vèsteinn til Englands[3], en þeir Gísli ok Bjálfi til Noregs. En um sumarit fóro þeir út til Íslands, ok hafði vorðit gott til fjár ok virðingar, ok skildu þeir vel sitt fèlag; kaupir Bjálfi nú hálft skipit at Gísla. Ferr Gísli vestr til búss síns, í Dýrafjörð[4], við xij. mann. Þetta sama vor bjoggu þeir skip sitt Þorkell ok Þorgrímr ok komu út þat sumar í Dýrafjörð ok sigldu þann sama dag í Haukadalsós sem Gísli hafði áðr inn siglt á byrðinge sínom. Hittuz þeir bræðr Þorkell ok Gísli, ok verðr þar fagnafundr mikill. Fara nú hvárirtveggjo heim til sinna eigna.

Þorkell Súrsson var skartsmaðr mikill ok ofláti ok vann ekki fyrir búi þeirra bræðra, en Gísli vann nótt með degi. Þat var einn góðan þerridag, at Gísli lætr vinna alla menn heyverk, nema Þorkel bróður sinn — hann var einn karla heima, ok hafði hann lagz niðr í eldaskála eptir dagverð ok sofnat. Eldhúsit var tírætt at lengð, en v faðma breitt; utan ok sunnan undir eldhúsinu stóð dyngja þeirra Auðar ok Ásgerðar, ok sátu þær þar ok saumuðu. Þorkell gengr þá þangat ok leggz niðr úti hjá dyngjunni. Ásgerðr tók til orða: „Veittu mèr Auðr" segir hón „ok sníð skyrtu Þorkeli bónda mínom". Auðr mælti: „Þat kann ek ekki betr enn þú; ok mundir þú mik eigi þess biðja, ef þú skyldir gera Vèsteine bróður mínom". „Eitt er þat sèr" segir Ásgerðr, „er tekr til Vèsteins; ok svá mun mèr

1) hefr *a*. 2) þick' *b*. 3) „Einglandz" *a*. 4) Dyraf:

þykkja[1] nokkora stund, ok meira ann ek honum, enn Þorkeli bónda mínom, þótt vit megim aldri njótaz". Auðr mælti: „Löngu vissa ek þat, hvat Þorkeli[2] var um þat ok hvè þat fór, ok ræðum vit ekki lengr um". „Þat þykki[3] mèr engi brigzl" segir Ásgerðr, „þótt mèr þykki[4] Vèsteinn góðr; en heyrða ek hitt sagt, at mjök opt fundnz it[5] Þorgrímr, áðr þú vart gefin heiman". Auðr mælti[6]: „Þar fylgðu öngvir mannlestir, ok tók ek engan[7] mann undir Gísla, svá at þar fylgði ósæmd; ok hættum þessu tali" segir[8] Auðr. Ok svá gera þær. Þorkell hefir nú heyrt hvert orð þat[9] er þær hafa mælt, ok tekr hann til orða: „Heyr undr mikil! heyr örlyge[10]! heyr mál mikit — manns bana, eins eða fleiri!" ok gengr brott eptir þat. Auðr tekr til orða: „Opt hlýtz illt af hjali kvenna, ok má þó vera hèr hljótiz í meira lagi[11] illt af, ok leitum okkr nú ráðs". Ásgerðr mælti: „Hugsat hefi ek mèr ráð, sem duga mun". „Hvert er þat?" segir Auðr. „Ek mun leggja hendr um háls Þorkeli bónda mínum, þá er við komum í rekkju í kveld, ok láta sem blíðast[12]; ok mun honum gangaz hugr við þat, svá at hann mun fyrirgefa mèr. Man ek ok segja honum, at þetta er sú lygi, at ekki gegnir, þó vit hafim þetta fleipat. En ef hann vill nokkot[13] á þessu halda, þá seg mèr annat ráð. Eða hvert ráð mantú taka?" segir Ásgerðr. Auðr mælti: „Skjótt mun ek þèr þat segja. Ek mun segja Gísla bónda mínom allt þat sem[9] ek á vant um at ráða, hvort sem þat er gott eðr[14] illt; kann hann þá ráð fyrir; því þat mun mèr bezt gegna". Um kveldit kom Gísli heim af verknaði. Þat var

1) þickia *b.* 2) þk: *a*, þork: *b.* 3) þicki *b.* 4) þicki *a.* 5) ið *a.*
6) „mæltu" *(forskrevet) a.* 7) ongan *a.* 8) *Tilföiet i Fölge Gisning.*
9) *Falles i b.* 10) aurlige *a*, aurlige *b.* 11) lægi. 12) z *for* st.
13) nockut *a.* 14) eða *b.*

vandi Þorkels, at hann þakkaði Gísla bróður sínom verkit; en nú gerði hann ekki þat, ok ekki orð mælti hann við Gísla. Þá gekk Gísli til Þorkels ok mælti: „Er þèr þungt, bróðir, er þú ert svá hljóðr". „Engar[1] eru sóttir á mèr" segir Þorkell; „en þó er þetta sótt verra". Gísli spyrr: „Hefi ek nokkut þess gert, bróðir, at þèr mislíki?" „Sá er engi lutr" segir Þorkell. „Vel þykki mèr þá þegar" segir Gísli; „því at þat vilda ek sízt, at okkr skildi á. En þó vil ek gjarna vita[2], hvat er[3] veldr ógleði þinni". Þorkell svarar: „Þess mantu víss verða, þó at[2] síðarr sè". Gengr Gísli nú á brott, ok fara menn í rekkjur um kveldit. Þorkell fór fyrstr í rekkju. En er Ásgerðr kom til rekkjonnar, þá tók Þorkell til orða: „Ekki ætla ek þèr hèr at rekkja í nótt" segir hann. „Hvat er annat sæmiligra" segir hón, „enn ek rekki hjá bónda mínom? Eðr[4] hví hefir svá skjótt skipaz hugr þinn? eðr hvat er til saka vorðit?" segir hón. „Veiztu sökina" segir Þorkell; „enda veit ek ok". „Hvat þarf slíkt at tala?" segir hón, „ok trú þú ekki á heimskutal vort kvenna; því at jafnan rausum vær þat" segir hón, „þá er vær erum einar, er lítill sannleikr fylgir; er ok þetta svá" segir hón. Ásgerðr leggr nú upp báðar hendr um háls honum ok lætr hit blíðasta ok biðr hann ekki trúa slíku. Þorkell biðr hana á brott fara. Ásgerðr mælti: „Þá skal ekki lengi þrá til þess, er þó skal ekki tjá. En kosti geri ek þèr tvá[5] — at þú lát[6] sem þetta sè ómælt, er við höfum geipat, ok legg engan[7] trúnat á þat, sem ekki er satt; hinn er annarr, at ek nefni mèr vátta nú þegar ok segi skilit við þik. Tek ek þá upp þat er mèr sýniz; má ok vera" segir hón, „at þá gefi þèr til at segja um sannan fjandskap[8]; en ek mun

1) ongr a. 2) *Falles i a.* 3) *Falles i b.* 4) eða b. 5) ij a. 6) lat' b. 7) aungañ a. 8) *Glsning for skap.*

föður minn láta heimta út mund minn ok heimanfylgju". Þorkell þagnar, ok mælti er stund leið: „Þat ræð ek, at þú smjúgir undir þar hjá stokkinom í nótt". Nú ferr hón í rekkju, ok semja þau mál sín sem ekki sè í orðit. Auðr kemr í rekkju hjá Gísla bónda sínom, ok segir honum ræðu þeirra Ásgerðar, alla saman, sem farit hafði, ok biðr af sèr reiði hans, ok biðr hann nú gefa til góð ráð, ef hann sæi nokkut til; „Því at ek veit víst, at Þorkell vill feigan Vèstein bróður minn, ef hann má ráða". Gísli mælti: „Eigi sè ek hèr ráð til þau er góð sè; en ek mun ekki þik um þetta ávíta, fyrir því, at mæla verðr nokkorr skapa-mál".

Nú líða þau misseri af hendi ok kemr at fardögum. Þorkell segir Gísla bróður sínom, at hann vill fè öllu með þeim skifta, ok vill fara til búlags með Þorgrími mági sínom. Gísli mælti: „Saman er bræðra eign bezt at sjá, bróðir; ok sè ek til aufusu-orð at við skiptim eigi". Þorkell svarar: „Fyrir löngu sá ek þat, at við erum ójafnt af því haldnir, er þú vinnr nótt með degi fyrir búi okkru[1], en ek kem til einkis". Gísli mælti: „Vel uni ek við þat, ok vil ek gjarnà at kyrrt sè". En engu kemr öðru við Þorkel, enn þeir skipti — „Skaltu hafa bólstað ór skipti ok föðurleifð okkra[2]" segir Þorkell, „fyrir því er ek beiði skiftis; en ek skal hafa lausafè". „Reynt höfum vit hvárttveggja[3], frændi" segir Gísli, at verit hefir fátt með okkr, ok hitt, at mart hefir verit; ok hefir þá hváromtveggja okkrom[4] betr tekiz, er okkat samþykki var meira; ok breytum eigi um þetta, bróðir" segir Gísli, „er vel ferr með okkr". „Eigi þarf um at ræða" segir Þorkell; „skipta skal fènu". „Þá gör þú, hvort er þú vill" segir Gísli, „at þú skipt

1) ockoru *b.* 2) ockar *b.* 3) t *for* tt. 4) ockorum *b.*

eða kjós; því át ek hirði eigi, hvort ek geri". Þá vil ek at þú skiptir" segir Þorkell. „Nú skiptir Gísli fènu; en Þorkell kýss meira lausafè til sín, en Gísli hlaut land. Ómegð var á fènu; þat voru börn ij; hèt sveinninn Geirmundr, en mærin hèt Guðríðr; þessi voro börn Ingjalds frænda þeirra; Guðríðr fór með Gísla, en Geirmundr með Þorkeli. Síðan fór Þorkell til Þorgríms mágs síns ok býr við hann; en Gísli býr eptir á Hólinum, ok saknar enkiss[1] í, at nú sè þar verra bú, enn áðr. Líðr nú á sumarit ok kemr at vetrnóttum. Gísli býr veizlu ok býðr þangat vinum sínum; vill hann hafa vinaboð ok fagna svá vinum sínum ok vetri; hann lèt af blótum öllum síðan hann var í Vèbjörgum með Sigrhadde. Þorkötlum báðum bauð hann þangat ok þeim mágum sínum, Bjartmárssonum. Ok þann dag er boðsmanna var von, býr Gísli hús sín. Þá tók Auðr húsfreyja til orða: „Nú þykki[2] mèr eins lutar á vant". „Hverr er sá?" segir Gísli. Auðr svarar: „Þess eins, at Vèsteinn bróðir minn er ekki hèr". „Þat er okkr eigi einn veg gefit" segir Gísli; „ek munda gefa til mikit fè, at hann veri eigi hèr, sem nú væntir ek".

Maðr er nefndr Þorgrímr nef; hann bjó á Nefstöðum fyrir innan ána; hann var fullr upp galdra ok gerninga; hann var ok seiðskratti. Þessum manni buðu þeir Þorgrímr ok Þorkell til sín, ok hafa þeir ekki minna boð enn Gísli. Þorgrímr freysgoði var maðr vel hagr á járn. Fara þeir nú iij saman, Þorgrímar ij ok Þorkell; þá tekr Þorkell brotin af Grásíðu; því at hann hafði þau hlotit ór skipti þeirra bræðra; Þorgrímr gerði þar ór spjót, ok var spjótit algert at kveldi ok í hepti fært; var spjótit mikit; var skeptit langt at spjótinu. Ok er þetta var tíðinda, þá kemr Önundr ór Meðaldal ok til Gísla, ok bregðr honum

1) einkiss b. 2) þicki b.

á eintal einum saman, ok segir honum, at Vèsteinn mágr hans er út kominn ok heim undir Hest til búss síns, ok þat með, at hans er þangat von um kveldit. Gísli kvaddi þá húskarla sína ij Hallvarð ok Hávarð, ok biðr þá fara sendiför sína norðr í Önundarfjörð „ok hitta Vèstein mág minn; mèr er sagt, at[1] hann sè heim kominn; ok skulu þit honum bera kveðju mína, ok þat með, at hann sitì heima kyrr, þar til er ek kem at sækja hann heim, ok ek vil ekki at hann komi til boðs þessa". Gísli selr þeim í hendr skauta, ok þar í silfrpenning hálfan til jartegna, ef hann tryði ekki elligar sögu þeirra. Nú fara þeir húskarlarnir, ok hafa skip ór Haukadal, ok róa til Lækjaróss, ganga þar á land ok hitta bónda þann er Bessi hèt; en bærr sá heitir á Bessastöðum, er hann bjó; honum sendi Gísli orð til þess, at ljá þeim hesta ij, er hann átti, er hètu Bandvettir; þeir voru hestar skjótastir í fjörðunum; hann lèði hestana ok stigu þeir á bak ok riðu þar til er þeir komu á Mosvöllu; ríða síðan inn í fjörðinn. Í þenna tíma var Vèsteinn heiman farinn, ok var kominn undir melinn á Mosvöllum ok svá til Holts; en húskarlar riðu it[2] efra, ok faraz þeir svá hjá. Þorvarðr hèt bóndi, er bjó í Holti; húskarlar hans deildu um verk ok hjogguz með ljám ok særðuz mjök; þá kom Vèsteinn til[3] ok sætti þá, svá at hváromtveggja líkaði vel; síðan ríðr hann út til Dýrafjarðar ok austmenn ij með honum. En húskarlar koma undir Hest, ok frètta[4] þar til ferða Vèsteins, at hann er heiman farinn; snúa þeir nú aptr sem þeir mega skjótast[5]; ok er þeir koma á Mosvöllu, sjá þeir manna-reið eptir miðjom dalnum, ok var þá leiti milli þeirra; ríða þeir nú upp eptir dalnum; ok er þeir koma á Arnkelsbrekku, sprungu báðir hestarnir; en húskarlar renna þá af fram

1) *Fattes i b.* 2) et *a.* 3) at *b.* 4) frefta (*forskrevet*) *b.* 5) z *for st.*

ok kalla. Þat heyra þeir Vèsteinn; voro þeir þá komnir á Gemludalsheiði; nú bíða þeir Vèsteinn þar til er hinir koma eptir. En er þeir hittaz, bera húskarlar upp erindi sín ok sýna honum nú jartegnir. Hann tekr þá annan penningslutinn ór pusi[1] sínom ok leggr saman hlutina ok roðnar á at sjá: „Satt eitt segi þit" kvat hann, „ok munda ek aptr hafa horfit, ef þit hefðit mik [fyrr fundit[2]; en nú falla vötn öll til Dýrafjarðar, ok mun ek nú þangat ríða; því at ek em fúss at hitta mág minn ok systur; hefir mjök langt orðit funda í milli; en austmenn skulu aptr hverfa. Þit skolut hafa leið ena skemmstu, er þit erut í göngu, ok segit Gísla ok systur minni þangatkvámo mína; ætla ek þar at koma at heilum mèr". Nú fara þeir yfir fjörð ok koma á Hól ok segja Gísla allt sem farit hafði um ferð þeirra ok at Vèsteins er þagat[3] von. Gísli mælti: „Svá verðr þá at vera". Vèsteinn ríðr nú et iðra um Dýrafjörð; en húskarlar höfðu skip, sem fyrr var sagt, ok urðu þeir miklu skjótari. Vèsteinn kemr til Luku frændkonu sinnar í Lambadal; þat er innarla í firðinom; hón lèt flytja hann yfir fjörð, ok mælti hón við hann: „Vertu varr um þik, frændi! þurfa mantu[4] þess". Hann kvað vel mundu til duga. Síðan var hann fluttr til Þingeyrar; þar bjó sá maðr, er Þórhallr hèt; Vèsteinn gekk þar til húss, ok lær hann honum hest. Vèsteinn hafði allt söðulreiði sitt ok reið við hrynjandi[5]; hann hafði ok sitt söðulklæði. Þórhallr fylgir honum til Sandaóss ok býðr at fylgja honum allt til Gísla. Vèsteinn kvat þess eigi þurfa. Þórhallr mælti: „Mart hefir síðan skipaz í Haukadal er þú vart þar næst, ok vertu varr um þik". Skiljaz þeir nú við þetta.

Vèsteinn ríðr nú þar til er hann kemr í Haukadal,

1) pusi *b*. 2) fundit fyR *fra* [ *b*. 3) „*þangat*" *a*. 4) *muntu a*. 5) hrynlandi.

ok er á heiðviðri mikit ok tunglskin. En þat var tíðinda á Sæbóli um kveldit at Þorgríms, þá er hann ríðr þar um tún, at þau bundu inn naut, Geirmundr, frændsveinn Gísla ok Þorkels, er fyrr var getit, ok með honum kona sú er Rannveig hèt; básar hón nautum, en hann rekr at henni; ok er þau eru at þessu verki, ríðr Vèsteinn þar um tún, ok hittir Geirmundr hann. Geirmundr mælti: „Kom þú eigi hèr á Sæból; far til Gísla ok ver varr um þik". Rannveig gekk í þessu út ór fjósinu ok hyggr at manninom, ok þykkiz kenna, því at hón hafði jafnan sèt Vèstein. Ok er þau höfðu nautin inn bundit, þá þrættu þau um þetta, hverr maðrinn hefir verit, ok ganga við þat heim. Þeir Þorgrímr ok Þorkell sitja við eld, er þau koma inn, ok spyrr Þorgrímr, ef þau hefði nokkot manna hitt, ok um hvat þau þrætti. Rannveig mælti: „Ek þóttumz kenna, at Vèsteinn reið hèr um tún, ok var í blárri kápu ok hafði spjót mikit í hendi ok rekit[1] við hrynjandi[2]". Þorgrímr mælti: „Hvat segir Geirmundr til?" „Ógerla sá ek" segir hann; „en þat hugða ek, at væri húskarl Önundar ór Meðaldal, ok veri í kápu Gísla, en riði hesti Önundar bónda, ok hefði í hendi fiskastöng ok aurriðanet á stöngunum". „Nú mun ljúga annat tveggja" segir Þorgrímr; „Far nú á Hól, Rannveig[3], ok vit, hvat þar er komit manna". Hón[4] fór nú ok[5] kom til dura. Þá var Gísli í durom úti, ok heilsaði henni ok bauð henni þar at vera; en hón kvez heim skyldu. „Hvat er at eyrendum[6]?" segir hann. „Ek vildi hitta Guðríðe mey" segir hón. Gísli kallar á hana; ok varð ekki at eyrendum[7], er hón kom út. Rannveig mælti þá við Gísla: „Hvar er Auðr húsfreyja?" „Hèr er hón" segir Gísli „inni í dyrunum. Hittu Rann-

---

1) rek̄. 2) hryniandi b, hryniandi a. 3) rañveg a. 4) hun a.
5) Falles i b. 6) eyrindum a. 7) erindū a.

veigu, Auðr" segir hann. Auðr gekk út ok hittir Rannveigu[1], ok spyrr, hvat hón vill. En hón kveðr vera smá erindi, ok kömz ekki upp. Gísli bað hana gera annathvort — vera þar eða fara heim ella; „því at nú er svá komit kveld, at þú þarft ekki at fara síðarr ein saman, þótt leið sè skömm". Hón fór nú heim ok var hálfu heimskari enn áðr; kunni hón engi tíðindi at segja nè mannakvámor. Um morgininn eptir lèt Vèsteinn bera at sèr töskur, er varningr hans var í[2] ok hann hafði þeim Hallvarði fengit í hendr með at fara. Vèsteinn tók þar ór refil LX ok höfuðdúk twítogan ok ofit í glit af gulli í þrim stöðum; hann tók ok þar ór upp munnlaugar ij, fáðar af gulli; þessa gripi bar hann fram ok gaf systur sinne höfutdúkinn; en þeim Gísla ok Þorkeli munnlaugarnar ok refilinn, ef Þorkell vildi þiggja. Síðan gengr Gísli ofan á Sæból, ók Þorkatlar ij með hönum, at hitta Þorkel bróður sinn; segir Gísli nú, at Vèsteinn er þar kominn til hans, ok sýnir hann Þorkeli gripina, ok segir, at þeim eru gefnir báðum gripirnir, ok bað hann við taka. Þorkell segir: „Þess ertu verðr, at þú hafir einn alla, ok vil ek eigi þiggja; eru ok ekki launin sýnne enn svá af minni hendi". Ferr Gísli nú heim, ok vill Þorkell ekki þiggja gripina.

Þat verðr til frásagnar at boðinu á Hóli at Gísli lætr illa í svefni ij nætr í samt; hann vill eigi segja, hvat hann dreymdi; ok síðan fara menn [it þriðja kveld í rekkjur[3]. En er menn höfðu sofit svefn, kemr bylr á hurð, ok svá mikill, at þegar tekr af skálanum þakit öðrum megin, ok hverr at öðrum þar til er allt er þakit af húsinu; vatnfall fylgði hèr ok svá mikit ór lopti, at þat var ekki með minnum fádæmum. Gísli sprettr upp ok heitr á menn sína ok biðr þá duga sem bezt. Þræll sá var með Gísla, er

1) Rañvegu *a*. 2) *Fattes* í *a*. 3) í reckīō ið þriðia qvellð *fra* [ *a*.

hèt Þórðr hinn[1] huglausi; hann var mikill maðr vexti, nærr því sem Gísli. Gísli ferr nú ok fólkit til heyja sinna ok vill duga þeim at. Vèsteinn býðz at fara með þeim; en Gísli vill þat eigi. Þrællinn, Þórðr, liggr ok inni; því at hann þorði ekki út at ganga í fárviðri slíku sem var. Ok nú er mest drjúpa húsin, þá snúa þau rekkjum sínom Vèsteinn ok Auðr ok horfa þá um endilangt setit; en allir menn voro þá farnir ór eldaskálanum[2], nema þau Vèsteinn, Auðr ok Þórðr þræll. Ok litlu fyrir lýsing er gengit inn í eldaskálann ok þar gagnvart[3] er Vèsteinn hvílir; ok er hann þá vaknaðr; ok er þegar lagt á honum spjóti fyrir bringspöluna ok þegar í gegnum hann. Vèsteinn mælti þetta við, er hann fekk lagit: „Við hneit þarna" segir hann, ok spratt upp við, er hann fekk lagit; fèll hann þegar fram á gólfit, ok var þegar dauðr, sem glíkligt var. Þar næst gekk maðrinn út; en Auðr vaknar við þetta, ok sèr, hvers efni í eru. Nú kemr at Þórðr enn huglausi, ok mælti hón við hann, at hann skyldi taka vápnit ór undinne; en þat var þá mælt, at þeim manni væri skylt at hefna þess, er veginn var, er vápnit tæki í[4] brott ór undinni; ok voru þat þá köllut launvíg, en eigi morð, ef þannig var gert; en Þórðr var svá líkblauðr, at hann þorði hvergi[5] nærr at[6] koma, þegar hann vissi, hversu háttat er. Þá kom Gísli inn, ok mælti við þrælinn, at hann láti vera kyrrt; gekk Gísli þá til ok tók í brott spjótit ok kastaði í örk eina alblóðgu ok lèt öngan mann sjá; hann settiz síðan niðr á stokk, ok lèt búa um líkit sem þá var siðr til, ok þykkir[7] Gísla allmikill skaði at honum ok svá fleirum öðrum. Þá sendi Gísli Guðríðe fóstru sína til Þorgríms á Sæból, ok kvez henni bezt til trúa, ok skyldi hón vita,

1) eñ *b*. 2) ſkalanū ellða (*begge*). 3) gagnvt. 4) *Falles i b*. 5) eigi *b*. 6) at at *a*. 7) þick' *b*.

hvat menn hefðiz þar at, „ok seg mèr sem glöggligast[1] frá háttum manna eða athæfi". Eptir þat ferr hón á Sæból. Þeir voro þá upp risnir, er hón kom þar, ok sitja þeir með vápnom sínom. Þar voro Þorgrímar ij ok Þorkell. Þeir spyrja hana tíðinda; en hón segir víg Vèsteins eðr[2] morð. „Tíðindi mundu oss þat þótt hafa" segir Þorkell. Þorgrímr mælti: „Til þess erum vær skyldir at gera virðuliga útför Vèsteins ok koma til at heygja hann. Vær manom þar koma í dag". Eptir þat ferr hón heim, ok segir, at Þorgrímr goðe sat við hjálm ok sverð ok öllum herbúnaðe, er hón kom inn; en Þorgrímr nef hafði bolexi í hendi; Þorkell hafði sverð í hendi, ok brugðit til miðs; ok allir menn voro þar á fótum, er hón kom. Eptir þetta býst Gísli at heygja Vèstein mág sinn með allt heimalið sitt, ok ætlar at heygja hann í sandmel þeim, er inn horfir at seftjörninne fyrir neðan Sæból; ok er þeir voro á leið komnir með líkit, fara þeir Þorgrímr við marga menn til fundar við þá. Ok er þeir hafa gert hauginn, gengr Þorgrímr goði at Gísla ok mælti: „Þat er nú siðr, mágr" segir hann „at binda helskó at fótum mönnum, áðr í haug eru lagðir" — því at þat var þá mælt, at þeir skyldi til heljar fara, þá er hann væri dauðr; er þat því mælt, at maðr þykki til heljar búaz, sá er sik klæðir mjök, þá er hann gengr út, eðr klæðir sik lengi —; „nú mun ek þetta gera við Vèstein" segir Þorgrímr, „at binda helskóna á fætr honum". En er hann hafði því verki lokit, þá[3] mælti Þorgrímr: „Ekki kann ek helskó at binda, ef þessir losna". Nú setjaz þeir niðr á grundina, ok talaz við fyrir utan hauginn, er þeir höfðu lokit verkino. Gísli frèttir eftir, ef nokkorr þættiz vita, hverr þetta verk hefði unnit; ok láta allir úglíkliga við því, at þar viti nokkot[4] til, hverr þenna

1) z *for* st. 2) eða *b*. 3) *Falles i b*. 4) nockut *a*.

glæp hefir gert. Þá mælti Þorkell við Gísla bróður sinn: „Hversu berz[1] Auðr af um bróðurdauðann? Hvort grætr hón nokkot[2]?" — Auðr hafði ekki farit með líkino. — Gísli svarar: „Vita mantu[3] þykkjaz þat — hón berz af vel, en þykkir þó mikit. Draum dreymdi mik í nótt" segir Gísli, „ok svá hina fyrri nótt; en eigi vil ek á kveða, hverr verkit hefir unnit; en á sama hæfi ek um draumana". „Hvat dreymdi þik?" segir Þorkell. „Þat dreymdi mik" segir Gísli „ena fyrri nótt, at af bæ einum hrökktiz höggormr ok hjoggi Vèstein til bana. En í nótt dreymdi mik, at vargr rynni af enom sama bæ ok beit Vèstein til bana. En því sagði ek hvorigan[4] drauminn fyrr en nú, at ek vildi gjarna, at hvorngi rèði". Þá kvat Gísli vísu:

24 Betr hugðac at bngðe
biðkat ec ðrams[5] ens þriþia[6]
ſliks meþ ſvefn oc voktum
ſarteina Veſteine
þa e'[7] vær i ſal ſatum
ſigur haððz ȷ̆ mioð glaðð'
komz þ'[8] ei maðr a mille[9]
min eða hans at vine.

Enn spyrr Þorkell, hversu Auðr bæriz[10] af ũm bróðurdauðann — „hvort grætr hón[11]?" „Títt spyrr þú ens sama, bróðir" segir Gísle, „ok er þèr mikit um at[11] vita þat". Hann kvað þá vísu:

25 Hylr a lan[12] unð[13] line
lin̄vengıs ſcap qvin̄a[14]
grið'[15] leGs or goðum
geſn alkerū[16] ſvefna

1) berzt *a.* 2) *nockut a.* 3) muntu *a.* 4) hverigan *b*, hv'igan *a.* 5) ðraums. 6) þrıðia. 7) er. 8) þar. 9) milli. 10) berðiz *(urigtigt) b.* 11) *Fattes i a.* 12) laun. 13) með. 14) qvinna, 15) griðar. 16) aulkerum.

eik ber angri lauk[r]
eiriks bra geira broðr[1]
ðaug[2] a bæði
bliþ aundugi[3] ſiþ[4]

Ok enn kvað hann:

25 Hrynia lætr af hvitū[5]
h[r]ymſcógi gna bogar
hraūſyliungū[6] hyliar
hlatr bañ i kne ſvaña
huetr[7] eñ þreyr þeſsum[8]
þaugn[9] at mærð[r][10] raugne[11]
ſnaka tuns af ſinu
ſion herſis baul[12] grono.

Ganga þeir nú heim eptir þetta. Þá mælti Þorkell, áðr þeir skildu: „Tíðindi hafa hèr gerz mikil, ok manu[13] þèr vera, Gísli frændi, nokkoru[14] meiri harmtíðinde enn oss; ok verðr þó hverr með sik sem lengst at fara; nú vilda ek, at þú lètir þetta eigi svá mjök á þik bíta, ok tækim vær upp leika, sem vær erum vanir". „Þetta er vel mælt" segir Gísli, „ok vil ek þetta gjarna, ok þó með þeim hætti, ef nokkot[15] berr þat síðan til á þinni æfi, er þèr þykkir[16] eigi minna, enn mèr þetta, vil ek, at þú gerir þat þannig, at þú látir þat ekki á þik bíta". Ok því heitr Þorkell Gísla bróðor sínom. Síðan fara þeir heim hvárirtveggjo, ok er drukkit erfi eptir Vèstein; en[17] síðan ferr hverr heim til síns heimilis, ok er nú allt kyrrt ok tíðindalaust. Svá er sagt, at illviðri því hinu[18] mikla hefir valdit Þorgrímr nef, með göldrum sínom ok gerningum, ok framit til seið, at nokkorn veg yrðe þess, at þat færi gæfiz á

1) broður. 2) ðauG. 3) aunðugi. 4) ſiðan. 5) hvitum. 6) hrauñſyliungum. 7) hvetr. 8) þeſſum. 9) þaugn. 10) mærðar. 11) raugne. 12) baul. 13) mano *b*, munu *a*. 14) nockuru *a*. 15) nockut *a*. 16) þick' *a*. 17) *Fattes t b*. 18) eno *b*.

Vèsteini, at Gísli væri ekki[1] við staddr; því at þeir treystuz eigi á hann at ráða, ef Gísli væri hjá. En Þorgrímr freysgoði fór síðan til verksins, ok vo Vèstein, eptir því sem áðr var sagt.

Eptir þetta tókuz upp leikar ok gleði með þeim mágum, svá sem ekki hefði í gerz; ok er þeim mágum skipat at leikaz í móti, Þorgríme ok Gísla; ok urðu menn ekki á sáttir, hvorr sterkari var; en þat ætla flestir, at Gísli sè aflameiri. Þeir leika á seftjörninne knattleikinn, ok ferr mart manna til leiksins; því at þat þótti þá mikit gaman. Ok einn dag, er flest manna kom þar, þá ræddi Gísli, at menn skyldi skipta jafnliga til leiksins. „Þat viljom vèr víst, at svá sè" segir Þorkell; „ok þat með, at þú sparir nú ekki[1] af við Þorgrím; því at þat leikr orð á, at þú sparir jafnan af; en ek ann þèr vel, at þú fáir af sæmd ok virðing, ef þú ert sterkari". „Ekki höfum vit þat reynt" segir Gísli; „en vera má, at þar komi, at við[2] reynim". Þeir leika nú um daginn, ok hefir Þorgrímr víst eigi við, ok fellr hann drjúgum; berr Gísli ok út knöttinn. Þá leypr Þorgrímr at honum, ok lætr hann [ekki því[3] ná. Gísli fellir hann þá við svellinu, svá at af honum gengu knúarnir, en blóð stökk ór nösonum; ok stóð hann seint upp, ok varð honum stórum illt við fallit. Þorgrímr leit þá til haugsins Vèsteins, ok mælti þetta við:

Geirr í gumna[4] benjom
gnast; kann-at ek þat lasta.

Gísli tók þá upp knöttinn á skeiðinu, ok hleypr at Þorgrími ok rekr knöttinn milli herða honum, svá at hann fèll við ok kastaði fótonum fram yfir höfuðit. Gísli mælti þetta við:

---

1) el *b.* 2) v̇ *a.* 3) þvi ė *fra* [ *b.* 4) gūna.

26 Böllr á byrðar stalli
brást; kann-at ek þat lasta.

Þá hleypr Þorkell at ok mælti: „Nú reyndi, hverr sterkastr var ok mestr atgervimaðr, ok hættum nú leikunum". Ok svá var gert. Takaz nú af leikarnir, ok líðr nú af vetrinn, ok svá líðr sumarit allt til hausts.

Þetta haust it sama vill Þorgrímr hafa inni vinaboð at vetrnóttum ok fagna vetri ok blóta Frey. Þangat bauð hann Berki bróður sínom ok Eyjólfe syni Þórðar gellis — hann bjó þá í Otradal — ok mörgum öðrum stórum höfðingjum. Gísli hafði ok veizlu búit, ok bauð hann þagat[1] mágum sínom í Arnarfirðe[2], ok Þorkeli hvárumtveggja[3], hinom auðga, ór Alviðru, ok Eirekssyni, ór Keldudal; ok skorti þar eigi lx manna. Drykkja skyldi vera at hvárotveggja boðino, ok var stráð gólfit á Sæbóli með sefinu af tjörninne, er unnin hafði verit um sumarit. Þorgrímr tók til orða, er þeir skyldu búa húsin: „Þar í milli þótti mèr vera, Þorkell" segir hann, „hvort þú þægir gripina, er Vèsteinn gaf ykkr bræðrum báðum, eða hitt, at þú hefðir[4] aldri". „Allt kann sá er hóf kann" segir Þorkell; „ok kemr hèr nú at því; af því at eigi mun ek fá menn til þess at senda eptir gripunum". „Ek skal þat gera þá" segir Þorgrímr — „ok far þú, Geirmundr, ok sæk gripina". „Vinna mun ek annat" segir hann, „en láta vera þat kyrrt". Þorgrímr hleypr at honum ok gefr honum kinnhest: „Far þú nú, ef þèr er nú værra[5]". „Nú skal fara" segir Geirmundr, „þótt nú sè verra. En vittu þat, at ek skal fá þèr fyljo, þar er þú fekkz mèr nú hestinn". Geirmundr ferr nú á Hól, ok eru þau Gísli búin at festa upp refilinn. Hann segir Gísla allt sem farit hafði með

1) þangat *a.* 2) Ararf: (*forskrevet*) *b.* 3) hvarotveggia (*forskrevet*) *b.*
4) þat *tilföier b.* 5) *Gisning*; vera *b*, uera *a.*

þeim Þorgrími. Þá spyrr Gísli Auði: „Hvort viltu ljá þeim gripina?" Auðr svarar: „Ekki spyrr þú þessa af því, at þú vitir eigi áðr, at hvorki vilda ek gera þeim þetta til gagns nè annat". Gísli spyrr Geirmund: „Hvort vildi Þorkell bróðir minn at lèð veri gripanna?" „Þat ætla ek" segir Geirmundr, „at hann vildi, at þú lèðir". Þat skal þá eitt ærit til" segir Gísli, ok tekr þegar gripina ok selr honum. Gísli gengr á leið við honum, er hann ferr heim, ok segir honum svá, at hann [þykkiz hafa góða[1] gert hans för — „Ok vilda ek nú, at þú gerðir minn vilja; ok kemr hèr at því sem mælt er, at æ sèr gjöf til gjalda[2]. Nú vil ek, at þú látir lokur frá hurðum í kveld". Geirmundr mælti: „Mun þá við engu hætt Þorkeli frænda mínom?" „Við engu skal honum hætt vera" segir Gísli. „Þá skaltu til ætla" segir Geirmundr, „at þetta skal til leiðar komaz". En er Geirmundr kemr heim, kastar hann á gólfit gripunum. Þorkell mælti: „Ólíkr er Gísli bróðir minn öðrum mönnum at þolinmæði sinne; því at þessu[3] mundu engir nenna, at ljá nú gripina, þannig sem hann er áðr beiddr; ok hefir hann miklu betr enn vær; því at þessa þurftum vær nú mest, at gripirnir kvæmi". Láta þeir nú upp koma refilinn um kveldit, ok búaz allvel um. Um kveldit var á útsynningsveðr ok snæfall mikit; ok er náttar, fellr í logni ok drífr í stigu alla. Börkr ok Eyjólfr komu um kveldit með lx manna; ok er þar á búi c manna, en at Gísla er hálft c manna. Um kveldit tóku menn til drykkju á Hóli, ok fóro menn í rekkjur eptir þat. Ok er þau hjón kvámo í hvílu sína, tekr Gísli til orða: „Þat er satt, at ek hefir ekki gefit hesti Þorkels hins auðga; ok gakk þú með mèr, ok lát loku fyrir hurðina, ok vak, meðan ek er brottu, ok lát

---

1) þickiz goða hafa *fra* [' *b.* 2) giallðz *b.* 3) þessa *b.*

þá frá lokuna, er ek kem aftr". Hann tekr upp spjótit ór örkinne; því at þat hafði þar legit, síðan hann tók ór sárinu Vèsteins. Gísli var í blárri kápu ok skyrtu ok línbrókum ok skúo[1] á fótum. Hann gengr út, ok til lækjar þess, er fellr hjá húsum; hann veðr eptir læknum til götu þeirrar, er lá til hins neðra bæjarins[2], ok ferr hann svá til húss. Gísli hafði smíðat hæ Þorgríms. Hann gengr til fjóss, ok þar inn, ok er mart nauta inni; hann bindr saman alla hala á nautonum; en xxx stóðu hváro megin; hann lýkr aptr nú fjósinu, ok býr svá um, at eigi má innan upp lúka. Síðan gengr hann til bæjarins ok at útidyrum, ok er ekki loka fyrir hurðu; hann gengr inn, ok byrgir aptr hurðina, ok síðan í skálann. Hann hyggr at, hvort menn sofi, ok verðr hann þess varr, at flestir menn sofa; síðan vindr hann saman sefit ok kastar í ljósit þat er næst honum var ok slökkvir þat; en iij brunnu ljós í skálanum. Hann stendr þá kyrr ok hyggr at, hvort menn bregða nokkot[3] við, ok finnr hann þat ekki. Þá tekr hann upp visk aðra, ok kastar til þess ljóss, er þar var næst, ok slökkvir þat. Þá sèr hann, at ungs manns hönd kom á hit[4] innsta ljósit ok slökkvir þat; ok var þat Geirmundr frændi hans. Gísli gengr nú innar eptir skálanum, ok til lokrekkju þeirrar, er þau Þorgrímr ok Þórdís hvíldu í, systir hans; ok var lokrekkjuhurðin hnigin aftr. Síðan gengr Gísli upp í lokrekkjuna ok þreifaz fyrir; hann tekr á brjósti hennar, ok hvílir hón nærr stokki. Þórdís mælti: „Hví var hönd þín svá köld, Þorgrímr?" — ok hugði hón, at hann hefði lagt yfir hana. Gísli vermir þá hönd sína í serk sèr, ok stendr þar meðan[5] í hvílugólfinu; ok nú þreifar hann upp á háls Þorgrími, ok vekr hann. Gísli tók þá annarri hendi af honum klæðin, en annarri hendi

1) skuo. 2) bæarins b. 3) nockut a. 4) it a. 5) með b.

leggr hann spjótinu í gegnum[1] hann ok í beðinn niðr; ok þá kallar Þórdís: „Vaki menn í skálanum; veginn er Þorgrímr bóndi minn". Gísli snýr þá í brott skyndiliga; ferr hann til fjóssins ok gengr þar út sem hann hafði ætlat sèr, ok lýkr síðan aptr rammliga, svá at þar mátti eigi út komaz. Ferr hann nú aptr hina sömu leið, sem hann fór þangat; ok má ekki[2] sjá spor hans. Auðr hefir ok tekit loku frá hurðinne, er hann kemr heim; gengr hann inn auðvelliga ok leggz niðr ok lætr sem ekki sè í orðit. En menn voro mjök ölóðir á Sæbóli, ok vissu ógerla, hvat at skyldi gera; kemr þetta mjök á menn óvart, ok tóko menn af því eigi svá skjótt þat ráð, er hlýddi. Þá mælti Eyjólfr ór Otrardal: „Hèr eru orðin mikil tiðinde ok fólk þat vitlaust, er hèr er inni[3]. Nú sýniz mèr þat ráð, at kveikja ljós, en nokkorir laupi til dyranna, at ekki megi þar út komaz". Nú var svá gert, ok þykkir mönnum undarligt, er ekki verðr vart við manninn; ok þótti mönnum nú sem nokkorr mundi þar inni vera, er verkit hefir unnit. Líðr nú svá þar til er dagr kemr. Síðan var tekit lík Þorgríms ok kippt í brott spjótino, ok gerði þat Börkr bróðir hans. Er nú Þorgrímr til graftar búinn ok fara þar með lx manna, en aðrir lx fara á Hól til Gísla. Þá kemr Þórðr enn huglausi inngangandi, ok segir, at herr manna ferr[4] at bænum. „Þat er vel" segir Gísli, ok kvað þá vísu þessa:

30 Fellr ė ec fullum
folkruñr hıar[5] muñe
roðit hefic mg[6] maña
morð vıð hvıu[7] orðı
latum vær þott vaga
vigruð hnigiñ lıGı

1) gegnō *b.* 2) ei *b.* 3) *Haandskrifterne interpungere saaledes:* iñi (ıñe *a*) nu, ſyniz *o. s. v.* 4) færi *b.* 5) hiarar. 6) marg. 7) hv'le.

komeɴ e'[1] þus i þeſsa[2]
þioð ū[3] ofs ſem hlıoðaz.

Nú koma þeir á Hól, Þorkell ok Eyjólfr hinn grái. Þeir gengu þegar inn, ok at lokrekkju þeirri, er Gísli hvíldi ok kona hans með honum. Þorkell bróðir Gísla gekk fyrir, ok upp í lokrekkjugólfit, ok sèr, hvar skuor[4] Gísla liggja ok eru síldir allir; hann skarar þá upp undir rekkjustokkinn með döggskónum, svá at ekki mátti sjá þá. Gísli fagnar þeim vel ok spyrr tíðinda. En þeir kvoðuz segja bæði mikil ok ill, víg Þorgríms freysgoða, ok hversu atburðir höfðu þar vorðit. Þeir spyrja, hvat nú skal til ráða taka, eðr hverju hann ætlar at gegna mune. Gísli mælti: „Skammt verðr hèr nú illra verka í milli ok stórra. En til þess viljom vær bjóðaz, at heygja Þorgrím; ok eigi þèr þat at oss; er þat skylt, at vær gerim[5] þat með sæmd". Ok þat þiggja þeir Eyjólfr. Fara þeir nú heim til Sæbóls. En eptir þat búaz þeir til haugsgerðar með líkit; leggja þeir Þorgrím í haug ok í skip; verpa þeir nú hauginn at fornum sĭð. Nú gengr Gísli inn til óssins ok tekr upp stein mikinn, nær sem bjarg væri; hann gengr at skutstafninom, ok setr þar niðr steininn, svá at nær þótti skipit hrökkva fyrir ok braka þótti í hverju trè. Gísli tók í stafninn við, ok mælti: „Ekki kann ek skip at festa, ef þetta tekr upp". Ok var þat nokkorra manna mál, at hann þótti mjök mynda eptir því sem Þorgrímr hafði áðr fyrir gert, þá er hann ræddi um helskuona[6]. Bjogguz þeir nú í brott þaðan frá haugnum. Gísli mælti þá við Þorkel bróður sinn: „Þat þykkjomz ek at þèr eiga, bróðir", segir hann, „at nú sè frændsemi okkor[7] ok vingan sem þá er bezt hefir verit, ok takim vær upp leika eða aðra gleði,

1) er. 2) þeſſa. 3) úm. 4) ſkuor. 5) ȝum a. 6) helſkuona.
7) *Gisning for* ockar.

eptir því sem öðrum mönnum er títt". Þorkell tók því vel; ok fara nú heim hvárirtveggjo. Gísli gaf góðar gjafir Þorkatli hváromtveggja ok svá mágum sínom; er nú slitit boðino, ok hefir Gísli eigi allmannfátt. Nú er erfi drukkit eptir Þorgrím á Sæbóli, ok gefr Börkr mörgum manni góðar gjafir. Hann kaupir ok við Þorgrím nef, at hann magni seið, svá at þeim manni verði ekki at björg, er Þorgrím hefir vegit, ok hann megi sèr hvergi ró eiga á landi; Börkr keypti at honum fyrir[1] uxa ix vetra gamlan. Ok síðan gerði Þorgrímr sèr seiðhjall, at þeim sið, er þá var títt, ok lagði hann á þat alla stund ok kraft. Skilja þeir nú boðinu, ok fara heim eptir þat, hverr til síns heimilis.

Þat gerðiz til tíðinda, at snæ festi ekki utan sunnan á haugnum ok ekki fraus þar, ok gátu menn þess til, at hann mundi vera svá þekkr Frey, at Freyr mundi ei vilja at frysi milli[2] þeirra. Svá fór nú fram um hríð, ok áttu þeir leika saman. Nú gengr Börkr í bú á Sæbóli ok gengr at eiga Þórdíse bróðurkonu sína; skyldi þá hverr taka þann arf, sem annan, eptir frændr sína. En hón var þá ekki heil kona, ok átti Þorgrímr barn þat með henni, er hón gekk með; ok er at þeirri stundu kom, er hón skyldi lèttari verða[3], ól hón sveinbarn; ok var sveinn sá vatni ausinn, ok nefndr Þorgrímr, eptir föður sínom; en er hann vóx upp, þá þótti hann vera þungr í skape ok óeirinn við allt, ok var þá snúit nafni hans ok kallaðr Snerrir, en því næst var hann kallaðr Snorri.. Börkr bjó þar þau misseri. Kona er[4] nefnd Auðbjörg, er bjó í ofanverðum Haukadal, á Anmarkastöðum; hón var systir Þorgríms nefs; hón hafði átt sèr bónda, er Þorkell hèt, ok var kallaðr anmarki, er fyrr var nefndr í sögunne. Sonr þeirra hèt Þorsteinn;

1) *Tilføiet i Følge Gisning.* 2) a mille *b.* 3) ve'' *a.* 4) *Fattes i b.*

hann var þá ernastr maðr annarr enn Gísli. Þeim var jafnan skipat í leik Þorsteini ok Gísla, en þeim sèr Þorkeli ok Berki. Einn góðan veðrdag var fjölmenni mikit at leikum; lèkuz þeir þá við Börkr[1] ok Þorsteinn, ok hafði Börkr[1] ekki við; þá reiddiz Börkr[1] ok braut í sundr knatttrèð Þorsteins; en Þorsteinn felldi hann ok rak hann niðr við svellinu. En er Gísli sá þat, þá mælti hann, at hann skyldi leika sem hann hefði föng á — „Ok mun ek skipta trjám við þik" — ok svá gerðu þeir. Nú sezt Gísli niðr ok gerir[2] at trènu því er Þorsteinn hafði átt, ok horfir á hauginn Þorgríms, ok var snærr á landi annarstaðar, enn í útsuðr á hauginum — þar var snjólaust ok þítt sem á sumarsdag; en konurnar sátu meirr upp í brekkuna; var þar Þórdís ok margar aðrar, er gaman þótti at horfa á leikinn. Þá kvað Gísli vísu:

33 Teina ſa ec i tune
talgrims viñ[3] falu
gaurs þ'[4] e'[5] geig ū[6] veittac
gunñgliks þa mikla
nu hefic gunſtæri geira
gmu[7] þrott um ſottan
þañ let ec lunð [of lenðan[8]
lanð koſtuð ar branða.

Þórdís systir hans heyrði vísuna, ok nam þegar. Hón gengr nú heim ok hefir ráðna vísuna í hug sèr. Þorgeirr hèt maðr, ok var kallaðr orri; hann bjó á Orrastöðum. Bergr hèt maðr, ok var kallaðr skammfótr; hann bjó á Skammfótarmýri fyrir vestan ána. Nú tala þessir menn með sèr um leikinn, ok þykkir sinn veg hvárum þeirra, ok deila þeir loks ór þrætunne; er Bergr með Berki, en Þorgeirr

1) *Rettet for* G. 2) g'þi *b.* 3) vinar. 4) þeſs. 5) er. 6) um.
7) grimu. 8) *Eet Ord fra* [.

með Þorsteini; ok eigi lýkr þar fyrr, enn Bergr hleypr upp ok lýstr Þorstein öxarhamarshögg ok kveðr hann vera ekki at manna — segir, at hann muni at síðr leika til móts við Börk, at hann kveðr hann ekki skulu þora í móti at gera, þótt hann slái hann. En Þorgeirr stendr þá milli þeirra, ok er hann til samnings; ok nú færr Þorsteinn ekki hefnt sín, ok skiljaz þeir nú at því. Ferr hann nú til móður sinnar Auðbjargar, ok bindr hón um; því at höggit hafði komit í höfuðit, ok hafði sprungit fyrir. Auðbjörg sofnar eigi skjótt um kveldit, ok gengr hón ýmist[1] út eða inn, ok er henni þungt í skapi. Þá var á kalt veðr ok logn ok heiðbjart. Hón[2] gengr þá nokkorum sinnum annsælis um húsin; ok eptir þat skipaz veðrit ok gerir á fjúk ok krapa-drífu. Þat verðr tíðinda á þeirri nótt, at hlíðin brestr yfir bænum á Skammfótarmýri, ok hleypr skriða ór fjalli yfir bæinn Bergs, ok fá þar xij menn bana, ok sèr enn gjörla merki jarðfallsins. Eptir þat ferr Þorsteinn, ok segir Gísla, hvat títt er; kveðr þessu valda móður sína. Gísli skýtr yfir hann skjóli, ok lætr hann fara suðr til Borgarfjarðar ok kom honum þar utan. En Börkr fór upp á Anmarkarstaði[3], ok tekr Auðbjörgu höndum, ok fór með hana á Saltnes, ok var hón þar börð grjóti í hel; því at allir menn höfðu þat fyrir satt, at hón[2] hefði valdit[4] þessum tíðindum. Ok eptir þetta ferr Gísli heiman fám nóttum síðarr, ok ferr á Nefstaði, ok tekr Þorgrím nef höndum, ok færir hann á þat sama nes; ok er dreginn kálfsbelgr á höfut honum, ok er hann barðr grjóti í hel, ok jarðaðr þar hjá systur sinne, á hólunum milli Haukadals ok Meðaldals. Nú líðr af vetrinn, ok ferr Börkr um vorit suðr á Þórsnes, ok ætlar hann þangat at ráðaz[5] ok þikkiz enga[6]

1) z for st. 2) hun a. 3) Saal. 4) veldit a. 5) raðazt a.
6) önga (ö udtrykt ved det i Haandskrifter hyppige, af á og v sammensatte Tegn) a.

virðingarför farit hafa vestr þagat[1] — misst þar þvílíks bróður síns sem Þorgrímr var, en fengit enga leiðrèttu. Börkr býr nú ferð sína suðr, ok ætlar nú at skipa til bús síns þar ok fá þar til þess er þurfti at hafa, en ætlaði þá at gera aðra ferð eptir fè sínu ok konu. Þorkell Súrsson rèðz ok í för með honum, mágr hans, ok ætlar hann at ráðaz suðr þangat. Þat er mælt, at Þórdís Súrsdóttir leiddi þá á götu. Þá mælti Börkr: „Nú vil ek, Þórdís, at þú segir mèr þat er ek hefi þik stundum eptir spurt". „Hvat er þat?" segir hón. „Hví þú vart svá úglöð[2] it[3] fyrra haust, er vær lukum leikunum; ok því hefir þú mèr heitit, at segja mèr, áðr ek rèðumz suðr í Þórsnes". Ok nú eru þau komin mjök inn at haugnum Þorgríms, er þau talaz þetta við, ok nú stingr hón fótum við, ok kvez ekki ganga mundu lengra, ok segir honum nú þetta, er hann spyrr at, ok hversu Gísli hafði kveðit vísuna, er hann gerði at knatttrènu of haustit, ok hann leit til haugsins við, er hann kvat vísuna. Síðan kveðr hón vísuna fyrir Berki — „Ok ætla ek" segir hón, „at[4] ei þurfir þú annan veg eptir leita, enn hèr, um víg Þorgríms, þar sem Gísli játti sjálfr í vísunne, ok manu[5] rètt búin mál á hendr honum". Börkr varð við þetta óðr — „Ok vil ek nú" segir hann „aptr snúa ok drepa Gísla, ok er nú ráð at dvelja eigi við". Þórdís segir, at hón mun ęigi við þat samþykkjaz — „Ok veit ek enn eigi hvort þetta er satt eðr ekki" segir Þórdís; „ok eru jafnan köld kvenna ráð. En þótt svá illa sè sem nú er rætt, þá er þat ráð, Börkr, at fara landslögum fram um þetta mál ok gera mann sekan; því at þú hefir málaefni svá brýn, at bíta mun Gísla sökin, þótt honum vęri nokkor vorkunn á; manom

1) þangat *b.* 2) oglöð (*ö udtrykt paa den S. 118 Note 5 omtalte Maade*) *a.* 3) et *a.* 4) *Faltes i b.* 5) mane *b*, munu *a.*

vær þá ok leiða hjá oss þetta mál, sem vær megom, ef þannig er at farit; en þèr er betra at spilla eigi málaefnum þínum ok rasa svá fyrir ráð fram". Ok getr hón þetta niðr barit. Ok ríða þeir eptir þat Sanda-leið, þar til er þeir koma yfir Sandsós; þar stíga þeir af hestum sínum ok æja þar. Þá segir Þorkell, at hann vill hitta Önund mág sinn, ok kvez mundu ríða fyrir hart. Ok er feir sýn, þá ríðr hann þegar út á Hól, ok segir, hvat títt er, at Þórdís hefir nú sagt, at hann hefir vegit Þorgrím — „Ok er nú upp komit málit fyrir alþýðu". Gísli þagnar, ok kvað síðan vísu:

35 Gatað ſalfaſtr[1] ſyſtr
ſveıg' miñ at eiga
gætiñ [Giuka ðottr[2]
Guðruñ hugtunū[3]
þà e'[4] logſaga[5] lægis
let ſiñ[6] af hug ſtiñum
ſva rak hon ſniall[7] bræð
ſaur freyıañ nær ðeyia.

„Ok varði mik þó eigi þess" segir hann, „at hón mundi þat gera. En hvat skal ek þar eiga sem þú ert, frændi" segir hann, „slíkt sem ek hefir nú gert?" „Þat[8]" segir Þorkell, „at vara þik við, ef ek verð þess varr, at menn vill sitja um líf þitt; en bjargir veiti ek þèr engar[9] aðrar svá at þar fyrir megi mèr sakir gefa. Þykki mèr [þú ok[10] mikit hafa við mik afgert — drepit bæði mág minn ok fèlaga ok virktavin". „Já!" segir Gísli; „var ekki þess von fyrir slíkan mann sem Vèsteinn var, at nokkor mannhefnd mundi fyrir koma? Ok eigi munda ek þèr svá

1) ſalfaſtrar. 2) *Eet Ord fra* [. 3) hugtunum. 4) er. 5) loglagá. 6) ſinn. 7) ſniallra. 8) *Tilföiet i Fölge Gisning.* 9) ongr *a.* 10) oc þu *fra* [ *b.*

svara, sem nú gerir þú við mik; ok ekki heldr skylda ek svá gera". Síðan skiljaz þeir bræðr, ok ferr Þorkell til fundar við þá Börk. Ríða þeir nú vestr yfir heiði. Lèttir Börkr eigi fyrr, enn hann kemr suðr í Þórsnes, ok skipar þar til búss síns. Þórkell Súrsson kaupir sèr land á Barðaströnd, þat er í Hvammi heitir. En er líðr at stefnudögum, þá ferr Börkr við lx manna vestr í fjörðu, ok ætlar at stefna Gísla til Þórsnessþings, ok var þar Þorkell í ferð með honum, mágr hans, Súrsson, ok þeir systursynir Barkar, Þóroddr ok saka-Steinn, synir Þórdísar, Þorsteinsdóttur þorskabíts[1]; Þorgrímr hèt ok austmaðr, er í förum var. Fara þeir nú þar til er þeir koma til Sandaóss. Þá segir Þorkell, at hann á fè at heimta á þeim bæ, er á Hólum heitir, fram fyrir á leiðina — „Ok vil ek ríða fyrir"; ok svá gerir hann. En er hann kemr á bæinn, biðr hann húsfreyju skipta hestum við sik — „En lát þenna sama standa fyrir durum úti, minn hest, með öllum söðulreiða sínom; ok er þeir koma hèr förunautar mínir, þá seg þeim, at ek sè inni ok telja silfr". Hón[2] gerði eptir því sem Þorkell beiddi, fær honum annan hest; ok ríðr hann skyndiliga út á Hól, ok finnr Gísla, segir honum enn, hvat nú er um at vera. Gísli spyrr Þorkel enn, hvat[3] hann skal nú ráðs taka, eða hverja ásjá hann vill honum veita. En Þorkell svarar sem fyrr, at hann vill ekki annat veita honum, enn vara hann við, ef honum er við nokkoru[4] hætt. Þorkell ríðr nú á brott, ok snýr svá leið sinne, at hann kemr á bak þeim Berki, ok hefir hann þá tekit hest sinn; hann tálmar fyrir þeim slíkt er hann má ok seinkar förinne[5]. En er þeir bræðr hafa skiliz, Þorkell ok Gísli, þá tekr Gísli eyki ij, ok ekr fè sitt til skógar, svá sem

1) þoska bitz *b*. 2) hun *a*. 3) hvað *b*. 4) nockuru *a*. 5) *b tilföier ved en Skrivfeil:* seinkar h faurine.

hann má við komaz ok Þórðr enn huglausi með honum. Þá mælti Gísli við Þórð: „Opt[1] hefir þú mèr vel gefiz ok verit mèr jafnan hlýðinn ok gert minn vilja, ok á ek þèr þat vel at launa". Þat var jafnan búningr Gísla, at hann var í blárri kápu, ok var hann opt vel búinn. Ok nú segir Gísli Þórði: „Ek vil nú gefa þèr kápuna, ok far þú í, ok sit síðan í sleðanum; en ek mun leiða eykinn ok vera í kufli þínom". Þeir gera nú svá, ok þakkar Þórðr honum vel gjöfina. Ok enn mælti Gísli: „Þat skaltu varaz, þótt svá sè, at menn fari eptir okkr, at svara aldri, þótt á þik sè kallat. En ef svá illa verðr, at nokkorir[2] vill þèr mein gera, snú undan til skógar, ok látum hann gæta okkar". Þeir skipta nú klæðunum. Þórðr var nokkot[3] glíkr Gísla í ferðinne ok mikill maðrinn vexti. Nú sjá þeir Börkr för þeirra Gísla, er þeir fara til skógarins, ok hleypa eptir þeim þegar slíkt er þeir mega. Ok er Þórðr sèr þat, þá hleypr hann ór sleðanum þegar sem hvatast[4] ok til skógarins. Þeir þykkjaz[5] þar kenna Gísla, ok leggja þegar eptir honum, ok kalla á hann, en hann þegir við. Þá skýtr Þorgrímr austmaðr til hans, ok kemr skotit miðli herða honum þrælinom, ok fellr þegar við, ok þarf ekki fleira. Þá mælti Börkr: „Skjót þú allra manna heilastr!" Þeir bræðrnir mæltu sín í milli, Þóroddr ok saka-Steinn: „Viljom vèr leggja eptir þrælnum, ok vita, ef nokkor veiðr sè í honum". Þeir snúa nú eptir honum. En er þeir Börkr koma til blákápumannsins, draga þeir af honum kápuna, ok kenna, hverr er; þykkir þeim nú eigi svá mikit happ í verkinu, sem þeir hugðu til; kenna þeir nú Þórð enn huglausa. Þat er nú sagt, at þeir koma at skóginom, bræðr; sjá þeir þá Gísla ok kenna hann. Þá skaut annarr þeirra

---

1) op *(forskrevet)* a. 2) nockoR b. 3) nockut a. 4) z *for* st. 5) þickiaz a.

spjóti til hans; en hann hendir á lopti ok sendir aptr, ok kemr á Þórodd miðjan ok flýgr þegar í gegnum hann. Þá snýr Steinn aptr í[1] móti þeim fèlögum sínom, segir þeim þessi tíðindi. Þeir fara síðan allir til skógarins. Ok nú sèr austmaðrinn, at limarnar hræraz í einom stað; hann skýtr þangat til spjóti, ok kemr í kálfa Gísla. Hann sendir aptr spjótit, ok leitar svá staðar, at kemr á austmanninn miðjan, ok fær hann af því bana. Nú leita þeir Börkr um skóginn, ok finna hann ekki; hverfa síðan aftr til bæjarins Gísla, ok búa mál til á hendr honum; því at nú voro brýn málaefni, ok þurfti nú eigi getsakir at sækja. Öngum lut ræntu þeir þar. Ferr Börkr nú heim við þetta, ok unir illa við sína ferð.

Gísli ferr nú upp á fjallit, er stendr hjá bæ hans, ok bindr þar sár sitt. Hann er þar meðan þeir Börkr eru heima á bænum, ok sèr hann þaðan öll tíðindi. Síðan snýr hann heim til bæjarins[2], er þeir fara brott; býr síðan ferð sína í[3] brott af Hóli með allt sitt. Hann selr landit Þorkeli Eiríkssyne, ór Keldudal, ok tók fyrir lausafè þat er honum var mjök innan handar. Hann fær sèr skip ok flytr fè sitt, ok búferli brott þaðan. Kona hans ferr með honum. Þá fara þau út eptir Dýrafirði, ok svá vestr fyrir Slèttanes, ok síðan inn til Arnarfjarðar; bar hann vestr at Laugabólshlíð, ok gekk þar á land, ok hittir smalamann. Hann spyrr, hverr hann væri[4]. En hann segir slíkt til[3] sem honum sýndiz. Gísli fær sèr hall einn, ok kastaði út í skerit, er lá fyrir landi, ok reyri til sjálfr at forvitnaz um, ok fundu þar hallinn sem niðr hafði komit. Gísli bað þar bóndason eptir gera, þá er hann kvæmi heim — „Ok mun hann þá vita þikkjaz, hverr maðrinn verit hefir" — því at þetta var

1) a *b*. 2) bæarins *b*. 3) Falles *i b*. 4) veri *b*.

enkis[1] manns kast annars, því at hann var betr búinn at íþróttum, enn flestir menn aðrir. Gísli stígr nú á skip, ok rær út fyrir Langanes, ok inn á fjörð þann, er Geirþjófsfjörðr heitir; hann gengr af Arnarfirði; býst hann þar um. Síðan sendir Gísli orð mágum sínom, Helga ok Sigurði ok Vestgeire, at þeir fari til Þórsnessþings, ok byðe sættir, svá at hann yrði ekki sekr. Þeir voro þá ungir at aldri. Fóru þeir nú til þingsins, Bjartmárssynir, ok kvámo engo til leiðar um sættina; því at Börkr hinn digri var svá óðr, at ekki mátti um þat leita við hann. Ok nú kemr þeim í allt í[2] skap, er Gísli var sekr görr, mágr þeirra. Fara þeir síðan vestr aftr ok hitta Þorkel auðga ór Alviðru, ok segja honum, hvat títt er; biðja hann hitta Gísla, en kvoðuz ei þora at segja honum sekt sína. Ok verða engi tíðindi á þinginu önnor enn sekt Gísla. Eptir þetta ferr Þorkell ok segir Gísla sekt sína. Þá kvað Gísli vísu þessa:

39,1 Munðıð þa a.þ̄sneſi
mala lok a miñe ſauk
ef Veſteins væri hiarta
[Bit m̄s[3] ſonū i brioſt lagit
2 þa glupnuðu e'[4] glað' ſkylldu
moðrbræðr miñar kvonar
ſem eiðenðr eigi[5] væri
ſıarð' ðags ſulu loſn'.
3 Luku þungliga a þinge[6]
þau[7] eru[8] orð komiñ norðañ
ſalðeılanði ſolar
ſomlyſt[9] a mer ðomi

1) eınkis *b.* 2) *Saal.* 3) Biart nis *fra* [. 4) er. 5) ecki. 6) þingi. 7) þau. 8) ero. 9) ſomlauſt.

40, 1 þ̄ a ec blaſerkiar berki
baru hrejns[1] oc Steine[2]
veitt' ðags ens vegna
vallðr h'mila[3] at giallða.

Þorkell hvárrtveggi segir svá, at þeir mani[4] skjóli yfir hann skjóta, með þeim hætti, at þeir láti ei fyrir þat eignir sínar. Gísli var nú iij vetr hina[5] næstu ýmist[6], at hann var í Geirþjófsfirði eða með Þorkeli enom auðga, ok var með honum á laun. Aðra iij vetr fór hann um allt land ok hittir höfðingja ok biðr þá liðs; en nokkut bægði allsstaðar[7], svá at hvergi hreif við. En þó var hann leingstum þá stund með Þorkeli Eiríkssyni, ok líðr nú svá aðra iij vetr, ok hefir hann nú verit vi vetr í sektinne. En svá beit á með miklu fári ok fjandskap[8] seiðrinn Þorgríms nefs, at eingir[9] vildu duga honum til fulls. Ok eptir þat var hann í Geirþjófsfirði, stundum á bæ þeim, er Auðr rèð fyrir, en stundum var hann í fylsni því, er hann hafði gert sèr; þat var fyrir norðan ána; en annat fylsni átti hann fyrir sunnan ána við kleifarnar; ok var hann þar ýmist. Ok er Börkr spyrr þetta, þá býr hann heiman för sína ok hittir Eyjólf hinn grá, er þá bjó í Otradal í Arnarfirði; ok skorar Börkr á hann, at hann drepi Gísla í sektinne, ok leiti eptir honum, hvar sem hann er niðr kominn; kvez mundu gefa honum til þessa ccc silfrs þess er allgott er, at hann legði á alla stund at koma þessu fram. Þeir kaupa nú þessu, ok ferr hann heim eptir þat; en Eyjólfr tók við fènu. Sá maðr var með Eyjólfi, er Helgi hèt, ok var kallaðr njósnar-Helgi. Eyjólfr sendi hann inn í Geirþjófsfjörð, at vita, hvort Gísli veri heima eða ekki. Helgi hverfr aftr, ok segir Eyjólfe, at Gísli mun heima vera. Eyjólfr

1) hreins. 2) ſteini. 3) hermila. 4) mune *a*. 5) ina *b*.
6) z *for* st. 7) all ſtaðr *b*. 8) ſiandſcaps (*Skrivfeil*) *b*. 9) engv' *a*.

ferr nú við hinn viij. mann, ok hittir ekki Gísla, ok ferr hann heim við svá búit. Gísli var vitr maðr ok draumamaðr mikill ok allra manna berdreymastr. Frá því er glöggt sagt, at hann hafi manna leingst gengit í sekt sinne, annarr enn Grettir Ásmundarson; xviij vetr segja flestir menn[1] at Gísli hafi verit í sekt sinne. Þatt er sagt eitt haust, at Gísli lætr illa í svefni, ok var hann þá heima á bænum Auðar, ok spyrr hón[2], er hann vaknaði, hvat hann dreymdi. En hann svarar: „Ek á draumkonur ij, ok er mèr önnur vel viljut ok ræðr jafnan heilt, en önnur segir mèr jafnan þat er mèr þykkir[3] illa ok spár mèr illt; ok nú dreymdi mik sú en verri konan. Ek þóttumz[4] ganga at skála miklum, ok voro þar inni margir [mínir vinir[5] í skálanum, ok frændr; þeir drukku við elda; en vij voro eldarnir ok voro sumir mjök brunnir, en sumir sem glaðastir. Þá kom en betri draumkonan þar, ok mælti: 'Nú skal gera vinveitt við þik, Gísli' segir hón[2]; 'mun ek nú segja þèr fyrir, hvè marga vetr[6] þú átt ólifat; eldar þessir merkja aldr þinn; en þat ræðr ek þèr' segir hón, 'at[7], meðan lifir, skalt fyrirláta fornan sið ok öll blót önnur; öngva skaltu galdra nema, nè fyrnsku, ok vertu vel við haltan ok blindan ok þèr minni menn; ok vætti ek' segir hón, 'ef þú ferr svá með, at þèr dugi vel; en svá marga átt þú vetr ólifat, sem eldarnir voro óbrunnir'. Ok síðan vaknaða ek". Þá kvat hann vísur þessar:

41 Fellð kom ec iñ þʳ e'[8] ellðʳ
[uñ furs[9] i ſal bruñu
eiri͂ oru þar ꝍra[10]
ėn oc vi at meine

1) *Fattes i b.* 2) hun *a.* 3) þick' *a.* 4) þottiz *b.* 5) vin' min' *fra* [ *b.* 6) *Tilföiet i Fölge Gisning.* 7) a *a.* 8) er. 9) *Eet Ord fra* [. 10) aura.

ſa ec blıþliga[1] baþ[r 2]
beckſagn' m'[3] fagna
hroðr ðeil'[4] bað heılañ
hv'n mañ i þvi rañe
42, 1 Hyɢit at qvað Agðe[5]
aɴſpille vanr branða
millðr hve m̊gir[6] ellðar[7]
malmruñr i ſal bruñu
ſva attu qvað bil blægıu
biarg olifat m̊gañ[8]
veðr ſkiollðunga vellði
vetr nu er ſkamt t[I 9] bet[ω]
2 Gıoraz ſk̄tu næmr qvað naʋma[10]
nıðleiks ara ſteikar
aʋr[11] nema allgott heyr'[12]
ıðia gallðrs at ſkallðū[13]
fatt qveða fleina braʋt[r 14]
fur þveʀanða veʀa
ranð[r] logs hins renða
ruñr eñ illt at kuña
3 Vallð e̊ þu vigi
v'tu otyr̄ıñ[15] fyʀi
morðz √[16] mæti nıorðu
m'[17] heitið þvi ſleitiñ[18]
baʋgſenð'[19] hialp þu blinðum
ballðr hyɢ[20] þu at þvi[21] ſkiallð[r]
illt qveða hað at holltum
hanðlaʋſum[22] ti granða.

---

1) blıðliga. 2) bað[r]. 3) mer. 4) ðeılır. 5) Agðı. 6) margir. 7) ellð[r]. 8) margañ. 9) til. 10) nauma. 11) aur. 12) heyrir. 13) ſkallðum. 14) braut[r]. 15) otyriñ. 16) vıð. 17) mer. 18) ſleitin. 19) baugſenð'. 20) hygg. 21) þ[a]. 22) hanðlauſum.

Nú heldr Börkr á málinu við Eyjólf, er þeir hittaz; þykkir honum ekki eptirleitin hans verða sem hann hafði heitit honum, ok eigi mikit koma fyri[1] fè þat, er hann hafði fengit honum, en þykkiz þat vita, at Gísli var vestr þar í fjörðunum; biðr hann nú eptir leita, ella hann kvez [mundu eptir[2] leita sjálfr — „Ok er báðum okkr þetta mikil skömm, at fá ei drepit Gísla, slíkir garpar ok höfðingjar sem við[3] erum ok þykkjumz vera". Eyjólfr heitr enn at leita eptir Gísla; ok skiljaz þeir at því. Nú ferr njósnar-Helgi í annat sinn, ok[4] hefir[5] með sèr vist. Hann er í brott viku, ok sitr um síð ok snimma, ef hann yrði varr við Gísla. Nú sèr hann einhvern dag, hvar Gísli gengr frá leyni síno neyrðra, ok kennir hann; ferr nú í brott við[6] svá búit, ok segir Eyjólfe, hvat títt er. Hann býr nú ferð sína við x^da mann. Ferr hann í Geirþjófsfjörð ok hittir á bæ Gísla, ok er Gísli eigi þar. Þeir leita hans um skógu alla í nánd, ok finna þeir hann ekki. Þá fara þeir heim til bæjarins; ok segir Eyjólfr Auðe, at hann mun gefa henni fè mikit til, ef hón vill segja til Gísla; en þat tjár ekki; ok þá ógnar hann henni ok ætlar at skelfa hana með harðindum, ok hefir ekki at sök. Ferr Eyjólfr heim við svá búit ok unir illa við sína ferð. Er nú kyrrt allt um haustit. Gísli þykkiz[7] nú vita, at ekki má duga svá búit, ok ætlar nú, at hann muni tekinn verða, ef hann heldr þar við. Ferr Gísli nú heiman, ok ríðr til Barðastrandar, at hitta Þorkel bróður sinn í Hvammi. Gísli drepr þar á dyrr á svefnhúsi því, er Þorkell sefr í. Þorkell heilsar honum, ok spyrr, hvat hann vill. Gísli kvez nú vilja vita, ef hann vill nokkot[8], á hans mál líta, ok kveðr nú mjök at sèr þröngt — „Hefir

1) f' *(den i begge Haandskrifter sædvanlige Forkortelse af dette Forholdsord) a.* 2) eptir [illegible] *fra* [ *b.* 3) ᚹ *a.* 4) *Fattes i a.* 5) hefr *b.* 6) *Fattes i b.* 7) þickiz *b.* 8) nockut *a.*

ek þik, bróðir, lengi til sparat, ok vænti ek nú af þèr góðrar liðveizlu". En Þorkell svarar hino sama, ok kvez ekki manu[1] veita honum björg svá hann hefði fè sitt í hættu eða sjálfan sik, svá at honum mætti[2] sakir á því gefa — „En fá mun ek þèr fararskjóta ok silfr nokkot[3], ef þú þykkiz[4] þurfa, ok aðra luti, svá sem ek hefir fyrr sagt þèr[5]". „Sè ek nú" kvat Gísli, „at þú vill mèr ekki lið veita, bróðir, svá at þú hafir nokkot[3] þitt í hættu. Fá mèr nú ccc vaðmála, ok ætla ek hèðan frá sjaldan at krefja þik tillags[6]". Þorkell fær honum nú c vaðmála ok silfr með; ok skiljaz[7] þeir eptir þetta, ok kvað Gísli ekki mundu sèr verða svá til hans. Síðan ferr Gísli út í Haga, til Þórunnar móður Gests hins spaka, ok kemr hann þar áðr dagat er; drepr hann þar á dyrr, ok gengr húsfreyja út. Hón átti opt vanda til þess at taka við skógarmönnum; átti hón sèr jarðhús, ok var annarr munni við ána, er fellr nærr bænum, en annarr var í eldhúsi hennar; ok sèr þess enn merki. Þórunn fagnar honum vel; en Gísli skorar á hana til viðtöku[8]. Hón kvez víst mundu hlífa honum nokkora stund, ef hón mætti; en kvað þat þó kvennvælar einar mundu verða. En hann kvez á þat hætta mundu ok gjarna þiggja vilja; kvat körlum eigi svá vel til sín verða, at örvænt væri[9], at konum tækiz betr. Gísli var þar þann vetr, ok var aldri svá vel haldinn sem þá. En er voraði, fór hann vestr í Geirþjófsfjörð; má hann þá ekki lengr vera frá konu sinni; svá unntuz þau mikit. Hann var þar þá á laun um sumarit, ok til þess haustaði. Ok nú kemr brátt at hit[10] sama, þá er nótt lengir[11], at hann dreymir jafnan, at komi en verri draumkonan at honum.

---

1) mano *b*, munu *a*. 2) matti *a*. 3) nockut *a*. 4) þickiz *b*. 5) s' *a*. 6) *Gisning for* tillag. 7) ſkilia *b*. 8) viðrtocu *b*. 9) vē *a*. 10) it *b*. 11) leng' *b*.

Þat var nú eitt sinn, at Auðr spyrr, hvat hann dreymir — „Eru nú" segir hón „svefnfarar þínar illar". Þá kvað Gísli vísu:

44) Villa ofs af elli
oddstrið' sk biða
m' ggr snofn i svefna
sauma[1] min' draum'[2]
stendr e[3] þ[4] þeigi
þorn reið brag'[5] greiði
aulnanan[6] selr annars
efni m'[7] s' svefni.

Ok nú segir hann henni, at konan sú en verri kom jafnan at honum ok vill ríða á hann blóði ok rjóða ok þvo honum í því, ok lætr hón illiliga við honum. Þá kvað hann enn vísu:

45,1 Eigi verþr[8] en orþa[9]
os[10] lér u[11] þ skorþa[12]
gefn drepr s' m' glaumi[13]
gott or hv'iom[14] draumi[15]
kemr þeg'[16] ec vil blunda
kona v[17] mic t[18] funda
ofs þvær unda flodi
oll i manna blodi

Ok enn kvat[19] hann:

45,2 Sagt hefi ec fra orū[20]
oddflaums[21] viðum draum[22]
eir vþat[23] m'[24] aura[25]
orðfatt e'[26] ec mun lata

1) fauma. 2) draumar. 3) eigi. 4) þat. 5) bragar. 6) aulnannan. 7) mer. 8) verðr. 9) erða. 10) ofs. 11) um. 12) skorða. 13) glaumi. 14) hveriom. 15) draumi. 16) þegar. 17) við. 18) til. 19) kvað b. 20) orum. 21) oddflaums. 22) draum. 23) varðat. 24) mer. 25) aura. 26) er.

vær hafa vapna snæru
vekęnðr þeir e'[1] mic soktu
bryniu hatrs ens betra
beıðenðr ef ec nu reıðūz

Ok nú er kyrrt um hríð.

Þetta haust ferr Gísli enn í Vaðel, til Þórunnar, ok var þar vetr annan með henne. En eptir um sumarit fór hann í Geirþjófsfjörð ok var þar um sumarit til hausts. Ok nú fór hann enn til fundar við Þorkel bróður sinn, ok kemr hann þar í lýsing. Gísli drepr þar á dyrr; ok vill Þorkell ekki út ganga, því at hann þykkiz[2] vita, hverr kominn var[3]. Þá tekr Gísli kefli, ok rístr á rúnar, ok kastar inn um[4] glugg einn, er á var húsinu. Nú sèr Þorkell þetta, ok lítr á keflit. Hann gengr út ok heilsar Gísla ok spyrr hann tíðinda. En Gísli kvez ekki kunna at segja — „Er ek nú kominn á þinn fund, ok ætla ek at þetta skuli vera it[5] síðasta sinn; ok lát þèr nú verða at sem bezt, bróðir! ok veit mèr lið nokkot[6]; því at ek mun nú eigi krefja þik optarr". Þorkell svarar enn hinu sama, at hann kvez eigi mūndu hafa fè sitt í hættu eðr sjálfan sik, ok býðr honum hross eðr[7] skip, ef hann vill leita á brott nokkot[6]; ok þat þiggr hann, ok biðr hann draga fram skipit með sèr. Þorkell gerir svá ok fær honum sexæring einn ok þar með vi vættir matar ok c vaðmála. En er Gísli er á skip kominn, þá stendr Þorkell á landi uppi. Gísli mælti þá: „Nú þykkiz þú standa öllum fótum í jötu, bróðir; ok vera vin margra höfðingja, ok uggir þú nú ekki at þèr; en ek er maðr sekr, ok á ek hvergi vonir skjóls nè traustz; en þat kann ek þó þèr at segja, at þú mant[8] fyrri drepinn enn ek; eða ella er ekki mark at um

1) er. 2) þickiz b. 3) er b. 4) i a. 5) et a. 6) nockut a. 7) eða b. 8) munt a.

mína forspá; ok vænti ek þó, at þat muni ekki af mèr til hljótaz. Manom vèr nú skiljaz at sinni, ok ekki[1] með svá mikilli blíðu sem vera ætti; ok aldregi mundi ek svá til þín gera, ef þú þyrftir mín jafnmjök, ok eitt skyldi þá ganga yfir okkr báða". „Ekki hirði ek um spár þínar" segir Þorkell, „eðr þótt þú hælir drengskap þínom" — ok skiljaz nú við svá búit. Gísli rær nú suðr til Hergilseyjar; hón liggr á Breiðafirði; ok er hann átti skammt til eyjarinnar, þá tekr hann þiljur ok árar frá skipinu ok þoptur, ok síðan hvelfir hann skipinu, ok lætr hann[2] reka skipit inn at nesjum. Ok er skipit fannz, ætluðu menn at Gísli mundi drukknaðr vera, ok mundi hann tekit hafa skipit frá Þorkeli bróður sínom. Gísli gengr nú til Hergilseyjar. Ingjaldr hèt maðr sá, er þar bjó; Þorgerðr hèt kona hans; Ingjaldr var systrungr Gísla at frændsemi, ok kom út til Íslands með honum. En er þeir funduz, býðr Ingjaldr Gísla[2] þar at[3] vera með honum, ok þá björg aðra, er hann má veita honum. En Gísli þiggr þat, ok er hann þar um hríð. Svartr hèt þræll Ingjalds, er þar var með honum; en Bóthildr hèt þý hans eðr ambátt. Helgi hèt son Ingjalds; hann var afglapi, sem mestr mátti vera, ok fífl; hann var mikill vexti sem tröll. Gísli var þar þann vetr. Hann smíðaði verkfæri ok marga luti aðra; þat var allt betr gert, enn þat er flestir menn smíðuðu aðrir, ok hagligra. Nú undraz menn þetta mjök, þeir er þar komu[4] ok sá[5] smíðarnar[6]; því at menn vissu, at Ingjaldr var lítt hagr — en þetta var svá smíðat allt, at langt bar af öðru smíði. Gísli er þar iij vetr í samt; en hann er í[7] brott um[8] sumrum, ok er þá í Geirþjófsfirði; verðr honum þetta at bezta trausti, er Ingjaldr er; ok eru nú liðnir iij vetr frá

1) el *b.* 2) *Falles i b.* 3) h̄ *b.* 4) kvamo *b.* 5) fia *a.*
6) fmíð'n' *a.* 7) *Falles i a.* 8) a *b.*

því er hann hafði dreymt, at því sem draumkonan vísaði honum, at hann mundi ólifat eiga. Nú þikkir mönnum grunsamligt um þetta, ok ráða menn nú, at Gísli muni vera með Ingjaldi, en hafa ekki drukknat sem ætlat var; Ingjaldr á nú ok iij skip ný, ok öll vel gör. Nú grundar[1] Eyjólfr þetta, ok sendir nú njósnar-Helga, at hann verði þessa varr. Ferr hann síðan at vanda sínom, ok kemr síðan í Hergilseyjar. Gísli á sèr jarðhús, ok er hann þar jafnan, þá er menn koma þar. Ok er Helgi hefir verit þar um nóttina, lætr hann sem hann sè sjúkr, ok þykkiz hann hvergi færr. Ingjaldr var á fiski um daginn, ok þræll hans með honum, ok Bótildr ambátt. Ok um daginn, er á leið, gengr Þorgerðr húsfreyja til jarðhúss Gísla ok gaf honum mat sinn; enn þili eitt var á millom[2] svefnhússins, er Helgi svaf[3] í, ok búrsins; ok er Helga grunar þetta, hvert húsfreyja man[4] gengin, klífr hann á þilit upp, ok sèr, at einum manni er matr búinn; ok í því bili gengr hón fram ór búrinu; hann kippiz þá við fast, ok dettr af þilino ofan. Hón mælti þá: „Hví háttar þú þèr svá, at þú klífr[5] í ræfr upp sem þjófar, ok ert eigi kyrr?” „Ek er svá verkóði” segir hann, „at ek má ekki kyrr vera; ok fylgðu mèr til rúms míns”. Hón gerir svá; en síðan gengr hón með matinn, ok færir Gísla. Helgi ríss þá upp, ok gengr þegar á spor henni, ok sèr nú gerla, hvat títt var; leggz hann niðr eptir þat, ok er þar þann dag. Ingjaldr kemr heim um kveldit, ok spyrr, ef Helga batni nokkot[6]. Hann kveðr heldr áleiðis. Er hann þar um nóttina. En um morgininn beiðir hann fars ór eyjonum; kvez hann eiga eyrinde suðr um fjörð; ok er hann fluttr suðr til Flateyjar. Lèttir hann ei fyrr enn hann kemr suðr til Þórsness, ok segir Berki,

---

1) *Burde formodentlig hedde* grunar *og det fölgende Ord staae i Gjenstandsformen.*
2) milli *b.* 3) la *b.* 4) m̌ *b.* 5) *Gisning for* klifr. 6) nockut *a.*

at hann er orðinn varr við Gísla, at Ingjaldr heldr hann í Hergilsey. Síðan býst Börkr heiman, ok xv karlar með honum, ok fara á teinæringe ok sigla sunnan um Breiðafjörð. Ingjaldr er enn róinn á fiski, ok Gísli með honum; en þrællinn ok ambáttin eru á öðru skipi. Þau sitja hjá eyjum þeím, er Stykkiseyjar heita. Nú sèr Ingjaldr [seglit ok skipit[1], er sunnan siglir, ok mælti: „Þar sè ek þá sýn, er mèr er lítt at skapi". „Hvat er þat?" segir Gísli. „Skip siglir sunnan frá Flateyju, ok er seglit stafat rauðu, ok er meiri von, at þar sè Börkr enn digri". „Hvat er þá til ráðs?" segir Gísli, „ok vil ek nú[2] vita, hvort þú ert svá vitr sem þú ert drengr góðr". „Skjótt er nú til ráðs at taka" segir Ingjaldr; „en þó er ek ekki vitr maðr. Róum vit heim at eyjunum, ok förum upp á Vaðsteinaberg ok verjumz þaðan, meðan auðit verðr". „Drengiliga er þetta mælt" segir Gísli; „en ekki vil ek leggja þik svá mjök í hættu, ok mun ek annat ráð upp taka. Ró þú nú heim at eyjunne, ok þrællinn með þèr, ok gangit upp á bergit ok sýnit ykkr; ok mano þeir ætla, at ek muni[3] annarr maðrinn, er þeir sigla sunnan í sundit. En ek mun skipta klæðum við Svart, sem ek gjörða[4] eitt sinn fyrr; en ek mun ganga á selabátinn með Bóthilde. Þurfi þit þá ekki at hirða um okkr". Ok svá gera þeir. „Hvat skulum vit nú at hafaz?" segir hón, „er við[5] skiljumz við Ingjald?" Þá kvað Gísli vísu:

49 Raðz leitar nu ritar
ruðr vekiūz mioð ſuðra
ſkorð þ[6] at ſkiliaz verðum
ſkialld ſteins fra jngialði[7]

---

1) ſcipit oc ſeglit *fra* [ *b*. 2) *Fattes i b*. 3) mun *b*. 4) g'þa *b*. 5) v *b*. 6) þvi. 7) Ingialði.

134

þo mun ec hyrs at hvoru
hafa blafollðar[1] ſcafla[2]
ſnyrti galt ne ec ſyti
ſmið þañz m'[3] verðr auðit[4].

„Nú skulum vit" segir Gísli „róa it beinasta suðr í móti þeim Berki, ok láta sem ekki sè at vandræðum; ok er vèr Börkr finnumz, þá seg þú, at ſiflit sè á skipinu við þèr; því at þess vita allir von; mun ek sitja í stafni ok herma eptir því, ok mun ek allglíkt fá látit því; mun ek vefja mik í vaðnum, ok vera stundum nær utanborðs, ok láta sem ek má ærligast[5]. En ef í sundr berr með oss, ok gefi þeir engan gaum at, ok ráði ekki í þetta, þá skulum við[6] róa bæði slíkt er vit megom, þegar er sýn felr[7] milli vor". Svá gerir hón, at hón rær suðr í móti þeim, ok þar allnær skipinu. Ok er þau Börkr finnaz, kallar hann á hana, ok kenndi, hver hón var, ok spurði, ef Gísli væri í eyjunne. Hón lèzt þat ei vita; „En hitt veit ek" segir hón, „at verit hefir þar sá maðr um hríð, er mikit berr af öðrum mönnum at sjá". „Mun hann þar enn vera?" segir Börkr. „Þar var hann áðr ek fór heiman" segir hón. „Þá berr vel til" segir Börkr — „en hvort er Ingjaldr heima at húse?" Hón segir, at hann reyri fyrir skömmu heim, ok þræll hans með honum, at því er ek hugða". „Þat mun ekki svá verit hafa" segir Börkr, „ok mun þar Gísli verit hafa". „Þar mun ek" segir hón „ekki mikit af taka; en á þetta leit ek, at þrællinn var með þeim þar". „Vel ferr þèr" segir Börkr; „en þetta manom vèr fyrir satt hafa, at Gísli hefir þar verit". Róa þeir Börkr eptir þeim hvatliga — „Því at bíta mætti nú beinfiskr, ef at borði yrði dreginn. Ok er þeir reyru heim til eyjar-

1) blafollðr. 2) ſkafla. 3) mer. 4) audit. 5) z *for* st. 6) v *a*. 7) fellr (*Skrivfeil foraarsaget ved* milli) *a*.

innar[1], mun Ingjaldr ok Gísli hafa sèt skipit, er vær sigldum sunnan, ok brugðit þegar við, er hann sá oss; ok herðum nú eptir honum; því at honum skal nú fyrir allt eitt koma". Þeir segja: „Gaman þykkir oss at sjá á fíflit, hversu þat lætr marga vega" — og sögðu, at[2] hón veri aumliga stödd, er hón skyldi ein fylgja því. „Svá þikkir mèr" segir hón; „en hitt eitt finn ek á, at yðr þykkir hlægiligt, sem vorkunn er, ok harmit mik lítt". Nú skiljaz þau eptir þat, ok koma þeir til eyjarinnar, ok ganga á land at Vaðsteinabergi; en þeir Ingjaldr ok þræll inn eru á berginu uppi. Þá tekr Börkr til orða: „Hitt er nú ráð, Ingjaldr, at selja Gísla fram eðr segja til hans ella; [ok ertu[3] mikill mannhundr, er þú leynir honum hèr, bróðorbana mínom, þar sem þú ert landseti minn, ok ertu ills verðr fyrir slíkt". Ingjaldr segir: „Ek hefi vond klæði, ok þykki mèr ekki mikit[2] fyrir, þótt ek slíta þeim ekki; ok heldr skal ek láta líf mitt, enn gera ekki[4] Gísla allt gagn þat er ek má, eðr firra[5] hann vandræðum". Ok þat hafa menn mælt, at Ingjaldr hafi allra manna[2] mest lið veitt Gísla í sektinne ok honum at mestu gagni vorðit. Þat hafa menn ok sagt, at þá er Þorgrímr nef efldi seiðit, at hann skildi svá fyrir, at honum skyldi ekki at björg verða þat er menn veitti honum á Íslandi; en þetta kom honum ekki[4] í hug, at skilja úteyjar undir[6]; endiz því þetta hóti helzt, þótt ekki væri með fullu. Börkr þóttiz ekki mega veita atgöngu Ingjaldi landseta sínom, ok kvaz ekki nenna at láta drepa hann. Ganga þeir nú til húss, ok leita Gísla, ok finna hann ekki. Fara þeir nú umhverfum eyna, ok koma nú at í einum stað, þar sem fíflit var ok bítr gras, ok var bundinn steinn við hálsinn, í geil einne; ok nú tekr Börkr til orða: „Bæði er nú" ségir

1) *Her er nogen Forvirring.* 2) *Falles i b.* 3) oc ertu, oc setn *fra* [ *a.* 4) ei *b.* 5) *Gisning for* fria. 6) undan *b.*

hann, „at mikit er sagt frá Ingjaldsfífli; enda deiliz þat nú heldr í fleiri staði af, enn mèr þætti glíkinde á vera. Ok er nú ekki hèr á at horfa — hefir oss vorðit svá mikil vanhyggja, at stórum berr; ok ekki veit ek, nær vær getum þessu áleiðis snúit; mun Gísli þar hafa róit í mót oss í dag, er vær ætluðum fíflit, ok ambáttin með honum. Skyndum nú eptir þeim, ok látum hann nú ei undan setja, ok bætum þessa ófför sem fyrst". Róa þeir nú eptir þeim Gísla sem þeir mega, ok sjá brátt, at þau eru langt komin inn á sundin, ok hafa vel rèttstreymt. Ok er þau eru mjök komin inn at landi, þá er Börkr ok hans menn kominn í skotfæri við þau. Þá tekr Gísli til orðs: „Nú manom vit[1] hèr skilja; en hèr eru ij fingrgull, er þú skalt selja í hendr Ingjaldi ok konu hans; þú skalt ok bera þeim kveðju mína, ok þat með, at ek vil, at Ingjaldr gefi þèr frelsi, ok svá Svarti, ok ber þetta til jartegna; seg honum svá, at mèr þykkir[2] þetta allmiklu máli skipta; því at þú hefir mèr líf gefit, ok vilda ek, at þú nytir þess". Ok nú skiljaz þau. Gísli leypr nú á land; ok var þat eyland, er þá var hann á kominn, ok er þó skammt þaðan til meginlands; þetta er fyrir Hjarðarnesi. Gísli hleypr yfir eyna ok í hamraklif eitt á eynni. En Bóthildr rær í brott alsveitug út[3] af mæði ok út á sundit hjá þeim[4]; ok gefa þeir Börkr engan[5] gaum at henni, er þeir sjá hana eina á skipinu. Þeir Börkr[6] róa nú at eynne, ok verðr saka-Steinn skjótastr á land, ok rennr hann þegar yfir eyna at leita Gísla; ok er hann kemr í hamraskarðit, þá stendr þar Gísli fyrir honum með brugðit sverðit, ok keyrir þegar í höfut honum, ok klýfr hann í herðar niðr, ok fellr hann þegar dauðr á jörð.

---

1) ver *b.* 2) þick' *b.* 3) *Dette Ord synes at hidröre fra et tike meget gammelt Haandskrift.* 4) heñl *a.* 5) eingañ *b.* 6) *Naal. rettet (for G.) af Ásgeir selv i b, men ikke i a.*

Þeir Börkr hlaupa nú á eyna ok sjá þessi tíðinde. Gísli leggz þá á sund ok ætlar til meginlands. Börkr fleygir þá spjóti eptir honum, ok kemr í kálfann, ok varð þat mikit sár. Gísli kippir spjótinu, en hann týnir sverðinu, er hann var áðr móðr mjök, ok fekk ekki á haldit. Gísli komz[1] á land í húminu; því at þá tók at myrkva af nótt, ok hleypr hann í skóginn; en þar var víða [vaxit skógr[2]. Nú róa þeir til lands, ok leita Gísla, ok kvía hann í skóginom; því at skógrinn var óvíðr, en Gísli mjök móðr, svá at nærr mátti hann ekki ganga. Hann verðr nú varr við menn á alla vega frá sèr, ok veit hann nú, at þeir sitja um skóginn. Gísli leitar sèr nú ráðs, ok sèr, at honum mun þetta ekki endaz, því at skógrinn var óvíðr, ok mani[3] þeir þegar fá fundit hann, er ljóst er, ok vildi hann ekki þess at bíða, ef svá mætti verða. Hann ferr nú ofan til sjófarins sem hljóðast[4], svá at þeir verða ekki[5] við þat varir. Ferr hann svá inn til Haugs með flæðibökkum í myrkrinu. Hann hittir þar bónda at máli. Refr hèt bóndi sá, er þar bjó; hann var sonr Þorsteins vanstafs. Svá er[6] frá honum sagt, at hann væri manna slægstr. Hann heilsar Gísla vel, ok spyrr hann tíðinda. En hann sagði af skyndinge allt sem farit hafði með þeim Berki. Refr átti sèr konu, er Álfdís hèt — væn yfirlits ok galin í skapi, ok var hón enn mesti kvennskratti; ok var með hjónum et mesta jafnræði. Ok er Gísli hefir sagt honum tíðindin, þá skorar hann á Ref til fulltings ok liðveizlu — „Manu[7] þeir brátt verða vísir, at ek er brott ór skóginom, ok manu[7] þeir hèr skjótt koma. Er nú brátt til ráðs at taka, ef þú vill mèr nokkora ásjá veita". Refr mælti: „Ek mun gera þèr þann kost, at ek ráða einn fyrir, hvè með skal fara, ok hlutiz þú ekki til; hitt er

---

1) komzt *a.* 2) *Saaledes fra* [. 3) mane *a.* 4) z *for* st.
5) ei *b.* 6) var *b.* 7) mano *b*, munu *a.*

elligar, at þú sjáir sjálfr fyrir þèr, ok mun ek eiga at engan[1] lut". „Þetta skal nú þiggja" segir Gísli, „sem þú býðr". „Gakk þú nú inn þá" segir Refr. Ok svá gerir Gísli. Þá mælti Refr við Álfdíse: „Nú mun ek skipta mönnum við þik í rekkjuna". Refr tekr þá upp klæðin öll ór rekkjunne, ok mælti, at Gísli skyldi þar niðr leggjaz á[2] hálminn. Hann gerir svá. Síðan leggr Refr á hann ofan aftr klæðin, ok þar leggz Álfdís ofan á klæðin, ok ferr þar í rekkju sína. Refr mælti: „Verit þar nú í rekkjunne, hvat sem í geriz, ok vertu nú viðskiptis sem þá er þú hefir vest verit, ok spara nú ekki af, í orðalagi, þat er illt er; en ek mun ganga til máls við þá, er þeir koma, ok mæla þat er mèr sýniz". Ok eptir þat gengr hann út ok sèr margra manna för, ok eru þar förunautar Barkar viij saman, en hann var eptir at Forsá. Nú spyrr Refr þá tíðinda, er þeir koma á bæinn; en þeir kunnu honum þau at segja, sem hann hafði áðr spurt. Þeir frètta, ef hann yrði nokkut varr við Gísla. En hann kveðr bæði vera, at hann kvez ekki vilja Gísla við hjálpa, enda kveðr hann Gísla ekki þar komit hafa — „Ok er þat víst, at ek vildi Berki heldr liðsinnaðr, enn mótsnúinn, í því er ek má; því at mèr þykkir engi[3] vera betr at sèr um alla luti, enn hann, ok vilda ek gjarna vera vinr hans; en ekki manu[4] þèr trúa sögu minné, nema þèr rannsakit bæinn; ok vil ek þat fúsliga; ok gangit inn, ok leitit sem þèr villit". En er Álfdís verðr þessa vör, þá geyr hón á þá, ok mælti hvetvetna[5] illt, er henni kemr í hug, ok skortir þar eigi illt orðalag. En Refr er allt með þeim, ok kveðr hana vera eigi meðalfífl[6], at hón gerir ekki mannamun at slíku — „Ok ertu ekki meðalfól". Hón mælir við hann slíkt eðr verra, enn við

1) eingan b. 2) í b. 3) eingi b. 4) mano b, munu a. 5) *Gisning for* hv'vetna. 6) meðalfíflu a.

